# KENNSLUBÓK

í

# BIFLÍUSÖGUNNI,

EPTIR

*SVEND BORCHMANN HERSLEB.*

MAGNÚS GRÍMSSON

ÍSLENZKAÐI.



Kostar óinnbundin 80 skk.

*Reykjavík 1854.*

Gefin út á kostnað prentsmiðju Íslands. Prentuð hjá E. Þórðarsyni prentara.

# TIL LESENDANNA.

*Fyrir nokkrum tíma rjeðst jeg í, að snara á íslenzku bók þessari, sem hjer birtist nú fyrir almenningi. Gjörði jeg það með fram þess vegna, að mjer var fullljóst, hversu biflíusögur Herslebs, hinar minni, sem kallaðar eru, hafa reynzt ónógar fyrir landsmenn, en það eru þær einu* biflíusögur, *sem vjer höfðum á undan þessum á voru máli. Þar að auki vissi jeg og, að þessar biflíusögur Herslebs, sem hjer ræðir um, og menn kalla hinar stærri, eru öllum, að minnsta kosti hinum yngri, menntuðu mönnum hjer á landi vel kunnar, þar eð þær hafa lengi verið hafðar fyrir kennslubók í skóla, og þótt vel til þess fallnar. Það er því, að ætlan minni, nóg meðmæling fyrir mig með þessu fyrirtæki mínu, að benda lesendunum á það, auk þess, sem jeg nýlega tók fram, að jeg hef íslenzkað hana eptir:* Lærebog i Bibelhistorien. Udarbeidet især med Hensyn paa de höiere Religionsklasser i de lærde skoler af Svend Borchmann Hersleb. Nye Udgaves fjerde Oplag. Gjennemseet af Lic. P. E. Lind. Kbh. 1851. *Af þessu sjest bæði tilgangur bókarinnar, sem jeg ætla að vel megi heimfæra til vorra þarfa, og það, hversu hún er í miklu áliti hjá Dönum, þar sem þetta er 4. útgáfa af bókinni síðan hún var endurbætt, en það var gjört 1842, og áður voru komnar margar útgáfur af henni. Það var því,*

*og er enn, ætlan mín, að mjer hafi heppnazt vel í vali bókarinnar, en um þörf slíkrar bókar hjer á landi er enginn efi. Það var og þess vegna ætlan mín, þegar í fyrstunni, að fá hana prentaða, og jeg ætlaði að gefa hana út sjálfur. Eptir tilmælum mínum bauð þá hið íslenzka biflíufjelag mjer 200 rdd. styrk gegn fullu veði til þessa (sjá skýrslu þess 1854, 36. bls.), og votta jeg því þakklæti mitt fyrir það, jafnvel þó jeg gæti ekki notað mjer boðið. Því svo fór, að á endanum keypti prentsmiðja landsins útleggingu þessa að mjer, og er hún því fullkomin eign nefndrar stofnunar. Jeg hef getið þessa til þess, að þeir, sem vissu, að bókin var á ferðinni, og væntu fyr eptir henni, en orðið er, sjái þó, að mjer hefur verið um það hugað, að koma henni á prent, þó ýmsar kringumstæður hafi nokkuð tálmað því.*

*Hvað frágang minn á útleggingunni snertir, veit jeg að honum mun í mörgu ábótavant. Jeg vona þess þó fastlega, að útleggingin standi hvergi fyrir tilætluðum notum bókarinnar, sem jeg óska og vona að verði góð og heilladrjúg fyrir alla þá, sem vilja afla sjer greinilegs og stutts yfirlits yfir hina helgu sögu. Óvanaleg eða óþýð orð og orðatiltæki, svo og prentvillur, sem finnast kunna í bókinni, bið jeg lesendurna að fara með eptir boðorði kærleikans.*

Reykjavík í ágústmán. 1854.

Þýðandinn.

# Inngangur.

Vegna þess, að hin kristnu trúarbrögð eru mönnunum birt af guði, byggja þau og guðdómleika sinn á sögulegum röksemdum, og frásögurnar um þær og kenningu þeirra eru oss birtar í hinum heilögu bókum, sem vjer köllum biflíu, þ. e. bókin í frábrugðnum skilningi (τὰ βιβλία).

Með biflíusögu skilst nú vanalega samfleytt og skilmerkileg grein hins sögulega í biflíunni; en vegna þess, að í henni eru mjög ólík rit frá hinum sundurleitustu tímum, sem ekki eru jafnan um söguleg efni, en hafa þó ætíð nokkur áhrif á heildina, þá flýtur þar af, að biflíusagan verður einnig að gefa mönnum yfirlit yfir innihald hinna heilögu bóka, tímabilin, sem þær eru ritaðar á, höfunda þeirra, innbyrðis hlutföll, eða samband og tilgang.

Það er auðvitað, að vjer ætlum hjer ekki í stuttu máli að taka saman hin helztu atriði biflíunnar, sem hverjum manni sje nóg að vita; „því öll heilög ritning er innblásin af guði (guðdómleg), og nytsamleg til sannfæringar, til leiðrjettingar og framfara í dyggð“. Þar á móti er það fyrirætlun biflíusögunnar, að gefa unglingnum stutt skyn á innihaldi og efni hinna helgu bóka, og þannig að gjöra honum á síðan hægra fyrir með lestur hinnar heilögu ritningar sjálfrar, og gjöra honum hann bæði nytsaman og dýrmætan. Biflíusagan safnar því saman, sem hinu óvana auga sýnist vera á stangli, og sýnir hvar vjer eigum að setja hvað eina, til þess að heildin fullgjörist.

Þetta er fyrirætlun biflíusögunnar; en nytsemi hennar er þar að auki mikil, þegar vjer viljum meta hana út af fyrir sig. Mannkynssagan hefur sumsje ætíð verið álitin eins nytsöm fræði, eins og hún er þægileg. Það hlýtur og að vera hverjum manni kært, að geta látið hana leiðbeina sjer um fjarlæg lönd og fjarlæga tíma, til þess að heyra og sjá hið athyglisverða, veglega og mikla, sem við hefur borið í heiminum. Það getur og ekki heldur annað en hughreyst, hvatt, aðvarað og vakið menn, þegar sagan dregur upp sannar myndir dyggðarinnar í allri tign hennar og fegurð, og lastanna í öllum viðbjóði þeirra, auk þess sem hún einnig er hinn vissasti leiðarvísir til mannþekkingar og gæfusamrar starfsemi hjer á jörðu. En þó er það öllu þessu æðra, að yfirvega það í sögunni, hvernig guð hefur ávallt alið önn fyrir mannkyninu, bæði fyrir hamingju heilla þjóða og einstakra manna, hvernig það er föðurhönd hans, sem stjórnar öllum viðburðum og starfar með hinum miklu og framúrskarandi mönnum að því, sem hans vísdómslegu ráðsályktanir stefna að. Ef vjer bærum ekki skyn á þetta, og værum ekki sannfærðir um það, þá gætum vjer hvorki haft löngun nje dug til þess, að búa oss undir starfsemi lífsins; þekking vor væri þá, eins og starfsemi vor, einkisvirði og tilgangslaus.

Allt þetta gjörir mannkyns-söguna mikilsverða og áríðandi fyrir oss; en þó er þessi hin mikla nytsemi hvergi jafnaugljós eins og í þeim kafla hennar, sem fólginn er í heilagri ritningu; þar kemur sagan fram með einkennilegu sniði, æfagömul, fræðandi, og auðug af framúrskarandi mönnum og miklum viðburðum, og sýnir ávallt og glöggt hina algjörðu mynd guðs ráðsályktunar til frelsunar allra manna, sem ekki kemur fram í hinum öðrum köflum sögunnar, nema í óljósum dráttum á stangli.

---

# I. kafli.

## Fornsögur biflíunnar um sköpun heimsins og uppruna mannanna.

---

1. a.

„Í upphafi skóp guð himininn og jörðina. Jörðin var auð og tóm; myrkur hvíldi yfir djúpinu, og guðs andi sveif yfir vötnunum. Og guð sagði: Verði ljós! og það varð ljós. En guð sá, að ljósið var gott og hann aðgreindi þess vegna ljósið frá myrkrinu; ljósið kallaði hann dag, en myrkrið kallaði hann nótt. Og það varð kveld, og það varð morgun — það var hinn *fyrsti* dagur". Hinn *annan* dag hvolfdi guð tjaldi himnanna yfir jörðina, og aðgreindi vötn himnanna frá vötnum jarðarinnar. Hinn *þriðja* dag bauð hann vatninu, að renna burtu frá þurrlendinu — í höf, stöðuvötn, ár og læki, og þá bauð hann trjám og jurtum, að spretta upp af skauti jarðarinnar, auka kyn sitt og bera ávöxt, hvert eptir sinni tegund. Á hinum *fjórða* degi skóp guð sólina til þess, að *ráða* deginum, og

mánann til þess, að *ráða* nóttunni, og her stjarnanna, til þess að lýsa jörðina. Hinn *fimmta* daginn bauð guð, að hafið skyldi fyllast af lifandi skepnum, og að fuglarnir skyldu fljúga undir himinhvelfingunni; og guð blessaði öll þessi dýr, til þess að þau mættu frjófgast og fylla upp hafið og loptið. Hinn *sjötta* dag bauð guð *jörðunni, að fæða af sjer* lifandi skepnur, hverja eptir sinni tegund, og þá *skóp* guð allan peninginn, ormana og villudýrin. En þá sagði guð: Vjer skulum nú skapa manninn eptir vorri mynd, til þess að ráða yfir fiskunum í hafinu og yfir allri jörðunni. Og guð skóp manninn í sinni mynd; í guðs mynd skóp hann hann; hann skóp þau karl og konu. Og guð blessaði þau og sagði: Aukist og frjófgist, upp fyllið jörðina og gjörið ykkur hana undirgefna! Einnig gaf guð þeim gróða jarðarinnar og ávexti trjánna á allri jörðunni til fæðis; en dýrunum gaf hann hinar grænu jurtir til viðurværis. Þá sá guð allt, sem hann hafði gjört, og sjá! það var harðla gott. Og það varð kveld og morgun hinn sjötta dag.

Þannig var þá himinn og jörð og allur þeirra her albúinn; þá hvíldi guð sig á hinum *sjöunda* degi, og hann blessaði hann og helgaði. (1. Mb. 1. k. og 2. k. 1.—3. v.).

1. b.

Þetta er uppruni himins og jarðar á þeim

degi, sem guð, **Jehóva**, myndaði himin og jörð. Enn var ekkert trje og engin af hinum smáu jurtum vallarins sprottin; því guð, Jehóva, hafði enn ekki látið rigna á jörðina, og enn var enginn maður, til þess að yrkja hana. Þá steig upp gufa af jörðunni og vökvaði hana. Og guð, Jehóva, myndaði *manninn* (Adam) af dupti jarðarinnar, og bljes anda lífsins inn í gegn um nasir hans. Og guð gróðursetti aldingarð í *Eden* (Unaðarlandinu) mót austri; þar setti hann manninn í, til þess að *yrkja* garðinn og *gæta* hans, og af öllum trjám í garðinum mátti Adam borða, nema af skilningstrjenu góðs og ills. Síðan sagði Jehóva: Það er ekki gott, að maðurinn sje einn. Jeg vil skapa handa honum aðstoð, sem hjá honum skal vera. En guð hafði skapað öll dýr merkurinnar og fugla himinsins, og hann leiddi þá til mannsins, til þess að vita, hvað hann vildi kalla þá. Og Adam gaf þeim nöfn, en hann fann ekkert, sem honum gæti verið til sambúðar. Þá ljet guð djúpan svefn falla á Adam, tók eitt af rifjum hans, skóp þar af konu, og færði honum hana. Þá sagði Adam: Þessi er *loksins* bein af mínum beinum og hold af mínu holdi; þess vegna skal maðurinn *yfirgefa föður sinn og móður* og vera kyr hjá eiginkonu sinni, og þau skulu bæði vera eitt. (1. Mb. 2. k. 3. v. o. s. frv.).

2.

En höggormurinn var slægari en nokkurt annað dýr merkurinnar, og hann sagði við konuna: Hefur guð þá sagt, að þið mættuð ekki borða af öllum trjánum í aldingarðinum? Þá svaraði konan: Guð hefur einungis undan tekið það trjeð, sem stendur í miðjum garðinum, og sagt: Borðið ekki af því trje, svo þið deyið ekki. Þá sagði höggormurinn: Þið skuluð öldungis ekki deyja; en guð veit, að þegar þið etið af því, þá munu augu ykkar opnast, og þið verðið eins og hann í því, að þekkja gott og illt. Og konan sá, að trjeð var fagurt að líta, og að ávextir þess voru ginnandi, og hún ímyndaði sjer, að þeir kynnu að geta auðgað sig að þekkingu — svo hún tók af ávexti trjesins og át, og hún gaf einnig manni sínum af honum, og hann át.

Þá lukust upp augu þeirra, svo þau sáu, að þau voru nakin, og þegar þau heyrðu rödd Jehóva, sem gekk um garðinn í kveldsvalanum, þá földu þau sig á milli trjánna í garðinum. En Jehóva kallaði til Adams: Hvar ertu? Hann svaraði: Jeg faldi mig, þegar jeg heyrði rödd þína. Jehóva sagði: Þú hefur borðað af trjenu, sem jeg bannaði þjer að borða af; — er ekki það? Jú, svaraði Adam; konan, sem þú gafst mjer, gaf mjer nokkuð af ávexti þess, og það át jeg. Því gjörðir þú það? spurði Jehóva konuna. En

hún sagði, að höggormurinn hefði tælt sig til þess.

Þá kvað Jehóva upp dóm yfir höggorminum og sagði: Bölvaður sjertu fremur öllum dýrum jarðarinnar! Þú skalt skríða á kviðnum, og alla þína daga skaltu dupt eta. Milli þín og konunnar skal vera ævarandi fjandskapur, á milli þinnar og konunnar ættar. Hún skal mylja sundur höfuð þitt, en þú skalt særa hæl hennar. Við konuna sagði Jehóva: Með harmkvælum skaltu fæða afkvæmi þitt, og manni þínum skaltu vera undirgefin. En við manninn sagði hann: Bölvun hvíli yfir jörðunni þín vegna! Þyrna og þistla skal hún bera þjer, og í sveita þíns andlitis skaltu þíns brauðs neyta, þangað til þú snýr aptur til jarðarinnar, sem þú ert myndaður af; því þú ert dupt, og að dupti skaltu aptur verða. Síðan rak Jehóva manninn út úr Edensgarði, til þess að hann skyldi ekki borða af trje lífsins og lifa eilíflega. Og hann setti kerúba með logandi sverðum til að gæta vegarins þangað. (1. Mb. 3. k.).

3.

Eptir þetta ól *Eva* fyrst *Kain* og síðan *Abel* (Hebel ɔ: hjegómi). Kain var akuryrkjumaður, en Abel kvikfjárhirðir; og þegar tími var til, færði Kain Jehóva fórn af jarðargróða, en Abel fórnaði frumburði hjarðar sinnar. En

Jehóva þóknaðist einungis fórn Abels, en ekki Kains. Þá varð Kain reiður, og horfði til jarðar. En Jehóva sagði við hann: Hvers vegna ertu reiður, og hvers vegna horfir þú augum til jarðar? Er það ekki svo, að þegar þú ert góður, þá getur þú frjálslega litið upp? En sje það ekki, þá er syndin nærri þjer — en vertu herra yfir henni. Samt sem áður drap þó Kain Abel, bróður sinn, þá er þeir voru einu sinni báðir saman úti á víðavangi. Þá sagði Jehóva við Kain: Hvar er Abel, bróðir þinn? Kain svaraði: Á jeg að gæta hans? jeg veit ekki hvar hann er. En Jehóva sagði: Hvað hefur þú gjört? Blóð bróður þíns kallar til mín frá jörðunni! Vertu nú útlægur úr þessu landi, sem hefur drukkið í sig blóð bróður þíns; reykandi og landflótta skaltu fara um heiminn! Þá sagði Kain: Brot mitt er stærra en svo, að það verði fyrirgefið! Hver, sem mjer mætir, mun drepa mig. En Jehóva sagði, að hver, sem dræpi Kain, skyldi þola sjöfalda hefnd, og hann setti merki á Kain til þess, að enginn skyldi drepa hann. Þannig fór nú Kain til *Nod* (Útlegðarlandið), sem er fyrir austan Eden. Þar byggði hann borg þá, er hann kallaði *Hanok* eptir syni sínum.

Einn af niðjum Kains hjet *Lamek*. Hann tók sjer tvær konur, sem hjetu *Ada* og *Silla*. Við þeim átti hann 3 syni: *Jabal*, sem varð

höfundur hirðalífs í tjöldum, *Júbal,* sem varð höfundur strengjaleiksins, og *Túbalkain,* sem fyrstur hitti upp á því, að bræða málma. Þess vegna varð og Lamek svo hróðugur af vopnum sínum, að honum urðu þessi ljóð af munni við konur sínar:

„Heyrið orð mín, þið konur Lameks! gefið gaum að máli mínu! Sannarlega drep jeg hvern mann, sem særir mig, og hvert ungmenni, sem meiðir mig. Kains skyldi verða hefnt sjö sinnum, en Lameks sjö og sjötíu sinnum“.

* * *

Eva ól og son í Abels stað, og kallaði hann *Set.* Afkomendur hans göfguðu Jehóva, og lifðu mjög lengi á jörðunni. *Henok* var sá eini af þeim, sem guð tók til sín, þegar hann var að eins orðinn 365 ára gamall, en sonur hans *Metúsala* var þar á móti 969 ára, þegar hann dó. (1. Mb. 3., 4., 5. kk.).

4.

Þegar mennirnir fjölguðu, sá Jehóva, að vonzka þeirra á jörðunni var mikil, og hann *iðraðist* eptir, að hann skyldi hafa skapað manninn. Einungis hinn rjettláti *Nói* fann náð fyrir augliti hans. Jehóva skipaði Nóa þess vegna, að smíða skip með herbergjum í, 300 álna langt, 50 álna breitt, og 30 álna hátt. Þetta skip bauð

guð honum að tjarga að utan, og safna síðan í það viðurværi handa sjálfum sjer og ýmsum dýrum. Þegar Nói var búinn að gjöra það, bauð Jehóva honum að fara inn í *örkina* (ɔ: kistuna) með konu sína, sonu sína 3, *Sem*, *Kam* og *Jafet*, og sonarkonur. Hjer að auki fóru og alls konar dýr (14 af hinum hreinu, 1. Mb. 7. k., 1.—5. v.) með Nóa inn í örkina — og Jehóva lokaði sjálfur á eptir þeim.

Nú rigndi samfleytt í 40 daga og 40 nætur; því djúp jarðarinnar opnuðust og himinraufarnar lukust upp. Vatnið á jörðunni varð 15 álna djúpt á hinum hæstu fjallatindum, svo að öll dýr jarðarinnar týndu lífinu. Í 150 daga var vatnið yfir jörðunni; þá hugsaði guð til Nóa og dýranna, sem með honum voru í örkinni, og hann ljet stórviðri fara yfir jörðina; þá smárjenaði vatnið á 150 dögum. Örkin nam staðar á fjallinu *Ararat*, og Nói sendi þá fyrst út frá sjer hrafn, til þess að vita, hvort jörðin væri þur orðin, og seinna, þegar hrafninn kom ekki aptur, þá sendi hann dúfu. Hún kom undir eins aptur; því vatnið var þá enn yfir jörðunni. Næsta dúfan, sem hann sendi, kom aptur með olíuviðarlauf í nefinu, og hin þriðja dúfa kom ekki aptur. Eptir heilt ár var þá jörðin aptur orðin byggileg. Jehóva bauð þá Nóa, að fara út úr örkinni með allt sitt hyski og öll þau dýr, sem þar höfðu komizt af með honum.

Þá reisti Nói guði altari, og færði Jehóva brennifórn af hinum hreinu dýrum, og „Jehóva kenndi sætan ylm, og sagði í hjarta sínu: Aldrei skal jeg framar eyðileggja jörðina fyrir sakir mannanna; því hugsanir hins mannlega hjarta eru vondar frá barnæsku“. Og guð blessaði Nóa og sonu hans, og bauð þeim að frjófgast og fjölga mannkyninu. Dýr jarðarinnar skyldu hafa ótta af þeim, og bæði þau og grös jarðarinnar skyldu vera þeim til viðurværis. Einungis blóðugt kjöt máttu þeir ekki borða, og hver, sem út hellti mannsblóði, hans blóði skyldi af mönnum verða út hellt. Enn fremur setti guð regnbogann í skýin til merkis um það, að vatnsflóð skyldi aldrei framar eyðileggja jörðina. (1. Mb. 6., 7., 8. kk.).

5.

Í upphafi var enn ekki nema eitt tungumál meðal mannanna, þegar þeir fóru austan að og settust að á *Sínearsvöllum*. En til þess, að þeir skyldu ekki tvístrast víðs vegar um jörðina, ásettu þeir sjer, að byggja hjer turn svo háan, að toppur hans næði upp í skýin. Þá „steig Jehóva niður“, til þess að sjá borgina og turninn, sem mennirnir voru að byggja, og þá sagði hann: „Sjá, enn er ekki til nema ein tunga og ein þjóð, og þetta er hið fyrsta fyrirtæki hennar; bráðum víla mennirnir ekki fyrir

sjer, að gjöra hvað sem þeim dettur í hug. Gott og vel! látum oss trufla tungu þeirra, svo að enginn skilji annan". Þannig tvístraði Jehóva þeim um alla jörðina, og þeir hættu byggingu staðarins. Þess vegna var og staðurinn kallaður *Babel* (truflan); því þar truflaði Jehóva tungu mannanna. (1. Mb. 11. k., 1.—9. v.[1]).

---

[1]) Hjer endar saga biflíunnar um sköpun heimsins og hina fyrstu viðburði meðal mannanna. Til þess að geta metið hana eins og vert er, þarf að bera hana saman við sögur þær, sem aðrar þjóðir hafa til um sama efni.

# II. kafli.

## Saga Gyðingaþjóðarinnar og trúarbragða hennar.

---

### 1. tímabil.

### **Forfeður Gyðinga.**

(2000—1800 ára f. Kr.).

Eptir því sem mannkynið dreifðist út um jörðina, fjölgaði og þjóðunum í löndunum; en myrkur villu og vanþekkingar hvíldi yfir þeim öllum. Allar voru þær skurðgoðadýrkendur, og þeirri villu fylgir jafnan skortur á dyggð og siðgæði. En eins og dagurinn rennur upp í austri, eins vildi og guð, að hið andlega ljós kæmi frá austurlöndum. Í *Úr* á *Kaldealandi*, heimili stjörnudýrkandanna, bjó kynþáttur einn af ætt *Sems*, er þekkti Jehóva, drottin himins og jarðar. Kynþáttur þessi lifði hirðalífi í tjöldum, og fluttist úr einum stað í annan með hjarðir sínar. Faðirinn *Tarak* átti þrjá sonu: *Haran*, *Nakor* og *Abraham*. Þegar Haran var dáinn, vildi Tarak fara með allt hyski sitt til hins hagasæla

*Kanverjalands;* þar bjuggu þá *Kanverjar,* og lögðu stund bæði á *verzlun* og *akuryrkju.* En Tarak andaðist á leiðinni í *Karan* við *Frat* (Evphrat), og hafði hann þá dvalið þar nokkra stund.

Abraham hjelt nú á fram með konu sína, *Sarai, Lot* Haransson, og hjarðir þeirra beggja til Kanverjalands; því svo hafði Jehóva boðið honum að gjöra; hann hafði og heitið Abraham miklu afkvæmi, er erfa skyldi landið, og „að af honum skyldu allar þjóðir á jörðunni hljóta blessun“. Að vísu neyddist Abraham til vegna hallæris, að fara burtu aptur úr Kanverjalandi til *Egyptalands,* þar sem hin fríða *Sarai,* er hann hafði að eins þorað að kalla systur sína, var numin burtu frá honum og sett í kvennabúr konungs. En þá kom upp sýki á meðal hirðarinnar, og áleit konungur hana vera hegningu frá Jehóva fyrir konutakið, svo hann skilaði Abraham konu sinni aptur, og bað hann jafnframt, að hafa sig á burtu úr Egyptalandi. Abraham fór þá aptur til Kanverjalands og Lot með honum, en þó varð sambúð þeirra ekki löng eptir þetta; því vegna þess, að hjarðir þeirra stækkuðu mjög, helzt Abrahams, þá kom upp ágreiningur á milli hirðanna út úr beitarlandinu. Til þess að drepa nú ágreiningi þessum niður, skoraði Abraham á bróðurson sinn, að hann skyldi velja sjer bólfestu í landinu, og hinn

eigingjarni Lot valdi sjer hið grösuga og vatnsríka land, *Sódóma*, þar sem *Jórdan* virtist að hverfa millum hárra fjalla niður í víðar sljettlendur, fullar með *nafta*pytti. En hefði ekki Lot notið aðstoðar Abrahams, þá hefði landnám þetta orðið honum til ógæfu. Svo stóð á, að 5 konungar þarlendir höfðu í 12 ár verið skattskyldir *Kedórlaómer*, höfðingja í *Elam*, en rifu sig nú undan yfirráðum hans. Að þrem árum liðnum kom Kedórlaómer með bandamönnum sínum þremur, herjaði og sigraði allt, sem fyrir varð, og að lyktum vann hann mikinn sigur á konungum *Sódómu* og *Gómorru*, og þremur öðrum konungum, í *Siddimsdal*. Sigrendurnir höfðu Lot og fje hans allt á burtu með sjer, ásamt nágrönnum hans. Þetta frjettir Abraham eptir flóttamanni einum; bregður hann þá skjótt við, og vopnar menn sína alla, en þeir voru 318 að tölu, sem allir voru fæddir og upp aldir í húsi Abrahams. Með þessu liði og þremur bandamönnum fór nú Abraham á eptir Kedórlaómer, og náði honum hjá *Dan*. Skiptir hann þá liði sínu í flokka, ræðst á óvinina á náttarþeli, sigraði þá, og nær öllu aptur, sem þeir höfðu haft á burtu með sjer. Á heimleiðinni gengur *Melkísedek*, konungur í *Salem*, og *prestur hins hæsta*, á móti Abraham, til þess að óska honum góðs og hressa lið hans. Abraham þótti svo vænt um þetta, að hann gaf honum tíunda

hluta alls herfangsins, en vildi *sjálfur* alls ekkert af því hafa, þegar konungur *Sódómu* bauð honum það til launa fyrir hjálpina. „Jeg tek ekki við svo miklu, sem einum skóþveng af því, sem þitt er“, mælti hinn veglyndi Abraham við konung Sódómu — „þú skalt ekki geta sagt: Jeg hef gjört Abraham ríkan“.

„Abraham var því sjálfur voldugur höfðingi og auðugur mjög, en hann átti engin börn, og þó hafði Jehóva lofað honum, að niðjar hans, sem skyldu verða margir, ættu að fá landið að erfðum, og þetta loforð var staðfest með fórnfæringu. Saraí, sem eptir austurlandasið áleit þar að auki ófrjófsemi eins og svívirðilega óhamingju, taldi þess vegna Abraham á, að taka egypzka ambátt, *Hagar* að nafni, fyrir hjákonu, til þess að hún gæti gjört hennar barn að kjörbarni sínu. En undir eins og ambáttin var þunguð orðin, fyrirleit hún Saraí, húsmóður sína. Abraham fól henni þó engu að síður, að hegna ambáttinni. Við þetta auðmýktist Hagar, og varð óttaslegin, svo hún flúði á leið til Egyptalands. En í eyðimörkinni *Sjúr* (Schur), á landamærunum, mætir hún erindsreka Jehóva, sem býður henni að snúa heim aptur og hlýða Saraí, húsmóður sinni. Hann boðaði henni, „að hún skyldi fæða son, er verða ætti forfaðir mikillar þjóðgreinar, og bauð henni, að láta hann heita *Ismael;* hann og niðjar hans skyldu verða líkir ótömdum ösn-

um; hans hönd ætti að verða uppi á móti öllum, og allir uppi á móti honum, og heimili hans skyldi verða fyrir austan bústað bræðra hans". Hagar hlýddi; og þegar sonur hennar, Ismael, var orðinn 13 ára gamall, þá tók Abraham upp umskurnina meðal allra karlmanna, sem hjá honum voru; átti hún að vera merki upp á samband hans við Jehóva, og til auðkennis frá Kanverjum, sem voru marggyðismenn (ɔ: trúðu á marga guði).

Sonur ambáttarinnar var enn hinn eini sonur, sem Abraham átti. Þá bar svo við einu sinni, þegar Abraham sat úti hjá tjaldi sínu í miðdegishitanum, að þar komu þrír ókunnugir menn, sem honum sýndust ætla að ganga fram hjá, án þess að koma við. Abraham hljóp þá í veg fyrir ferðamennina, bauð þeim heim til sín, og hressti þá.

Eptir að mennirnir voru búnir að hvíla sig og njóta þess, er Abraham veitti þeim, þá hjet einn þeirra (það var Jehóva) Saraí því, að áður enn eitt ár væri liðið frá þessum degi, skyldi hún fæða Abraham son. Að því búnu hjeldu mennirnir áleiðis til Sódómu, og fylgdi Abraham þeim á veg. Þá sagði Jehóva: „Hví skyldi jeg dylja Abraham þess, sem jeg ætla að gjöra". Síðan sagði hann Abraham frá því, að syndir Sódómu væru komnar fyrir sig, og þess vegna hefði hann farið niður á jörðina, til þess að

vita, hvort innbúar þessa staðar væru með öllu guðlausir.

Hinir tveir englar, sem voru með Jehóva, höfðu haldið á fram til Sódómu, á meðan hann talaði við Abraham, svo þeir voru tveir einir. Þá bað hinn guðhræddi Abraham Jehóva að þyrma borginni, svo framarlega sem að 50, 45, 40, 30, 20, eða jafnvel einir 10 af innbúum hennar væru saklausir, og Jehóva, sem gleður sig yfir hinum góðu, lofaði honum því. Um kveldið komu englarnir til Sódómu, og tók Lot þeim með gestrisni og bauð þeim að vera hjá sjer. En eptir frásögu hinna helgu bóka varð guð að gjöra kraptaverk, til þess að þeim yrði ekki smánarlega misþyrmt af hinum guðlausu borgarbúum, sem jafnvel höfðu í frammi hótanir við Lot fyrir það, að hann vildi ekki selja þeim gestina í hendur. Undir eins með degi daginn eptir fóru því englarnir með Lot, konu hans og tvær dætur, út úr borginni, en á meðan rigndi yfir hana eldi og brennisteini. Kona Lots, sem þvert á móti boði englanna leit aptur, þegar hún fór út úr borginni, varð að saltstöpli. — Eptir þetta settist Lot að í nágrenninu, og varð ættfaðir *Ammóna* og *Móaba* (Móabar = feðrungar?).

Á þeim tíma, [redacted] Jehóva hafði til tekið, ól *Sara*[1] son, sem hún nefndi *Ísak*, og þar eð

[1]) Saraí fjekk nafnið Sara, þá er óbyrjutími hennar var á enda.

henni fannst þá Ismael ekki tala [redacted] þann hátt, sem syni ambáttarinnar hæfði, krafðist hún þess, að hann væri rekinn á burtu. Abraham færðist undan því [redacted] fyrstu, [redacted] ljet þó á endanum til leiðast; því hann var þess fullviss, að sá væri vilji Jehóva, er engu að síður mundi ala önn fyrir Ismael. Hagar varð nú að halda á burtu með son sinn, og pilturinn er svo að fram kominn af þorsta í eyðimörkinni, að hann er nær dauða en lífi. Þá kemur engill Jehóva og lýkur upp augum hinnar angruðu móður, og sýnir henni vatnsgryfju eina, sem hirðarnir eru vanir að byrgja fyrir dýrum og sólarhita, og notkun óviðkomandi manna.

Ismael óx síðan upp í eyðimörkinni *Paran;* hann var skotmaður góður, og lifði af dýraveiðum. Það má og ráða af hinni helgu sögu, að Abraham hafi með fram veitt honum nokkurn styrk. Móðir hans fjekk honum konu frá Egyptalandi, og eru frá þeim komnir *Arabar: Kóreissjitarnir* og *Múhamed.*

Abraham var mikils virtur og voldugur höfðingi, svo að jafnvel konungurinn [redacted] *Gerar* kom til hans og gjörði fjelagsskap við hann. Hann var maður ráðvandur og elskaði guð; það sýndi hann bezt í hinni þyngstu raun, er guð lagði á hann og nú skal segja frá. Það er ætlandi, að Kanverjar hafi fært guðum sínum mannblót, og [redacted] líkingu þess bauð nú Jehóva Abraham að fórna

sjer einkasyni sínum Ísak, og þó voru það afkomendur hans, sem fyrirheitin voru gefin. Abraham hlýddi, og fór með Ísak til fjallsins *Móría,* til þess að fórna honum þar. Á leiðinni spurði sveinninn föður sinn, hvar fórnin væri; því þeir hefðu ekki með sjer nema eldiviðinn. — Þá svaraði Abraham: „Guð mun sjálfur sjá sjer fyrir fórnarlambinu!“ Ísak var þegar lagður á altarið og fórnarhnífurinn á lopti — þá hljómaði rödd guðs engils í eyrum hins sorgbitna föður, og bauð honum, „að drepa ekki son sinn; því trú hans væri nú reynd“ — og guð ítrekaði öll þau fyrirheit, sem hann hafði áður gefið honum. En í viðarrunna, skammt frá fórnarstaðnum, fann Abraham hrút einn fastan á hornunum; það var sú fórn, sem Jehóva hafði sjeð sjer fyrir — og niðjar Abrahams vissu nú, að guð verður ekki tignaður með mannfórnum.

Þegar Sara var 127 ára gömul, andaðist hún, og var grafin í nánd við *Hebron,* þar sem Abraham hafði keypt sjer land. Eptir dauða hennar sendi hann *Elíeser,* ráðsmann sinn, til *Karan,* til þess að fá þaðan konu handa Ísak, því hann vildi ekki, að hann eignaðist neina af hinum heiðnu konum í Kanverjalandi. Hinn ráðvandi Elíeser fór þá á stað, og hafði með sjer marga menn og stórar gjafir. En er hann kom austur eptir, valdi hann, eptir leiðbeiningu Jehóva, hina fríðu og vinsælu *Rebekku,* dóttur *Betúels*

*Nakorssonar*, handa Ísak, syni húsbónda síns. Þegar Ísak var búinn að fá konu þessarar, kvæntist og hinn gamli Abraham í annað sinn, og tók *Ketúru* fyrir konu handa sjer. Þau áttu saman sex sonu, sem allir urðu ættfeður þjóðgreina í *Arabíu hinni farsælu*, og sem ásamt Ismael tóku þátt í arfinum eptir Abraham látinn. Aðalerfinginn var þó Ísak, og hann var einnig formaður ættarinnar.

Ísak varð, eins og faðir hans, mikils virtur og voldugur ættarhöfðingi, sem jafnvel konungar landsins gjörðu fjelagsskaparsamninga við. Það var eins og hamingja og farsæld ljeki hvervetna við hann, og svo blessaðist honum akuryrkja undrunarlega vel, að það olli honum megnustu öfundar hjá ýmsum öðrum út í frá. Þó komst hann aldrei í stríð, og það má ráða af sögunni, að hann hafi verið mjög friðsamur og eptirlátur, og fremur erft veglyndi föður síns og rjettvísi, en hugrekki hans og afl. Þau Ísak og Rebekka voru búin að vera 20 ár saman í hjónabandi, áður guð heyrði bæn þeirra um afkvæmi, og þegar Rebekka varð þess þá vísari, að hún var þunguð orðin, leitaði hún ráða hjá Jehóva, sem sagði:

„Þú gengur með tvær þjóðir, og tveir ættleggir munu af þínu skauti koma; annar þeirra verður sterkari en hinn, og hinn stærri mun þjóna hinum minni“.

Abraham, sem varð 175 ára gamall, lifði þá, er honum fæddust þessir tveir sonarsynir; annar þeirra var allur kafloðinn, og var fyrir þá sök kallaður *Esaú* (Loðinn); hinn hjet *Jakob* (Hælbítur).

Þegar bræðurnir eltust, sást það skjótt, að Esaú var uppstökkur, óaðgætinn, og hranalegur, en þó jafnframt geðgóður, sáttfús og hugrakkur. Hann lagði stund á dýraveiðar, og var uppáhald föður síns. Jakob var maður ráðvandur, hygginn og aðgætinn; hann kaus sjer hið kyrlátara hirðisstarf, og unni móðir hans honum mjög. Þó verður því ekki neitað, að hann var huglítill maður, eigingjarn og slægur. Svo bar við einu sinni, að þegar Esaú kom heim af dýraveiðum, svangur og lúinn, þá kom hann þar að, sem Jakob, bróðir hans, ætlaði að fara að borða soðnar *linsur,* og bað hann um þær. Hann fjekk þær og, en þó með því skilyrði, að hann ljeti Jakob fá frumgetningarrjettinn fyrir þær, og Esaú fjekk ekki linsurnar fyr, en hann hafði heitið því með eiði. Að því búnu borðaði Esaú og drakk, og skopaðist síðan að hinum seldu rjettindum, þegar hann gekk á burtu.

Esaú tók sjer tvær konur kanverskar, og var það mjög í móti skapi foreldra hans. Samt sem áður ætlaði þó hinn gamli faðir, sem þá var blindur orðinn, hátíðlega að veita honum föðurblessunina, og í nafni Jehóva að gjöra

hann að formanni og höfðingja ættar sinnar. „Jeg er nú gamall orðinn“, sagði hann við Esaú, „og veit ekki, hvern dag dauðinn kemur; taktu þess vegna boga þinn og örvar, og reið mjer krás nokkra af villudýrum, til þess að jeg borði hana, og blessi þig, áður en jeg dey“. Rebekka heyrði þetta, og telur nú Jakob á, að svíkja hinn aldraða föður sinn. Og þegar í stað slátrar hún tveimur kiðum, og matreiðir þau eins og villudýrskrás, en skinni kiðanna vefur hún um hendur og háls Jakobs, og klæðir hann í hátíðabúning Esaús. Þannig búinn gengur Jakob fyrir föður sinn með krásina, og læzt vera Esaú. Ísak undraðist flýti hans og spyr: „Hvernig gaztu verið svóna fljótur að veiða dýrið?“ „Jehóva sendi það upp í hendurnar á mjer“, svaraði Jakob. Ísak tortryggði Jakob um, að hann væri sá, sem hann ljezt vera, og þreifaði á höndum hans og hálsi, og segir: „Þetta er málrómur Jakobs, en hendur og háls Esaús“, og þar eð Jakob sagðist vera Esaú, þá trúði hinn aldraði, blindi faðir honum, borðaði krás sonarins, blessaði hann og sagði:

„Guð gefi þjer dögg himins og feiti jarðar, og gnægð korns og víns. Þjóðirnar þjóni þjer, og lýðirnir lúti þjer; vert þú herra yfir bræðrum þínum, og synir móður þinnar skulu lúta þjer! Bölvaðir sjeu þeir, sem bölva þjer, og blessaðir þeir, sem þig blessa!“

Óðara en Jakob var skilinn við föður sinn, kom Esaú heim, matreiddi veiði sína, og bar hana á borð fyrir föðurinn. Þá merkti hinn aldraði maður með undran, hvernig hann hafði verið prettaður, en hann þorði þó ekki að kalla þá blessan aptur, sem hann var búinn að gefa í nafni Jehóva. Þegar nú Esaú grátandi sagði: "Hefur þú þá ekki nema eina blessan, faðir! blessaðu mig einnig, faðir!" þá blessaði Ísak hann einnig, og mælti:

„Sjá! feiti jarðarinnar mun vera þinn bústaður, og dögg himinsins þar ofan að. Af sverði þínu muntu lifa, og þjóna þeim bræðrum þínum, en það fer svo, að þegar þú slítur þig lausan, þá hristir þú okið af hálsi þjer."

Esaú varð nú svo reiður við bróður sinn, að hann ljezt mundi drepa hann, þegar er faðir þeirra væri andaður. Rebekku þótti því ráðlegast, að senda Jakob undir eins í burtu til *Labans* bróður síns; því þar væri honum óhætt, og faðirinn gaf honum fararleyfi og blessan sína; því hann vissi ekki annað, en að þetta ætti að vera kvonbænaför; því það hafði Rebekka sagt honum. Þegar Jakob var burtu farinn, þá gjörði Esaú það föður sínum til vilja, að hann gekk að eiga eina af dætrum Ismaels, en hann átti samt hinar 2 konurnar eins og áður.

Jakob fór nú fótgangandi á stað til *Karan.* Á leiðinni lagðist hann einhverju sinni um sól-

arlag til svefns út á víðavangi. Þegar hann var sofnaður, dreymdi hann, að hann sæi stiga, sem náði frá himnum niður á jörð, og englar Jehóva gengu upp og ofan stigann. Uppi yfir stiganum sat Jehóva í hásæti sínu, og mælti: „Jeg er Jehóva, guð feðra þinna. Landið, sem þú hvílist nú á, mun jeg gefa þjer og afkomendum þínum, sem skulu verða eins margir og duptkorn jarðarinnar, og breiða sig út móti norðri og suðri, austri og vestri, og af þeim skulu allar þjóðir á jörðunni hljóta blessan. Og sjá! jeg skal vernda þig og fylgja þjer, og leiða þig hingað aptur!“ Þá vaknaði Jakob og mælti: „Vissulega er Jehóva á þessum stað, og *það vissi jeg ekki!* Hjer er hús guðs (*bethel*)! hjer eru hlið himinsins!“ Glaður í huga og óttalaus hjelt Jakob nú á fram leiðar sinnar; því hann vissi, að Jehóva verndaði sig. En áður hann fór úr þessum þýðingarmikla náttstað, færði hann Jehóva fórn eptir því, sem kostur var á. Síðan fór hann til Karan; þar hitti hann fyrst *Rakel*, yngri dóttur Labans, sem að hirðasið gætti hjarðar föður síns hjá vatnsbóli hjeraðsins. Jakob sá Rakel, og fjekk ást á hinni fríðu mey; en hann hafði ekki gullskraut, til þess að gefa henni, eins og faðir hans hafði gefið Rebekku, móður hans. Ekki að síður tók þó Laban við honum, eins og frænda sínum.

Eptir uppástungu Labans bauðst Jakob til

að þjóna honum [redacted] 7 ár, til þess að fá Rakelar; því ella var það siður, að kaupa sjer konur af foreldrunum með fjegjöfum. En Jakob hafði svo mikla ást á Rakel, að honum fundust þessi 7 ár ekki lengri en nokkrir dagar. Þegar þau voru liðin, bar hinn eigingjarni Laban það fyrir, að þarlendis væri aldrei siður, að gipta hina yngri dóttur burtu á undan hinni eldri, og færði því Jakob *Leu* sem brúði. Margkvæni var hjer að vísu leyft, [redacted] þó hafði Laban það skilyrði við Jakob, þegar hann gaf honum Rakel viku síðar, að hann yrði *enn að vinna kauplaust í 7 ár hjá sjer fyrir henni.* Lea fæddi Jakob frumgetinn son hans *Rúben,* og síðan *Símon, Leví* og *Júda.* Rakel varð nú óánægð yfir því, að hún skyldi ekkert barn fæða, og fjekk því Jakob ambátt sína, *Bílu,* fyrir hjákonu. Með Bílu eignaðist Jakob 2 sonu: *Dan* og *Naftalí.* Af þessu kom keppni [redacted] Leu, svo hún fjekk manni sínum ambáttina *Silfu* fyrir hjákonu, og með henni átti Jakob *Gað* og *Asser.* Þá fæddi og Lea sjálf honum *Ísaskar, Sebúlon* og dótturina *Dínu.* Að lyktum heyrði og Jehóva bæn Rakelar, og hún fæddi son, sem kallaður var *Jósef.*

Þegar Jakob hafði [redacted] 14 ár unnið kauplaust fyrir konum sínum tveimur, þá kom honum og Laban saman um það, að hann þjónaði honum enn í 7 ár, og fengi [redacted] kaup allt hið mislita,

sem hjörðin fæddi. En jafnvel þó að Laban væri nú orðinn mjög auðugur fyrir dugnað og trúmennsku Jakobs, ætlaði hann þó að svipta hann kaupinu, bæði með því, að taka allt hið mislita og svarta úr hjörð þeirri, sem Jakob skyldi geyma, og einnig með því, að skipta um kostina. Samt sem áður heppnaðist Jakob það með kænsku, að sigra vjelar hins eigingjarna Labans, og þar eð hann og synir hans litu með illum öfundaraugum og gremju á dagvaxandi gróða hans, flúði hann loksins eptir 6 ár á burtu þaðan með allt sitt: konur, börn, hjú og hjarðir. Laban komst ekki að því, fyr en 3 dögum seinna, og fór hann þá eptir honum. Fundum þeirra bar saman á *Gíleaðsfjöllum.* En Jehóva aðvarar Laban í draumi, svo hann þorði ekki að gjöra Jakob neitt, nema að ávíta hann, og það því síður, sem hann *fann ekki* goð þau, sem hann kvaðst hafa misst við flótta Jakobs og hann leitaði að hjá honum. Raunar hafði Rakel tekið goðin að Jakob óafvitandi. Að lyktum gjörðu þeir Jakob og Laban vinasamning sín á milli, og skildust síðan. Jakob hjelt nú á fram ferð sinni, og er hann nálgaðist bústaði Esaús, bróður síns, sendi hann menn á fund hans, til þess að kynna honum auðmjúklega komu sína. Sendimennirnir komu aptur og sögðu, að Esaú kæmi á móti honum með 400 manns. Jakob varð þá óttasleginn mjög, og sendir 30 úlfalda,

400 geitur og sauði, o. s. frv., til Esaús, og biður hann, að þiggja það af sjer að gjöf. Síðan ljet hann hjarðir sínar allar og föruneyti fara yfir um ána *Jabok*, en varð sjálfur eptir hinu megin um nóttina.

Eptir langa og heita bæn til Jehóva, þótti Jakob nú, sem hann glímdi við mann einn, án þess þó að verða sigraður. En Jakob gekk þó úr liði í mjöðminni, svo að hann var haltur daginn eptir. Að lyktum bað hinn ókunni maður Jakob að sleppa sjer; því það dagaði. En Jakob kvaðst ekki sleppa honum fyr, en hann blessaði sig. Hinn gjörði það, og mælti síðan: „Upp frá þessu skalt þú heita *Ísrael*, því þú stóðst eins og hetja og það í stríði við guð“. Jakob hresstist við draumsjón þessa, sem náð guðs og hið fyrirliggjandi stríð blandaðist svo undrunarlega saman í, og um morguninn fór hann yfir ána, og gekk með *vareygð* í móti Esaú. Þegar þeir mættust, hneigði Jakob sig sjö sinnum til jarðar fyrir honum, og sýndi honum hina mestu lotningu, sem hann gat. En Esaú hleypur grátandi í faðm bróður síns, og fagnar honum með hjartanlegri blíðu og ást. Jakob varð lengi að neyða hann, áður hann vildi þiggja gjöf hans, og þá býðst Esaú til þess, að fylgja honum með liði sínu. Jakob afsakar sig með því, að hann verði að fara svo hægt, og skorast einnig undan að þiggja nokkra af mönnum hans sjer til

aðstoðar. Að öllum líkindum hefur Esaú þá orðið var við ótta bróður síns, og með ástsemi skilur hann þess vegna við hann samdægurs. Hann settist að á *Seirsfjalli*, fjærri Jakob, og varð ættfaðir *Edóminga* og *Amalekinga*. Jakob komst þar á móti slysalaust til *Sikkem* á Kanverjalandi. Þar keypti hann sjer land og tók sjer bólfestu. En sonur konungsins í Sikkem rændi fyrst Dínu úr föðurgarði, og vildi síðan fá hennar. Símon og Leví gjörðu þá hina innilegustu fjelagssamninga við borgarbúa, og notuðu það til þess, að hefna vanvirðu ættar sinnar á þeim. Þeir drápu alla karlmenn, en fluttu börn og konur í ánauð. Faðir þeirra, Jakob, átaldi þá harðlega fyrir svik þessi og grimmd, og flutti sig burtu þaðan til *Betel*. Þar vildi hann reisa guði altari, og því tók hann fyrst burtu öll goð þau, sem fundust á heimili hans, og gróf þau niður undir terpentínviðnum hjá Sikkem. Þess vegna ítrekaði guð aptur öll fyrirheiti sín við hann í Betel, og kallaði hann nú — í öðrum skilningi, en við Jabok — Ísrael, þ. e. hermann guðs. Frá Betel fór Jakob til Ísaks, föður síns, en á leiðinni þangað andaðist Rakel, eptir að hún hafði fætt hinn síðara son sinn, *Benjamín*. Það lítur svo út, sem hinn aldraði Ísak hafi dáið, skömmu eptir að Jakob kom til hans í Hebron.

Vjer höfum nú sjeð Jakob á æsku- og þroska-

aldri, og getum öldungis ekki fallizt á allar aðfarir hans. En vjer megum þó ekki gleyma því, að margar þúsundir ára liggja nú á milli hans og vor, og á hans dögum þótti til að mynda lævizka og slægð ærinn kostur hjá þeim, sem minna mátti sín. Hann elskaði Rakel með dæmafárri ást, og eins Jósef; en þó var hann góður og elskuríkur bæði við Leu og hin önnur börn sín, og á elliárum sínum vekur hann eins konar lotningu fyrir sjer með því, að þá koma fram dýpri hyggindi hans, sem hann hafði numið í skóla mótlætisins.

Jósef var hjá föður sínum í mestu uppáhaldi af öllum bræðrunum, og bar einkum það tvennt til þess, að hann var barn Rakelar, og yngstur af þeim 11 bræðrum, sem fæddir voru í *Mesópótamíu* (Meðallandi); þess vegna var hann og látinn hafa mislitan kyrtil til auðkenningar frá hinum bræðrunum. Þegar Jósef var hjer um bil 17 ára gamall, þá sagði hann bræðrum sínum tvo drauma, er hann hafði dreymt. Í hið fyrra skiptið þótti honum sumsje þeir bræðurnir allir vera á akri og binda kornstengurnar í knippi, og að öll þeirra lytu sínu, en í hið síðara skipti dreymdi hann, að sól, tungl og 11 stjörnur kæmu og lytu sjer. Faðir hans ávítaði hann jafnvel fyrir hugsunarhátt þann, sem honum *þótti* slíkir draumar verða að styðjast við, og bræðurnir æstust enn meira við það. Áður voru þeir búnir

að fá á honum hatur bæði fyrir það, *að hann var í meira uppáhaldi hjá föðurnum en þeir,* og fyrir það, *að hann sagði honum eptir þeim, þegar þeir höfðust að nokkuð það, er miður sómdi.* Einu sinni, þegar bræðurnir voru með hjarðir sínar nálægt hinum hættufulla stað Sikkem, þá sendi faðirinn Jósef, til þess að vita, hvernig þeim liði. En undir eins og bræðurnir sáu hann álengdar, sögðu þeir: „Sjá, þarna kemur draummaðurinn! Vjer skulum taka hann og drepa, og segja, að villudýr muni hafa orðið honum að bana; þá skulum vjer vita, hvað verður úr draumunum hans!“ Rúben þótti það ekki hæfa, að saurga hendur sínar á blóði hans, og fjekk því talið bræðurnar á, að varpa Jósef niður í tóma vatnsgryfju, og láta hann deyja þar úr hungri. En í raun og veru gjörði Rúben þetta í því skyni, að hjálpa Jósef síðan upp úr gryfjunni, og koma honum lífs undan. Þetta var nú gjört, sem Rúben hafði stungið upp á. En á meðan hann fór eitthvað á burtu, kom þangað flokkur af kaupmönnum af Ismaelsætt, sem fluttu ilmjurtir, smyrsl og þræla til Egyptalands. Þá stakk Júda upp á því við bræðurna, *að selja kaupmönnum þessum Jósef,* því honum reis hugur við bróðurmorðinu. Þeir fjellust allir á þetta, og fengu fyrir hann 20 sikla silfurs[1]. Þegar Rúben kom síðan aptur

[1]) Það eru hjer um bil 25 rdd. r. s.

að gryfjunni og fann Jósef þar ekki, þá varð hann mjög hryggur; því hann hafði ætlað að skjóta honum undan. En til þess að leyna því, sem orðið var, hikuðu bræðurnir ekki við, að baka hinum aldraða föður hjartasorg með því, að senda honum hinn mislita kyrtil Jósefs, er þeir höfðu gjört blóðugan, eins og villudýr hefðu rifið Jósef í sundur.

Ismaelingarnir fóru með Jósef til Egyptalands, og seldu hann þar höfðingja lífvarðarins, sem hafði á hendi yfirumsjón allra handtekinna manna, lífláta, o. s. frv. Lífvarðarforingi þessi hjet *Pótífar*, og það var hjá honum, sem Jósef ólst upp og þroskaðist; því með gáfum sínum, lempni og dugnaði tókst Ebreanum að ná slíkri hylli hjá Pótífar, að hann gjörði hann að ráðsmanni sínum. En á þeim tímum hefur Egyptaland án efa verið eitthvert hið menntaðasta af öllum löndum. En guð hafði þó geymt Jósef enn eina raun, sem verða skyldi til þess, að hefja hann á æðra stig, til nytsemdar fyrir allt mannkynið. Kona Pótífars hafði sumsje ætlað að ginna hinn guðhrædda Jósef til þess, að yfirgefa dyggðina, og þegar það heppnaðist ekki, ásakaði hún hann ranglega fyrir manni sínum, sem þá ljet varpa honum í dýflissu. En Jósef ávann sjer hylli og traust dýflissuvarðarins, svo hann fjekk honum í hendur gæzlu þeirra, sem í varðhaldinu sátu. En á meðal þeirra urðu þá og tveir

af hinum helztu hirðmönnum: byrlari og brauðgjörðarmaður konungsins *(Faraós)*. Eina nótt dreymdi hirðmennina sinn drauminn hvorn, og er þeir vöknuðu, urðu þeir mjög hugsjúkir yfir því, að vita ekki þýðingu draumanna. Jósef varð þessa var, og spyr, hví þeir væru svo hugsjúkir. Þeir sögðu honum það, og hann bað þá að segja sjer draumana — „því Jehóva ræður þýðingu þeirra!“ Byrlarann hafði dreymt vínvið með 3 greinum á; síðan þótti honum spretta á þeim brum, blóm og fullvaxin vínber, sem hann kreisti vökvann úr í bikar Faraós. Þá mælti Jósef: Að 3 dögum liðnum verður þú aptur settur í embætti þitt; hugsaðu þá til mín, sem sit hjer í varðhaldi saklaus. Þegar brauðgjörðarmaðurinn heyrði þetta, gladdist hann og sagði, að sig hefði dreymt, að hann bæri 3 körfur á höfðinu, og að fuglar himins hefðu jetið brauðið úr efstu körfunni. Jósef rjeð þann draum svo, að eptir 3 daga yrði hann hengdur, og fuglar mundu jeta hræ hans.

Báðar draumþýðingarnar rættust, en byrlarinn gleymdi Jósef þegar, er hann var kominn í velgengnina aptur. En 2 árum seinna dreymdi *Faraó* sjálfan draum nokkurn, sem vitringar Egyptalands gátu ekki þýtt. En það var skylda slíkra vitringa, að geta jafnan ráðið drauma konungsins eptir því, sem á stóð í landinu, og þeim var kunnugt um, og lagt á ráð, sem þurfa

þótti. Þegar draumaþýðendurnir gátu ekki aðdugað, þá minntist byrlarinn á Jósef, sem áður hafði hughreyst hann í dýflissunni, og rjeð til, að sækja hann. En sá var draumur Faraós, að hann þóttist vera staddur á *Nílarbökkum*, og sjá 7 kýr feitar koma upp úr ánni, og þegar á eptir þeim aðrar 7 kýr magrar, sem honum þótti jeta hinar fyrri, án þess þó að verða nokkru feitari á eptir. Þar næst þótti honum 7 stór og fögur öx spretta á einu strái, en þá komu 7 rýr öx á eptir þeim, og svelgdu hin í sig, en urðu þó engu þriflegri eptir en áður. Jósef var nú sóttur, og þegar konungurinn skoraði á hann, að ráða drauminn, þá sagði hann: „Það er ekki mitt; en guð ráði drauminn *Faraó* til hamingju!“ Síðan var honum sagður draumurinn, og þá mælti Jósef, að guð vildi með þessu kynna *Faraó*, að það ættu að koma 7 árgæzkuár, og þar á eptir 7 hallærisár. Konunginum bæri því á hinum góðu árunum að safna kornforða til hinna lakari áranna, *sjálfum sjer* og *þjóðinni* í hag.

Uppástunga Jósefs fjell öllum mjög vel í geð, og konungurinn gjörði hinn 30 ára gamla Ebrea, sem mótlætið var búið að temja svo, að hann væri fær um, að bera hamingju sína, að höfðingja ríkisins, sem skyldi vera sjer næstur í allri virðingu og tign; því hann sá — eins og ritningin kveður að orði — að guðs andi bjó

í honum. *Faraó* gipti síðan Jósef *Asnat*, sem var af prestaætt þeirri, sem á þeim tíma hefur efalaust haft öll hin æðstu völd á Egyptalandi. Við henni eignaðist Jósef 2 sonu: *Manasse* og *Efraím*. Jósef ferðaðist á hinum góðu árunum umhverfis í landinu, og safnaði saman ærnu korni; því eptir uppástungu hans fjell nú allur fimmtungur af jarðargróðanum undir konunginn. Þar að auki keypti hann og að líkindum mikið. Að lyktum hófust og hin hörðu árin, og varð þá hallæri bæði á Egyptalandi og í öðrum löndum þar í kring. Urðu því ekki að eins Egyptar, heldur og aðrir, t. a. m. Kanverjar, að kaupa korn úr hinum miklu forðabúrum Jósefs.

Meðal þeirra, sem fóru til kornkaupa til Egyptalands, voru hinir 10 eldri bræður Jósefs. Undir eins og hann sá þá, þekkti hann þá, og ljet kasta þeim í varðhald undir því *yfirskyni*, að þeir væru njósnarmenn. Eptir 3 daga ljet hann þá þó fara burtu aptur með því skilyrði, að þeir skyldu koma aptur, og hafa með sjer Benjamín til sannindamerkis um það, að það, sem þeir hefðu sagt honum um ætt sína og hagi, væri satt, og að þeir væru ekki frá *ókunnri óvinaþjóð*, eins og tungumál þeirra og klæðnaður benti á. En Símon hafði hann eptir hjá sjer í gislingu. Með vondri samvizku sneru bræðurnir heim aptur, og með sorg heyrði hinn

aldraði Jakob ferðasögu þeirra. Þó jókst ótti þeirra og angur um allan helming, þegar þeir fundu kornverðið á botninum í sekkjunum. Jósef hafði sumsje þeim óafvitandi gefið þeim allt kornið. Það var því ekki fyrri en í seinustu lög, að Jakob ljet Benjamín fara með bræðrunum til Egyptalands, þegar hungrið þrýsti að þeim í annað sinn, og þó varð Júda að *ábyrgjast* hann. En bræðurnir þorðu alls ekki að koma fyrir augu hins volduga og stranga höfðingja, nema þeir hefðu yngsta bróðurinn með sjer.

Óttafullir bera nú bræðurnir ríkulegar gjafir fram fyrir Jósef, sem þá tók þeim vinsamlega. Þegar hann sá Benjamín, albróður sinn, komst hann mjög við, en ljet þó ekki á því bera, og bauð þeim og Símoni til miðdagsverðar hjá sjer. Bræðurnir undruðust það mjög, er þeir sáu, að sjer var skipað til sætis eptir aldri, og að Benjamín var borinn fimmfalt stærri skammtur en hverjum hinna, sem eptir þeirra tíma sið var mikið virðingarmerki. Daginn eptir ljet Jósef fá þeim korn, og silfurbikarinn sinn ljet hann leggja niður í sekk Benjamíns. Þar eptir fóru allir bræðurnir á stað. En er þeir voru skammt á leið komnir, kom á eptir þeim sendimaður Jósefs, sem bar á þá þjófnað. Frá sjer numdir af ótta neituðu bræðurnir djarflega, að slík smán gæti átt sjer stað, „og ef það er, skal

hann deyja, sem bikarinn finnst hjá, en hinir skulu verða þrælar vors herra!“ sögðu þeir. „Já“, sagði sendimaðurinn, „sá, sem bikarinn finnst hjá, skal verða þræll míns herra, en þjer hinir megið fara í burtu í friði!“ Sekkirnir voru nú rannsakaðir, og bikarinn fannst loks í sekk Benjamíns. Bræðurnir urðu þá svo hræddir og hryggir, að þeir rifu klæði sín og gátu engu orði upp komið; þeir ljetu kornið upp á úlfaldana og sneru við með allt saman, til þess að ganga fyrir Jósef. Þegar hann var búinn að ávíta þá, mælti Júda: „Hvað eigum vjer að segja? með hverju getum vjer afsakað oss? Guð hefur refsað oss fyrir syndir vorar! Sjá, vjer erum allir þrælar þínir, bæði vjer og hann, sem bikarinn fannst hjá!“ Jósef svaraði, að hinn seki skyldi einn verða eptir. Þá gengur Júda fram, og setur honum fyrir sjónir sorg Jakobs yfir þeim syni, er hann *hjelt* að villudýr hefðu orðið að bana, hversu hann hefði verið nauðugur að sleppa Benjamín, og að missir hans mundi leggja hærur hins aldurhnigna föður í gröfina af sorg og angist. Júda beiddist því, að mega verða eptir í staðinn fyrir Benjamín; því hann sagðist ekki *geta* verið sjónarvottur að þeirri sorg, sem faðir sinn að öðrum kosti mundi verða að þola.

Jósef gat nú ekki lengur dulið þá ást á föður sínum og bræðrum, sem hann hafði þang-

að til farið eptir *í öllum* atlotum sínum við þá. Grátandi segir hann nú bræðrunum til sín, en þeir verða öldungis frá sjer numdir. „Verið óhræddir“, segir hann við þá; „jeg er Jósef! Guð var það, en ekki þjer, sem sendi mig til Egyptalands yður til hamingju“. Með leyfi Faraós og ríkulegum gjöfum sendi Jósef nú bræður sína heim til ættjarðar þeirra, til þess að flytja Jakob og allt hyski hans til Egyptalands. Jakob ætlaði ekki að trúa bræðrunum; en þegar hann sá hinar höfðinglegu gjafir og vagnana, þá mælti hann: „Það er mjer nóg, að Jósef sonur minn lifir; jeg ætla að fara til hans, og sjá hann, áður en jeg dey!“ Jakob kom því næst til Egyptalands með alla sína menn, 66 að tölu, auk þess ættleggjar, sem hann var formaður fyrir. Jósef fór á móti föður sínum, sem þá mælti: „Nú dey jeg með ánægju, fyrst jeg veit, að þú ert á lífi“. 5 af bræðrum Jósefs voru ásamt hinum aldraða Jakob leiddir fyrir Faraó, sem spurði hann meðal annars, hversu gamall hann væri. Þá svaraði Jakob: „Dagar minnar útlegðar eru orðnir 130 ár; fáir og mæðusamir eru dagar minnar æfi, og ekki eru þeir eins margir og minna feðra“. Að svo mæltu blessaði hann konunginn og gekk á burtu. Faraó leyfði honum, að setjast að í hinu frjófsama hjeraði *Gósen*, sem að öllum líkindum hefur ekki verið langt frá *hafinu rauða;* því hirðalífið var Egyptum

viðbjóður, svo þeir urðu fyrir þá sök að búa út af fyrir sig í landinu.

Á hinum síðustu hallærisárunum seldu Egyptar konunginum loksins gripi sína og fasteignir fyrir korn, svo þeir urðu allir, nema prestarnir, landsetar konungs, er þaðan í frá urðu að gjalda honum fimmtung af öllum jarðargróða í eptirgjald. Jósef ljet þá dreifa sjer til og frá út um landið, og hefur hann líklega gjört það til þess, að koma í veginn fyrir, að þeir gjörðu uppreist; því það gat orðið hættulegt, að láta þá einatt hafa hinar misstu fasteignir fyrir augum. Þegar Jakob var orðinn 147 ára gamall, andaðist hann, saddur lífdaga, og hafði hann þá áður gjört þá Efraím og Manasse að kjörörfum sínum, sagt fyrir, hvað á dagana mundi drífa fyrir niðjum sínum, og spáð um komu *friðarhöfðingjans* í fögru kvæði (1. Mb. 49. kap.). Jósef smurði lík hans, og flutti það með mikilli viðhöfn til Kanverjalands, og þangað bauð hann niðjum sínum einnig að flytja bein sín, þegar Jehóva seinna meir leiddi þá burtu úr Egyptalandi. Bræður Jósefs, voru *enn* hræddir um, að hann mundi hefna sín á þeim, þegar faðir þeirra var dáinn, en hann var jafngóður við þá og elskuríkur sem áður; „því“, sagði hann, „er jeg ekki undir varðveizlu guðs? Þjer ætluðuð að gjöra mjer illt, en guð sneri því til góðs, til að gjöra það, sem nú er orðið, að halda mörgum mönnum á

lífi". 110 ára gamall andaðist Jósef, en börn Ísraels bjuggu enn nokkur hundruð ára eptir lát hans í Egyptalandi.

---

## 2. tímabil.

### *Móses og Jósúa stofnsetja Gyðingaríki.*

(1800—1400 ára f. Kr.).

---

Gyðingar bjuggu í 430 ár í Gósen, og á þeim tíma fjölguðu þeir mjög. Þeir lifðu hirðalífi og höfðu feðrastjórn (*patriarkalsk Regjering*). Þegar hjer er komið sögunni, var nýr *Faraó* (konungur) kominn til valda á Egyptalandi (og hefur hann, ef til vill, verið af hinum svo kölluðu *hyksos* frá *Fenikalandi*). Hann þekkti ekki til Jósefs, og óttaðist fjölda hinna lítilsvirtu hirðara. Hann beitti því við þá hinni grimmilegustu kúgan, ljet þá elta tígulstein, eins og þræla, og starfa að stórbyggingum handa sjer. Og að lyktum varð hann svo grimmur við þá, að hann skipaði ljósmæðrunum, að drepa hvert sveinbarn, sem fæddist hjá Gyðingum. En þær óttuðust guð, og skoruðust undan, að framkvæma boð konungsins. Þá ljet konungur birta þá skipan sína á meðal þjóð-

arinnar, „að öllum sonum, sem Ebrear eignuðust, skyldi þaðan í frá tafarlaust drekkja í *Níl;* dætur einar mættu halda lífi“.

Á þessum neyðartíma fæddi *Jokkebeð,* kona *Amrams,* son. Þau hjón voru bæði af ætt Levís. Móðirin leyndi sveininum í 3 mánuði, en þá gat hún það ekki lengur. Hún reið þá körfu úr stráum, smurði hana með jarðarbiki, lagði sveininn í hana, og setti hana út á Níl skammt þar frá, sem dóttir konungs var vön að baða sig í ánni. Konungsdóttir kom þangað, eins og hún var vön, sá körfuna, og aumkaðist yfir hinn grátandi svein. Systir sveinsins var þar skammt frá á bakkanum, til þess að sjá, hvernig körfunni reiddi af, og þegar hún sá, að konungsdóttirin ljet færa sjer hana, gekk hún til hennar, og bauðst til, að útvega henni barnfóstru. Konungsdóttir þá það, og fjekk móðurinni sveininn til fósturs. Þegar hann var orðinn stálpaður, seldi fóstran hann í hendur konungsdóttur, sem þá tók hann að sjer, eins og sitt barn, og kallaði hann *Móses* — þ. e.: sá sem er dreginn upp úr vatni. — Þar eptir ólst hann að öllum líkindum upp við hirðina, eins og höfðingjason, og nam þannig allar listir og vizku Egypta. Það er og í sögum haft, að hann hafi verið einn af hinum beztu hershöfðingjum Egypta í þá daga. Þannig fjekk Móses þá menntun, er hann gat ekki án verið, til þess að koma svo

fram, eins og hann gjörði síðar. En þó varð hann ekki fullnuma til þess í skóla hirðarinnar. Hann vissi, hverrar þjóðar hann var, og af ást á ættingjum sínum drap hann einu sinni egypzkan mann, sem misþyrmdi Ísraelingi. Þá var hann 40 ára gamall. En til þess, að komast undan hefnd Faraós flúði hann nú burtu; því hann sá sjer ekki vært við hirðina lengur, þar eð einn af löndum hans, sem hann ávítaði fyrir illa meðferð á ættmanni sínum, sagði: „Þú ætlar, ef til vill, að drepa mig, eins og Egyptann í gær? Hver gjörði þig að dómara á milli okkar?“

Á flótta sínum hvíldist Móses hjá brunni einum á *Midianseyðimörku*. Þá komu þangað dætur *Jetrós* prests, til þess að brynna hjörð föður síns, en hinir hirðarnir ráku þær burtu frá vatnsbólinu. Móses reis þá upp og hjálpaði meyjunum, og þegar Jetró, sem var formaður hirðaflokks nokkurs, heyrði það, ljet hann sækja hinn ókunna mann, og bauð honum, að vera hjá sjer. Seinna gipti hann honum og dóttur sína, *Sípóru*. 40 ár hafðist Móses við í eyðimörku þessari, og gætti hirðar Jetrós. Á þessum tíma lærði hann að stilla geð sitt, og afla sjer þeirrar hógværðar, sem hann seinna var gæddur fremur flestum mönnum öðrum. Einu sinni þegar hann var úti á víðavangi með hjörðina undir fjallinu *Hóreb*, sá hann viðar-

runna einn, er stóð í ljósum loga, en eyddist þó ekki. Hann undraðist þetta, og gekk nær runninum; en þá hljómaði rödd Jehóva í eyrum honum og mælti: „Tak þú skó þína af fótum þjer; því sá staður, sem þú stendur á, er heilagur! Jeg er Jehóva, guð feðra þinna. Jeg hef sjeð bágindi þjóðar minnar á Egyptalandi; jeg hef heyrt óp þeirra, og þekki neyð þeirra, og er kominn ofan til þess, að hjálpa þeim, og leiða þá til Kanverjalands. Far þú því, jeg sendi þig, til Faraós, og leið þú þjóð mína, syni Ísraels, út af Egyptalandi“. Þá svaraði Móses: „Hvernig get jeg gengið fyrir Faraó og leitt börn Ísraels út af Egyptalandi? og hvað á jeg að kalla þig hjá bræðrum mínum?“ En Jehóva sagði? Jeg skal vera með þjer! Nafn mitt er: *Jeg er sá, sem jeg er!* Þú skalt fara til hinna elztu af þjóð þinni, og segja þeim, að guð Abrahams, Ísaks og Jakobs, sendi þig, til að leiða þá burtu af Egyptalandi, og þú skalt taka þá með þjer, ganga fyrir konunginn, og beiðast þess af honum, að þjer megið allir fara 3 dagleiðir út í eyðimörkina, til þess að færa Jehóva fórnir“. Síðan gaf Jehóva honum merki til þjóðar sinnar og Faraós, til þess að sýna þeim, að hann væri sendur frá honum. En merkið var það, að þegar Móses kastaði staf sínum á jörðina, þá varð hann að höggormi, og er hann þá tók um hala hans, varð hann

aptur að staf. Hann stakk hendinni í barm sjer, og hún varð eins og á holdsveikum manni, en þá er hann stakk henni aptur í barm sjer, varð hún heil. En samt sem áður mælti þó Móses: „Herra, jeg er maður orðstirður, og mjer hefur til þessa ekki veitt hægt að tala“. Þá sagði Jehóva: „Hver gefur manninum munninn? hver gjörir málhaltan og heyrnarsljófan, sjáandi eða blindan? gjöri jeg, Jehóva, það ekki?“ Þá sagði Móses aptur: „Æ, herra, sendu annan en mig, ef þú vilt senda nokkurn“. En Jehóva bauð honum að fara, og hjet honum því, að á leiðinni skyldi hann hitta *Aron*, bróður sinn, sem var 3 árum eldri, „og hann skal vera munnur þinn“, sagði Jehóva; „því hann er vel máli farinn; en þú skalt vera sá guð, sem talar í honum, og jeg skal vera með þjer og með honum, og segja ykkur, hvað þið skulið gjöra“. Móses fór þá til Jetrós, og bað hann um orlof til Egyptalands, að vitja um bræður sína. „Far þú í friði!“ mælti Jetró.

Á leiðinni hitti Móses Aron, bróður sinn, og sagði honum skipan Jehóva. Síðan fóru bræðurnir báðir til Egyptalands, og á fundi skýrði Aron hinum elztu Ísraelingum frá fyriræltlan Móses, og tóku þeir fregn þessari með gleði og auðmýkt. Því næst gengu þeir Móses og Aron fyrir Faraó og mæltu: „Jehóva, guð Ísraels, býður þjer, að láta þjóð sína fara 3 dagleiðir

út í eyðimörkina, til þess að halda þar hátíð sjer til virðingar". En í staðinn fyrir að láta þetta eptir, skipaði Faraó nú, að þaðan í frá skyldu Ísraelingar sjálfir viða að sjer stráum til tígulsteinanna, og þó búa jafnmarga til eptir og áður. Árangurslaust var það, að Móses og Aron gengu í annað sinn fyrir konung eptir boði Jehóva, og árangurslaust var það, að Aron ljet staf Móses bregðast í höggormslíki, því vitringar Faraós ljeku það eptir, og Faraó ljet það ekki heldur fá á sig, að stafur Arons gleypti alla hina. Ekki skeytti Faraó heldur um það, þó Móses rjetti staf sinn út yfir Níl og breytti hinni straumþungu móðu í *fúlt blóð;* því það ljeku vitringar Faraós einnig eptir honum. En þegar allt landið því næst úði af *froskum,* gaf Faraó raunar Ísraelingum burtfararleyfi, jafnvel þó að vitringar hans einnig gætu vakið upp froskana. En undir eins og þessari hörmung var að bæn Móses af ljett, tók konungur leyfi sitt aptur. Eptir skipan Jehóva ljet þá Móses Aron enn slá á jörðina með furðuverkastafnum, og huldist þá allt Egyptaland af *mýi.* Vitringarnir könnuðust þá við það, að hjer í sæist „fingur guðs", en þó ljet Faraó ekki undan að heldur. Hin næsta hörmung, sem að boði Jehóva kom yfir allt Egyptaland, nema Gósen, var *óteljandi grúi af eiturpöddum, fjársýki,* og síðan *kýli eða næmur kláði,* sem lagðist jafnvel á

spekinga Faraós. Í nafni *Jehóva* boðar þá Móses Faraó hina sjöundu hörmung: *óttalegt þrumuveður* og *hagl.* Hörmungin kemur, allur jarðargróði ónýtist, og menn og fjenaður meiðist og særist. Þá verður Faraó hræddur, og gjörir Móses þau orð, að hann skuli nú hlýða skipun hins reiða Jehóva. En undir eins og hörmunginni linnir, er hann og búinn að bregða loforð sitt. Jafnvel þó að Móses boðaði honum nú, að *engisprettur* skyldu eyðileggja það, sem haglið hefði skilið eptir, og ráðgjafar hans bæðu hann, að þyrma landinu, vildi hann þó ekki leyfa Ísraelingum meira, en að fara út í eyðimörkina. Þessu boði hafnaði Móses, og konungurinn ljet hann þá fara burtu með smán. Engispretturnar þöktu nú allt Egyptaland og myrkvuðu himininn. En undir eins og hörmunginni var ljett af í landinu, tók og Faraó burtfararleyfi sitt aptur. Í 3 daga var því næst *niðamyrkur* á Egyptalandi, og var það eins og undanfari hinnar seinustu hörmungar. Faraó skelfdist nú, og gaf Ísraelingum burtfararleyfi, en þó skyldu þeir skilja eptir fjenað sinn allan. En þegar Móses vildi ekki skilja fjenaðinn eptir, þá bannaði harðstjórinn honum að koma fyrir sín augu aptur. „Veri það svo“, mælti Móses; „jeg skal aldrei koma fyrir þín augu framar“. Þar eptir bauð Móses Ísraelingum, að lána bæði gull- og silfur-ker af Egyptum, sem hann ætl-

aði án efa til að vera skyldi nokkurs konar endurgjald fyrir svo langa ánauð, og fyrir fasteignir Ísraelinga í Gósen. Því næst skipaði hann þeim, að slátra lambi einu, steikja það, og borða það í hinum mesta flýti með stafinn í hendinni; þar með áttu þeir og að borða ósýrt brauð og beiskar jurtir. En blóði lambsins skyldu þeir stökkva á dyrnar á húsunum með „ísópviðargrein“; „því um miðnæturskeið ætlaði Jehóva að fara um landið og deyða alla frumburði, frá konungssyninum til sonar bandingjans í dýflissunni“. Þetta varð. Frá sjer numinn af sorg og gremju gjörði Faraó nú orð Ísraelingum, að þeir skyldu fara á burtu með allt, sem þeim heyrði til. Móses tók með sjer bein Jósefs, og fór með Ísraelinga, sem voru hjer um bil tvær milíónir að tölu, til stranda hins rauða hafs. Hann fór ekki beinasta veg, sem var yfir granda þann, er tengir saman suðurálfuna og austurálfuna; því hann reiddi sig alls ekki á hreysti nje herkunnáttu manna sinna, heldur einungis á aðstoð Jehóva. En það lá honum í augum uppi, að Faraó mundi bráðum iðra leyfis þess, er hann hafði gefið. Jehóva sjálfur leiðbeindi Ísraelingum, á daginn í skýstöpli, en á næturnar í eldstöpli. Ætlan Móses brást honum og ekki; því undir eins og hinn fyrsti ótti var hjá liðinn, iðraðist Faraó þess, sem hann hafði gjört, safnaði að sjer liði, og

fór á eptir Ísraelingum. Óðar en hann var búinn að ná þeim við strendur hins rauða hafs, fjellst Ísraelingum allur hugur; svo var ánauðin búin að gjöra þá ístöðulausa. Þeir sögðu þá við Móses: „Voru ekki nógar grafir handa oss á Egyptalandi, að þú skyldir fara með oss hingað út á eyðimörk, til þess að deyja þar? Oss væri þó betra, að þola ánauðarok Faraós“. Móses bauð þeim, að treysta á Jehóva, og sagði, „að þeir hefðu nú sjeð Egyptaland í síðasta sinni; því Jehóva ætlaði sjálfur að berjast fyrir þá“. Því næst staðnæmdist skýstöpullinn milli beggja herflokkanna, og hamlaði Egyptum frá, að gjöra áhlaup á Ísraelinga, en á meðan bljes ákafur austanvindur, og knúði allt vatnið fram úr hafinu rauða. Þá rjetti Móses staf sinn út yfir hafið, og vatnið stóð eins og veggur báðu megin, en Ísraelingar fóru þurrum fótum með allt sitt um hliðið, sem á varð á milli þeirra. Undir eins og Faraó varð þessa var, hjelt hann á eptir þeim; en þegar Ísraelingar voru komnir yfir um, þá var hann miðleiðis í firðinum. Og sjá, þá brá Móses aptur staf sínum yfir hafið, og það fjell saman að nýju, og drekkti Faraó með öllu liði sínu. Undir eins og Móses var kominn yfir hafið og óvinirnir drukknaðir, syngur hann ásamt mönnum sínum öllum fagurt sigurkvæði til Jehóva, og er það enn til, en *Mirjam,* systir hans, tók undir það ásamt

konum Ísraelinga í fagnandi flokki (2. Mb. 15. k.):

"Lofsyngið drottni; því hann hefur sig með dásemdum dýrðlegan gjört; hestum og riddurum hefur hann steypt niður í hafið".

Nú voru þá Ísraelingar komnir frá Egyptalandi, og óvinir þeirra höfðu tortýnzt í djúpi hafsins. En hinn erfiðari hluti þessa mikla verks var þó enn eptir, en það var, að gjöra allan hinn duglausa þrælaskara að sjálfráðum, frjálsum og guðelskandi mönnum. Móses var kominn með þá tæpar 3 dagleiðir á fram inn í eyðimörkina, þegar þeir fóru að mögla við hann, af því að þá vantaði gott neyzluvatn. Móses bætti þá vatnið með því, að leggja niður í það eins konar trje (sassafras?); þó voru ekki 2 mánuðir liðnir frá burtförinni úr Egyptalandi, þegar Ísraelingar fóru algjörlega að mögla við þá, Aron og Móses, og óska sjer aptur til kjötkatlanna á Egyptalandi, af því þeir óttuðust hungur á eyðimörkinni. Móses ávítaði þá fyrir vantraust á Jehóva, en það kom fyrir ekki, og árangurslaust var og það, að himinbrauði (*manna*) rigndi niður, og það lá á jörðunni eins og hjela. Sama er og sagt um það, að lynghænsi fjellu niður í hendur þeirra, eins og send af himnum ofan. Nokkru síðar lá við sjálft, að þeir mundu grýta Móses fyrir þá sök, að þá vantaði vatn; hann sló þá staf sínum á klett einn, og þar

spratt upp gnægð af hinu tærasta vatni. Þannig varð þessi hin mikla hetja einatt að berjast við þrællyndi og skríllyndi þeirra manna, sem ekki voru verðugir umhyggju Móses, og stuttum tíma eptir varð hann og að ganga [redacted] bardaga við aðvífandi fjendur. *Amalekingar*, arabiskir ræningjar, gjörðu sumsje herhlaup [redacted] hina friðsömu flokka Ísraelinga. Móses seldi herforustuna í hendur *Jósúa*, ungum hermanni af Efraimsætt, en gekk sjálfur á meðan upp á fjallið *Hóreb*, og baðst einatt fyrir, með höndunum lyptum til himins, [redacted] *Aron* og *Húr* studdu hann. Lýðurinn sá hinn útvalda guðsmann á bæn, og viss [redacted] sigurinn barðist hann hraustlega, og rak óvinina á flótta. Móses gjörði það síðan Ísraelingum að skyldu, að eyðileggja Amalekinga fyrir það, að þeir hefðu brotið þjóðafriðinn með því, að ráðast með ófriði á friðsama ferðamenn. Þetta reit hann í bók handa eptirkomendunum. Eptir sigurinn á Amalekingum kom Jetró, tengdafaðir hans, til hans með konu hans og tvo sonu. Þessi hyggni maður sá, hvernig Móses sat allan daginn á dómstólnum, til að skipa niður rjettindum og skera úr mál[redacted] manna, og kenna þeim vilja Jehóva. Jetró rjeð því Móses, að setja undirdómara yfir þúsund, yfir hundrað, yfir fimmtíu, yfir tíu, sem skyldu veljast að verðleikum, [redacted] ekki eptir foreldri nje fæðingu. Þessir menn skyldu skera

úr öllum hinum lítilvægari málum, en sjálfur skyldi hann hafa stórmálin. Móses fjellst á ráð þetta og fylgdi því.

Á hinum þriðja mánuði eptir burtförina frá Egyptalandi komst Ísrael á eyðimörkina í kring um fjallið *Sínai*, sem er á nesinu milli austur- og vestur-armsins á hafinu rauða. Hjer skipaði guð Móses, að segja lýðnum þessi orð: „*Þjer hafið sjeð, hvað jeg hef gjört við Egyptaland, og hvernig jeg hef borið yður til mín á arnarvængjum; ef þjer hlýðið nú röddu minni, og haldið þann sáttmála, sem jeg hef gjört við yður, þá skuluð þjer vera eign mín fremur öllum þjóðum á jörðunni, andlegt konúngsríki, heilög þjóð*“. Í þessum orðum liggur án efa öll fyrirætlan Móses, sem forsjónin hafði falið honum á hendur að framkvæma með undrunarverðu afli. Móses átti að stofna það ríki, sem, á meðan myrkrið hvíldi yfir jörðunni, gæti í hálfa aðra þúsund ára verið skjól fyrir ljós það, sem forfeðurnir höfðu fengið frá Jehóva. Hann átti að stofna það ríki, sem ljósið skyldi ekki framar einungis birta upp einstök heimili í, heldur verða að þeim ljóma, er jafnvel boðaði fjarlægum löndum hinn upprennandi dag; hann átti að mynda þann lýð, er geymdi, efldi og breiddi út þennan heilaga ljóma; þann lýð, sem jafnvel þá, er hann forherti sig, verndaði þó hið *guðlega*, eins og öruggur varnargarður,

„þangað til fylling tímans kæmi“. Þessa vegna hlaut lýður guðs *strengilega og til fulls og alls að greinast frá* öllum öðrum þjóðum; hann mátti ekki vera *bundinn við jörðina*, þó hann væri á henni eins og ferðamaður; þessa vegna voru hin mörgu *tákn*, *spámenn* og *heilög saga*, sem einatt hjelt augum lýðs þessa fast á hinu komanda, og á *konungi sínum*, hinum ósjáanlega guði. Jehóva var konungur þjóðarinnar; það var vilji hans, sem stjórnendurnir, prestarnir, áttu að kynna henni og útlista eptir *óbreytanlegum lögum*. Þessa vegna var og það, að jafnvel þó að Kanverjaland lægi ágætlega við *verzlun*, þá skipaði Móses þó lýðnum, að leggja ekki stund á neinn annan atvinnuveg, en *akuryrkju* og *kvikfjárrækt*, og setti þannig takmörk fyrir allri *ágengni við aðra* og *löngun til að vinna ný lönd undir sig*.

Lögin voru gefin á hátíðlegan hátt. Þjóðin varð í tvo daga að hreinsa sig og búa sig undir, að heyra vilja Jehóva. Fjallið var girt, og enginn mátti stíga fæti sínum upp á það; hvert dýr, sem fór yfir hin helgu vebönd, var vægðarlaust grýtt. Að morgni hins þriðja dags laust á ógnarlegu þrumuveðri; þykkir skýbólstrar huldu fjallið að ofan, og innan um skruggur og eldingar heyrðist básúnuhljóðið einatt betur og betur; því í hinu óskaplega veðri steig

Jehóva niður á hið titranda fjall, Sínaí. Með ótta heyrði lýðurinn þessi orð Jehóva:

*Jeg er Jehóva, þinn guð, sem leiddi þig frá Egyptalandi, heimkynni ánauðarinnar. Þú skalt enga guði hafa aðra en mig, og ekki smíða þjer nokkra mynd eða líkneskju, til að tigna og þjóna; því jeg er Jehóva, guð þinn, vandlátur guð, sem hegni brota feðranna á börnunum í þriðja og fjórða lið, á þeim, sem hata mig, en auðsýni þeim miskunsemi í þúsund liðu, sem elska mig og halda boðorð mín. Þú skalt ekki fara hjegómlega með nafn Jehóva, guðs þíns* (þ. e.: hafa það við meineiða, galdur, keskni, o. s. frv.); *því Jehóva mun ekki láta þann hegningarlausan, sem fer hjegómlega með nafn hans. Minnstu sabbatsdagsins, að halda hann heilagan; sex daga skaltu vinna, en á hinum sjöunda máttu ekki vera að starfi, hvorki þú, nje sonur þinn, nje dóttir þín, nje heldur þræll þinn eða skepnur, eða útlendingurinn, sem hjá þjer er; því á sex dögum skóp Jehóva himininn og jörðina með öllu því, sem er í þeim, en á hinum sjöunda hvíldist hann, blessaði hann og helgaði. Þú skalt heiðra föður þinn og móður, svo að þú fáir að lifa lengi í landinu* (ɔ: Kanverjalandi). *Þú skalt ekki vega mann, og ekki drýgja hór. Ekki máttu stela, og ekki máttu bera rangan vitnisburð á móti náunga þínum. Ekki*

*máttu girnast hús náunga þíns, nje konu hans, þræl nje ambátt, nje uxa hans eða asna; í einu orði: þú mátt ekki girnast neitt af því, sem hann á.*

Eptir beiðni lýðsins voru ekki nema þessi undirstöðulög birt á svo hátíðlegan hátt. Af hinum öðrum fyrirskipunum Móses skal hjer einungis taka fram hin helztu atriði.

Eptir samningi þeim, sem gjörður var milli Jehóva og þjóðarinnar, var hann konungur hennar. Ætt Levís voru þjónar hans, sem ekki áttu einungis að starfa að fórnfæringum og annari guðsþjónustu, heldur og geyma lögin, og lesa þau fyrir öllum lýðnum sjöunda hvert ár. Þeir voru og kennarar þjóðarinnar, dómarar og læknar, og áttu að gæta ættatalnanna, og ásamt þeim varðveita sögu þjóðarinnar. Móses setti Aron bróður sinn, sem foringja þeirra, og kallaði hann *æðsta prest;* skyldi sú tign ganga í erfðir til frumsona niðja hans, hvers eptir annan í beinni ættlínu. Allir aðrir niðjar Arons skyldu vera prestar, og ráða yfir hinum prestunum af ætt Levís. Til þess að niðjar Levís drægjust ekki frá embætti sínu af óviðkomandi sýslunum, skipaði Móses svo fyrir, að þeir mættu engan fasteignarhluta fá í Kanverjalandi, eins og hinar ættirnar, heldur búa í 48 borgum, til og frá um allt landið, og vera þannig jafnframt eins og band það, er samtengdi allar ættirnar

í eina þjóð, með einum trúarbrögðum. Áttu þeir að lifa á *tíund*, sem þeim hlotnaðist af *fórnum*, *frumgróða*, sem Jehóva var færður að gjöf, og af *lausnareyri fyrir frumburðina*, sem í raun og veru áttu að verða þjónar Jehóva, en sem Levísætt var sett í staðinn fyrir. Móses kenndi að vísu, að Jehóva væri *heilagur*, og *mætti ekki nefnast með nafni*, en við það hnýtti hann ekki einungis mörgu líkingarfullu orðatiltæki, heldur kom hann og allri guðsþjónustugjörðinni í eins tignarlegan búning og þýðingarmikinn, eins og hún var skrautleg og viðhafnarmikil. Þetta var án efa mjög nauðsynlegt á þeim tíma og við þá þjóð, sem Móses átti við, og tilgangur allrar guðsþjónustunnar var, að sýna, að þjóðin væri ein heild, sem lifði í einingu við hinn eina sanna guð. Af frjálsum gjöfum þjóðarinnar bjó Móses til tjald eitt mikið — *tjaldbúðina* —, og var því skipt sundur í 3 herbergi. Í hinu innsta herbergi, sem kallað var hið *allraheilagasta*, og sneri móti vestri, stóð örk sáttmálans; en það var kista ein 2½ álnar löng, sem bæði að utan og innan var lögð með þunnri húð af gulli, og þar að auki með handarhöldum úr gulli og burðarásum. Í örk þessari voru *báðar lögmálstöflurnar* geymdar, og skammt frá henni *stafur Arons* og *ker með himnabrauði í*. Arkarlokið var úr smágjörvu gulli, og ofan á því líkneskjur tveggja *kerúba*, en það voru vængj-

aðir englar, sem áttu að tákna *návist Jehóva;* þess vegna var og lok þetta kallað *náðarstóllinn.* Herbergi þetta var 10 álna langt, 10 álna hátt, og 10 álna breitt, og inn [redacted] það mátti enginn maður koma, nema æðsti presturinn, og það einungis einu sinni á ári, eða á hinni miklu friðþægingarhátíð, þegar hann átti að fórna fyrir sínar og alls lýðsins syndir, og stökkva blóði á náðarstólinn. Herbergið, sem næst var fyrir framan hið allraheilagasta, og kallað var hið *heilaga (helgidómurinn),* var 20 álna langt, 10 álna hátt, og 10 álna breitt. Á milli þess og hins allraheilagasta var voð ein eða blæja, sem kölluð var *fortjaldið.* Við suðurhlið þessa herbergis stóð sjögreinuð kertastika úr gulli, og loguðu ljós á henni [redacted] nætur; en að norðanverðu í helgidóminum stóð skoðunarbrauðaborðið, þar sem á hverjum sabbatsdegi voru lögð á [redacted] brauð ósýrð, er að viku liðinni voru eign prestanna, og sem enginn annar mátti neyta, nema mikið lægi við. En [redacted] miðjum helgidóminum, beint fram undan fortjaldinu, og andspænis sáttmálsörkinni, stóð reykelsisaltarið, þar sem reykelsi var fórnað á kveld og morgun á hverjum degi, um leið og lamparnir voru hreinsaðir og ljósin tendruð. Fremsta herbergið í tjaldbúðinni, *forgarðurinn,* var skilinn frá helgidóminum með tjaldi; hann var 100 álna langur, og 50 álna breiður, tjaldaður allt [redacted] kring og þaklaus.

Í forgarðinum stóð meðal annars brennifórnaraltarið. Móses hafði sumsje lögboðið ákaflega margar fórnir, bæði af dýrum og jarðargróða, sem fram átti að bera við ýms tækifæri, stundum í nafni allrar þjóðarinnar, og stundum í nafni einstakra manna. Hin daglega fórn voru tvö lömb veturgömul, en hinar miklu fórnir fóru fram á öllum stórhátíðum. Þær voru þessar hinar helztu: *páskar*, sem haldnir voru í aprílmánuði í minningu burtfararinnar úr Egyptalandi. Þá var og Jehóva fórnað hinum fyrstu kornöxum, og allir urðu þá að koma til húss drottins, nema þeir, sem voru á ferð eða sjúkir. Þessi hátíð stóð í sjö daga. *Hvítasunna*, sem halda skyldi 50 dögum eptir páska; á henni var Jehóva fórnað hinum fyrstu brauðum af ársgróðanum til þakklætis fyrir uppskeruna, og á seinni tímum var þá og haldin minning löggjafarinnar á Sínai. *Laufskálahátíðin* var hin þriðja stórhátíð. Hún var haldin í októbermánuði, og stóð yfir í 8 daga. Þá var guði þakkað fyrir viðsmjörsgróðann og víngróðann, og bjuggu menn þá í laufskálum til endurminningar um förina um eyðimörkina. Auk þessara hátíða voru og haldnar, *nýárshátíð*, *tunglkomuhátíð*, *sabbat*, og ein *friðþægingarhátíð* á ári hverju. Sjöunda hvert ár var *sabbatsár;* þá átti jörðin að njóta hvíldar, og allur jarðargróði var þá eign fátæklinganna, útlendinganna og villudýranna.

Eins og skraut guðsþjónustunnar hlaut að vekja lotningu þjóðarinnar, eins varð og fjöldi þjónustusiðanna og strangleiki þeirra að aðgreina Gyðinga frá öllum öðrum þjóðum, og knýja þá til, að hafa hugann ávallt fastan á Jehóva. En það var tilgangurinn með hin hreinu og óhreinu dýr, sem lögin töluðu um, o. s. frv. Þess vegna skipaði og Móses, að rýma burtu eða eyðileggja alla Kanvérja, þegar er landið yrði tekið, og þá hörku rjettlætir saga hinna síðari tíma. Vjer hljótum allsendis að kannast við það, hversu það var nauðsynlegt *á þeim tímum og við þá þjóð,* að beita lögmálshörku, og eins og Móses heimta „auga fyrir auga, tönn fyrir tönn", einkum þegar vjer gætum þess og, að það var hinn sami löggjafi, sem bauð, að boða skyldi stríðin fyrir fram; að sá, sem hefði fastnað sjer konu, en væri þó enn ekki kvæntur henni, skyldi vera sendur heim, áður en til bardaga væri lagt; að ekki mætti gjöra herhlaup á neina borg, fyr en búið væri að skora á innbúana, að gefast upp, og að ekki mætti eyðileggja aldintrjen í umsátrinu; að ekki mætti safna þeim kornöxum saman, sem niður fjellu á akurinn í uppskerunni, eða tína hin einstöku ber af víntrjánum, nje þau viðsmjörsaldini, sem eptir yrðu, þegar trjeð væri hrist; því þetta væri allt eign fátæklinganna. Vjer verðum og þessa hins sama anda varir, þegar hann bann-

ar, að múlbinda uxann, sem þreskir, og að drepa „kúna, sama dag og kálfurinn sje drepinn“. Ekki megum vjer heldur gleyma því, að það var Móses, sem sagði: „Þú skalt elska drottinn guð þinn af öllu hjarta þínu, af allri sálu þinni, og af öllum mætti þínum“ (5. Mb. 6. k. 4.). „Bölvaður veri sá, sem flytur til landamerki nágranna síns, sem villir hinn blinda, og haggar rjettindum útlendingsins, eða föðurleysingjans og ekkjunnar“ (5. Mb. 27. k.). „Þú skalt ekki láta laun daglaunamannsins vera ógoldin hjá þjer næturlangt, ekki atyrða hinn heyrnardaufa eða sjóndapra, nje leggja tálmanir fyrir hinn blinda, ekki hata bróður þinn í *hjarta þínu,* nje hefna þín sjálfur. Þú skalt standa upp fyrir hinum hærða, og virða hinn aldurhnigna. Ekki skaltu gjöra neitt á hluta hins ókunna eða útlenda, heldur *elska hann eins og sjálfan þig;* því þjer voruð einnig útlendingar á Egyptalandi“ (5. Mb. 3. k. 19.).

Lög Móses studdust hvervetna á trúarbrögðin, og þess vegna er fengur hins fyrirheitna lands alstaðar skoðaður eins og hin mesta hamingja. En landið átti jafnframt að álítast eign Jehóva, sem þjóðin að eins mátti hagnýta sjer eins og geymslufje, og sem því var leyfilegt að veðsetja, en aldrei að selja. Undir eins og búið var að vinna Kanverjaland, átti því að verða skipt á millum ættflokkanna og ættanna, sem

ætíð skyldu halda þeim fasteignum, er feðrum þeirra hlotnuðust þá. Kæmist nokkur í svo mikla örbyrgð, að hann þyrfti að selja fasteign sína af hendi fyrir lausafje, þá stóðu slík kaup ekki lengur en til næsta *fagnaðarárs*, sem jafnan var fimmtugasta hvert ár; því þá varð að skila þeim aptur borgunarlaust. Með þessum hætti var girt fyrir það, að nokkur einstök ætt gæti eignazt annara fasteignir, en sumir komizt í örbyrgð, og það var torvelt fyrir útlending, að ná bólfestu í landinu, þar sem landsmennirnir aptur á móti eins og festust enn betur við það. Eptir tilætlan Móses mátti þjóðin ekki leggja önnur lönd undir sig, og þess vegna bannaði hann henni einnig, að hafa riddaralið, sem ekki gæti orðið að neinu talsverðu liði í fjöllóttu landi. Aptur á móti voru allir, og það jafnvel niðjar Levís, skyldir til, að taka til vopna og verja föðurlandið á ófriðartímum. Þessi skylda var takmörkuð við 20 og 50 ára aldur, svo að þeir, sem þar voru undir eða yfir, voru lausir við herþjónustu, en engir aðrir. Stjórn Ísraelinga var þannig *guðsstjórn* (Theokratie). Þó hefur Móses ákveðið það í lögum sínum (5. Mb. 17. k.), hvers konungi bæri að gæta, ef þjóðin einhvern tíma vildi með samþykki Jehóva velja sjer konung, eptir að hún væri búin að vinna Kanverjaland undir sig. Konungurinn átti að vera innlendur maður, og

mátti ekki safna að sjer mjög mörgum konum eða miklum auði; hann skyldi hlýða lögum Jehóva, sem prestarnir áttu að rita upp fyrir hann, „til þess að hann gæti lesið í þeim alla sína æfi, lært að óttast Jehóva, og *að hroka sjer ekki upp yfir bræður sína*".

Þegar lögmálið var gefið, var Móses í 40 daga uppi á fjallinu Sínaí, til þess að rista hin tíu boðorð á tvær steintöflur. Þjóðinni fannst það standa of lengi yfir, og heimtaði af Aron, að hann byggi þeim til guði, sem gætu leitt sig til Kanverjalands í staðinn fyrir Móses. Aron tók þá skraut Ísraelinga og gripi, og steypti handa þeim gullkálf, sem án efa var gjörður í líkingu *Apis*, Egyptaguðs. „Það er vopnabrak við herbúðirnar", segir Jósúa, þegar hann kom niður af fjallinu með Móses, og heyrði hin villtu gleðilæti og dans þjóðarinnar í kring um goðið. „Nei", segir Móses, „þetta er hvorki siguróp nje flóttavein, heldur er það söngur". Þegar þeir komu nær, sjer Móses goðið, og varð svo gramur við, að hann missti niður steinspjöldin, svo þau brotnuðu öll í sundur. Því næst tók hann goðið, brenndi það í eldi, muldi það síðan í dupt, og stráði því í vatn það, sem Ísraelingar neyddust til að drekka. Þar á eptir bauð hann öllum áhangendum Jehóva að fylkja sjer hjá sjer, og komu þá allir ættingjar Levís til hans undir eins. Móses skipar þeim með

brugðnum sverðum að refsa hinum guðlausu mönnum, og ljetu þar hjer um bil 3000 þeirra lífið fyrir brot sitt. Aron fjekk harðar ávítur, og Móses boðaði lýðnum hegnandi reiði hins rjettláta guðs. Síðan gekk hann aptur upp á fjallið, til þess að rista lögmálið á tvö önnur steinspjöld, og með þau kom hann aptur eptir 40 daga til lýðsins, og þá segir heilög ritning, að ásjóna hans hafi verið ljómandi, eins og að á henni væri endurskin af dýrð Jehóva, sem honum hafði birzt á fjallinu Sínaí.

Fjórtán mánuðum eptir burtförina frá Egyptalandi fór Móses á stað aptur frá Sínaí; skýstöpullinn og örkin voru í broddi lýðsins, sem án efa hefur verið í mörgum flokkum, innbyrðis sameinuðum. Eptir 2 eða 3 ára ferð nálguðust þeir loksins Kanverjaland, og Móses sendi einn mann af hverjum ættlegg, til þess að njósna um landið. Njósnarmenn komu aptur með ákaflega mikinn vínberjaklasa, sem vott um frjófsemi landsins, en engir rjeðu þeir til stríðs við landsbúana, nema *Jósúa* og *Kaleb;* hinir lýstu Kanverjum eins og tröllum, sem eins miklu væru stærri en Ísraelingar, eins og menn væru stærri en engisprettur; af þessari sögu varð hinn ragi lýður svo huglaus, að hann þorði ekki að berjast, og það lá við sjálft, að hann mundi *grýta* Móses og Aron, og kjósa sjer aðra forustumenn, sem gætu leitt sig *til baka aptur* til Egypta-

lands. Móses og Aron reyndu nú til, að sefa lýðinn með bænum, en það kom fyrir ekki; þá sást allt í einu *dýrð Jehóva* í dyrum tjaldbúðarinnar, og í nafni hins reiða guðs boðar þá Móses öllum lýðnum, að engum þeirra, nema Jósúa og Kaleb, skuli auðnast, að stíga fæti á hið fyrirheitna land, heldur ljúka æfi sinni á eyðimörkum Arabíu. Í þessu atviki verða menn að kannast við sendimann guðs, þar sem hann einn síns liðs boðar hinum óðu þrælum, sem ekki voru færir um, að taka við frjálsræðinu, vesala æfi, og að þeir ásamt *sjálfum sjer* skuli aldrei ná *takmarki* farar þeirra, sem þeir voru þá svo nálægir. Lýðurinn varð nú frá sjer numinn af ótta, eins og von var á, og vildi þegar ganga í stríð við Kanverja. Móses bannaði það, en hinir óstýrilátu Ísraelingar ráðast sjálfkrafa á hina næstu óvini sína, og bíða ósigur. Það hefur og án efa verið skömmu eptir þetta, sem einn af niðjum Levís, *Kóra* að nafni, gjörði samtök við *Datan* og *Abíram*, niðja Rúbens, og 250 höfðingja af lýðnum, og hóf uppreist í gegn Móses, fyrir þá sök, að Aron skyldi vera æðsti prestur, þar sem þeir þóttust eins vel bornir til þess, að stjórna þjóðinni, eins og Móses. Óþakklæti þessara manna, sem auðveldlega hefði getað ollað því, að þjóðin fjelli aptur að fullu og öllu niður í villu og vantrú, þegar stjórnarháttum og trúarbrögðum væri koll-

varpað, þurfti svo grimmilegrar hegningar við, að enginn maður þyrði framar að ráðast í slíkt. Móses átaldi því uppreistarmennina harðlega fyrir þvermóðsku þeirra, og skipaði þeim daginn eptir, að koma til tjaldbúðarinnar, og ganga fyrir auglit Jehóva með reykelsiskerið í hendinni; því Jehóva mundi þá sjálfur skera úr ágreiningsefninu. Í trausti álits síns og fjölda komu þeir á ákveðnum tíma að tjaldbúðinni. Þá sjest *dýrð Jehóva* enn í tjaldbúðinni, og Móses gengur fram fyrir lýðinn og skipar þeim burtu, er ekki vilji þola sömu hegningu, og uppreistarmennirnir eigi von á; sú hin óttalega hegning muni sýna lýðnum, að hann sje sendur frá Jehóva, sem ekki megi rísa í móti. Óttasleginn hörfar manngrúinn á hæl, og þá — segir heilög ritning — „lauk jörðin upp djúpi sínu, og gleypti hina guðlausu menn lifandi, með öllu, sem þeir áttu, en hinir 250, sem höfðu gjört sig seka með þeim, tortýndust af eldi drottins“. Samt sem áður kom þó upp almennur kur hjá lýðnum hinn næsta dag, *af því að Móses hefði látið drepa lýð Jehóva.* Þessi kur hætti ekki fyr, en næmur sjúkdómur var búinn að deyða 14000 manna. En til þess að það yrði aldrei framar þræta út úr æðsta-prests-embættinu, ljet nú Móses alla tólf ættarforingjana taka hvern sinn staf, og leggja þá ásamt staf Arons í helgidóm Jehóva, og þegar að var gætt daginn eptir, þá

voru sprottin blóm og aldini á staf Arons, svo að nú þótti sjálfur Jehóva hafa kosið hann til embættis þessa.

Eptir þetta dvöldu Ísraelingar í 37 ár á eyðimörkinni, þangað til að hinn ungi lýður var kominn upp, sem Móses hafði þegar frá barnæsku vanið við lögbundið frjálsræði, hreysti, og lotningu fyrir Jehóva; flestir hinna eldri voru þá og dánir. En þó lítur svo út, eins og þessi ungi lýður hafi erft þverlyndi feðra sinna, eins og von var til. Þetta sýna þeir meðal annars á 40. ári frá burtförinni frá Egyptalandi, þar sem þeir taka til að mögla móti foringja sínum vegna vatnsleysis; þeir voru þá komnir að landamærum *Edóms*. Þá segir hin heilaga saga, að Móses hafi og gleymt sjálfum sjer, og í staðinn fyrir að *skipa* klettinum eptir boði Jehóva, að gefa vatn af sjer, hafi hann slegið staf sínum á hann með einhvers konar efablendni eða vantrausti, og fyrir þá sök mátti hann ekki leiða þjóðina inn í hið fyrirheitna land. Móses krafðist þess raunar af konunginum í Edóm, að hann mætti fara skemmsta veg um lönd hans með lýðinn til Kanverjalands, en þegar hann fjekk ekki leyfið, vildi hann þó ekki hefja stríð við landsmenn, sem bæði voru hraustir menn og í ætt við Ísraelinga. En um þessar mundir unnu þeir sigur á Kanverjaflokki nokkrum, sem hafði ráðizt á þá, og urðu þá hinir ungu her-

menn Ísraelinga svo stórhuga, að þeir gjörðu loks uppreisn á móti Móses fyrir krók þann, er hann fór með þá kring um *dauða hafið,* af því hann vildi ekki taka leyfi það með herskildi, sem konungurinn í Edóm neitaði honum um. Þessi uppreisn sefaðist ekki fyr, en grúi mikill af eitruðum höggormum var búinn að drepa niður fjölda af lýðnum. Á þessu svæði andaðist Aron á fjallinu *Hór,* og hafði hann þá lifað í 123 ár. En áður hann dó, var sonur hans *Eleasar* hátíðlega smurður, og settur í embætti hans.

Á ferðinni kring um dauða hafið sigruðust Ísraelingar á *Amórahöfðingja* nokkrum og konunginum í *Basan,* er ráðizt höfðu á lýð Jehóva. Ísraelingar tóku lönd þeirra undir sig. Þegar *Balak,* konungur á *Móabalandi,* heyrði það, varð hann hræddur, og sendi *Bíleam* spámanni gjafir miklar, til þess að hann kæmi og lýsti bölvan yfir lýð Jehóva. Hinn mikli spámaður skoraðist undan því í fyrstu, en þó lítur svo út, sem hann hafi í annað sinn ekki staðið af sjer gjafirnar frá konunginum, og þá komið til hans. En á leiðinni sjer hann með furðulegum atvikum engil guðs, sem býður honum, að tala það eitt við konung Móaba, sem *drottinn legði fyrir hann.* Bíleam kemur til Móaba, og nú er þegar búizt til, að færa ríkulega fórn; en í staðinn fyrir að bölva Ísraelingum, blessar hann þá þrisvar sinnum með mikilli andagipt (4.

Mb. 23. k. 24.). Af þessu varð nú hinn ragi konungur Móabalands enn hugminni en áður, og reyndi nú ásamt Midiansbúum, að tæla Ísraelinga til skurðgoðatignunar og þeirra lasta, sem þar fylgdu með. Þetta svívirðilega áform heppnaðist helzt til vel, og fyrir það misstu margar þúsundir Ísraelinga lífið, að þeir ljetu tæla sig. Í herbúðunum kom upp ógnarleg drepsótt, sem Móses gat ekki stöðvað, nema með því, að beita hinum grimmilegustu refsingum við lýðinn. Þar eptir ljet hann *Píneas*, son Eleasars, fara með einvalalið á móti Midiansbúum, sem þegar biðu ósigur, og 5 af höfðingjum þeirra fjellu ásamt Bíleam fyrir hegningarsverðinu. Eptir beiðni Rúbens-, Gaðs- og hálfrar Manasse-ættar gaf Móses þeim til eignar lönd þau, sem hann hafði nú unnið fyrir austan Jórdan, en þó ekki fyr, én þeir voru búnir að lofa því, að hjálpa bræðrum sínum til þess, að vinna Kanverjaland.

Nú var þá loksins Jórdan ein á milli Ísraelinga og hins fyrirheitna lands. En 120 mæðusöm og áhyggjufull ár hvíldu á baki hinnar miklu hetju guðs; hann ljet því Jósúa á hátíðlegan hátt taka við forustunni af sjer, og lesa upp lögin fyrir öllum lýðnum, til þess eins og að endurnýja samningana milli Jehóva og hinnar öflugu uppvaxandi þjóðar. Því næst skýrði Móses frá *velgjörðum Jehóva* við þá að undan-

förnu, og frá þeirri *sælu,* er verða mundi laun þeirra, ef þeir geymdu trúlega vilja guðs, og að endingu frá hinum *óttalegu refsingum,* sem þeir ættu vísar, ef þeir hlýddu ekki lögunum (5. Mb. 29. k.). Hann hvatti þá og Jósúa til hugrekkis og trausts á Jehóva, sem með þeim mundi vera á tíma hættunnar. Að lyktum hóf hann upp svanasöng sinn, hið fagra kvæði (í 5. Mb. 32. k.), sem með hinni háfleygustu andagipt og innsta hjartanlegleika ítrekar fyrir þeim föðurást Jehóva, og hegningu þá, er þeir mættu vænta sjer, ef þeir væru honum ekki hlýðnir. Að því búnu hefur hann hendur sínar til himins, og blessar lýðinn með líkri ástsemi og forfaðirinn Jakob; hann blessar þann lýð, sem hann hafði hrifið undan oki ánauðarinnar og veitt frelsi og dug; því nú var starfi stjórnarans og löggjafans lokið. Eptir þetta fór Móses burtu frá herbúðum Ísraelinga og gekk upp á fjallið *Nebó,* til þess í hinnsta sinni að renna þaðan augunum yfir land það, sem hann var búinn að starfa að í 40 ár að vinna, og sem Jehóva ljet honum þó ekki auðnast að stíga á fæti sínum. Þegar hinn aldurhnigni kappi guðs var búinn að svala huga sínum á því, að renna augum yfir hinn heilaga bústað feðranna, sjónarsvæði þeirra atburða, sem umhyggja guðs fyrir hinu fallna mannkyni átti á sínum tíma að birtast á í enn meiri dýrð, en nokkru sinni áður, —

þá andaðist hann, „án þess að auga hans væri sljóft orðið, eða afl anda hans væri frá honum horfið. Jehóva gróf hann í Móabsdal, og enginn vissi, hvar gröf hans var. En aldrei kom sá maður fram meðal spámannanna, sem jafnaðist við Móses í krapti og dásamlegum verkum; því Jehóva talaði við hann augliti til auglitis“.

Í 30 daga syrgðu Ísraelingar Móses. Þar eptir skipaði Jósúa liðinu að boði Jehóva, að búast til, að fara yfir Jórdan, og einkum skoraði hann á Rúbens-, Gaðs- og hina hálfu Manasseætt, að efna nú heit það, sem þær höfðu gefið Móses. Þá svöruðu þær: „Vjer viljum gjöra allt, sem þú býður, og fara hvert sem þú sendir oss. Eins og vjer hlýddum Móses, eins viljum vjer hlýða þjer í öllu, þegar Jehóva er með þjer, eins og hann var með Móses. Hver, sem þjer er óhlýðinn, skal deyja; vertu einungis hugrakkur og hraustur“. Jósúa sendi þá tvo njósnarmenn yfir Jórdan til *Jerikó,* til þess að grennslast eptir ástandi óvinarins. Þeir gistu hjá konu einni, *Rahab* að nafni, og heppnaðist henni, að leyna þeim og koma þeim undan borgarmönnum, sem komizt höfðu að því, hverjir þeir voru, og sátu um líf þeirra. Hún ljet þá síga niður af borgarveggjunum um nótt, en þó með því skilyrði, að þegar borgin yrði tekin, þá skyldi hinn rauði strengur, er þeir höfðu

sigið á, vera hlíf húsi hennar. Þannig komust þeir til liðsins aptur slysalaust, og sögðu Jósúa, að ótti fyrir Jehóva hvíldi yfir landinu. Jósúa bjó því allt til ferðar yfir Jórdan, og bauð lýðnum, að hreinsa sig, og velja einn mann af hverri ættkvísl, til þess að vera með örk drottins. Þegar sá dagur kom, er Jósúa átti að verða dýrðlegur á, eins og Móses forðum við rauða hafið, þá bauð hann prestunum, að taka sáttmálsörkina, og ganga með hana út í Jórdan, og undir eins og þeir komu út í vatnið, stöðvaðist rás þess, og hlóðst upp eins og veggur að ofanverðu, en hið neðra rann burtu. Prestarnir námu staðar með örkina í miðri ánni, og biðu þar, þangað til að herinn var allur kominn yfir um. Þá bauð Jehóva hinum tólf mönnum, að taka sinn steininn hver upp úr árfarveginum, og reisa þá upp hjá *Gilgal,* til minningar um þennan dásamlega atburð. Þeir gjörðu það, og straumur árinnar komst í sitt fyrra lag, undir eins og prestarnir voru komnir yfir um. Jósúa dvaldi nokkra stund á völlunum hjá Gilgal, og hjelt þar páskahátíðina, en svo voru Kanverjar hræddir, að þeir hjeldu allan þann tíma kyrru fyrir í Jeríkó, og þorðu ekki að gjöra neina árás á lýð drottins. Að lyktum sezt Jósúa um borgina; en í staðinn fyrir það, að gjöra á hana herhlaup, ljet hann allan herinn, og prestana með sáttmálsörkina í broddi fylkingar,

ganga einu sinni á hverjum degi þegjandi umhverfis hana. Hinn 7. dag ljet Jósúa liðið fara snemma á fætur, og ganga þá 7 sinnum í kring [redacted] borgina. En í 7. sinni ljet hann æpa heróp og blása í lúðra, og „þá hrundu borgarveggirnir niður“, og Ísraelingar ruddust inn í borgina, og drápu hvert mannsbarn, nema Rahöbu og hyski hennar. Borgin var eyðilögð, og herfangið helgað Jehóva. Enn fremur lýsti Jósúa bölvan yfir hverjum þeim manni, er nokkru sinni dirfðist að reisa upp aptur borgarveggi Jeríkóar. Þar eptir voru njósnarmenn sendir til *Aí*, sem lá [redacted] útnorður frá Jeríkó. Þeir komu aptur og sögðu, að 3000 gætu tekið borgina; svo voru þeir hrokafullir af hruni Jeríkóar. En herinn beið ósigur og missti 36 menn, og þó mannfall þetta væri ekki mikið, fjellst þó liðinu hugur við það; því það var vottur [redacted] ónáð Jehóva. Jósúa sjálfum fjellst og hugur við það. Hann kastaði sjer [redacted] bæn fyrir framan örk Jehóva, og eptir boði hans var hinn seki daginn eptir leitaður upp með hlutkesti. Hluturinn hitti mann einn af Júdaætt, *Akan* að nafni, og hann játaði þá, að hann hefði grafið [redacted] jörðu nokkuð af gulli og silfri og dýrindiskápu eina, sem hann hefði stolið af herfanginu í Jeríkó. Sakadólgurinn var nú hlífðarlaust tekinn og grýttur í hel, og líkami hans síðan brenndur, með öllu því, er hann átti. Að því búnu hjelt Jósúa

öllu liðinu vareygðarsamlega til Aí, og setti 3000 í leyni. Daginn eptir lagði hann til orustu, og hopaði liðinu með vilja á hæl fyrir borgarmönnum, sem þá sóttu fast að, er þeir töldu sjer sigurinn vísan. En á meðan fóru hinar 3000, sem í leyni voru, inn í borgina og lögðu eld í hana. Því næst komu þeir að baki borgarmanna, sem þá trufluðust þegar, og voru bornir ofurliði og sigraðir. Eptir að búið var að eyðileggja Aí eins gjörsamlega og Jeríkó, kallaði Jósúa allan lýðinn saman á milli fjallanna *Ebal* og *Garisim*, og las upp fyrir honum lögin. Hann reisti og Jehóva altari á fjallinu Ebal, og ljet rista á það ágrip af lögunum. Sigurvinningar Ísraelinga vöktu hvervetna ótta og skelfingu meðal Kanverja; *Gíbeonsbúar* ætluðu því með vjelum að vinna það, sem þeir annars þorðu ekki að vænta sjer af sigurvegaranum, sem ekki þekkti neina vægð. Í gömlum, slitnum klæðum, með rifna vínbelgi og myglað brauð, komu sendimenn þeirra fyrir Jósúa, og ljetust vera frá fjarlægri þjóð, sem vildi gjöra vináttusamning við Ísraelinga. Á þessu bragði vöruðu þeir sig ekki, Jósúa og höfðingjar lýðsins, svo þeir bundust í fjelag við þá, og unnu þar eiða að. 3 dögum síðar komu þeir til Gíbeons. Ekki að síður hjeldu þeir þó eiða sína, en dæmdu þá og alla niðja þeirra til þess, að vinna öll þrælastörf við tjaldbúð drottins.

Þegar hinir aðrir Kanverjar heyrðu, að hinir voldugu Gíbeonsbúar höfðu gefizt upp, þá urðu þeir reiðir mjög, svo að 5 höfðingjar þeirra lögðu saman, og fóru með allt lið sitt undir forustu *Jórsalakonungs* á móti Gíbeon, en ekki Jósúa. Gíbeonsbúar sendu Jósúa orð, og kom hann tafarlaust til liðs við þá með allan her sinn. Og jafnvel þó hann hefði verið alla nóttina á ferðinni með liðið, sigraðist hann þó daginn eptir á hinum skelkuðu óvinum, og var það með fram að þakka óttalegu hagli, sem guð ljet á koma honum til liðs um daginn, á meðan bardaginn stóð. Þegar kvöldaði, var óvinaherinn þó enn ekki með öllu sigraður; þá baðst Jósúa fyrir og mælti:

„Sól, stattu kyr í Gíbeon, og þú tungl í Ajalonsdal"!

Og Jehóva heyrði bæn hans, og ljet ekki sólina ganga undir, nje tunglið renna upp, fyr en óvinirnir voru gjörsamlega eyðilagðir, og Jósúa var búinn að hertaka fimm konunga, er hann ljet alla drepa. Eptir þetta vann Jósúa hvern sigurinn á fætur öðrum, svo að á tæpum 6 árum var hann búinn að leggja undir sig ríki 31 smákonungs á Kanverjalandi.

Að vísu voru enn margir flokkar ósigraðir, bæði við sjóinn og uppi í dölunum á milli fjallanna, og nefnum vjer af þeim einungis *Filista* og *Sidónarbúa*. En nú langaði bæði þjóðina

og foringja hennar til þess, að komast í næði, og þess vegna ásetti Jósúa sjer, að skipta þá landinu. Hin öfluga *Júdaætt* fjekk vesturhluta landsins, sem næstur lá Egyptalandi og Edóm, og í þeim hluta fjekk Kaleb, eptir loforði Móses, hjeraðið *Hebron,* þar sem hann hafði áður farið um sem njósnarmaður, og átti hann nú að vinna það af Kanverjum; Kaleb var þá orðinn 85 ára gamall. Hinn hrausti *Otníel,* bróðursonur Kalebs, vann þá og hjerað nokkurt frá Kanverjum, og fjekk hann dóttur Kalebs fyrir það að launum. *Efraíms-ætt,* sem var næst Júda-ætt fjölmennust, fjekk þá ásamt helmingi *Manasse-ættar* sinn hluta. En þar eð skiptingin gekk seint, sendi Jósúa 3 menn af hverri ætt, til þess að ferðast um landið og skoða það, og sem *rituðu skoðunargjörð sína í eina bók,* og eptir henni var landinu síðan skipt á milli hinna 7 ættanna. Þá voru og til teknar 48 borgir til og frá um landið, sem vera skyldu aðsetur *Levís-ættar,* og af þessum 48 borgum voru 6 friðhelgisstaðir fyrir þá, er af vangá hefðu unnið víg, svo þeir kæmust undan blóðhefndinni, sem annars var mjög strengileg hjá austurlandabúum; því það, sem hinn vitri löggjafi mátti ekki af má, það hafði hann þó sjeð ráð til að takmarka sem mest. Tjaldbúðin var reist upp í *Síló,* sem var í miðju landinu, og þar átti að vera aðsetur æðsta prestsins og

stjórnandanna. Eptir ósk sinni fjekk Jósúa dálítinn stað í fjalllendum Efraíms-ættar, sem heiðursgjöf. Ekki getur sagan þess um niðja hans, heldur en Móses, að þeir hafi skarað fram úr í neinu.

Eptir því, sem áður hafði verið ákveðið, sneri nú hin 2½ ætt aptur austur yfir Jórdan til landa sinna í Gílead, og þakkaði Jósúa þeim áður fyrir liðveizluna, hvatti þær til, að hlýða Jehóva, og bað þær, að skipta herfangi sínu með þeim, er heima höfðu verið. Á heimleiðinni byggðu þeir altari við Jórdan, áður en þeir fóru austur yfir hana. Þetta undruðust Ísraelingar; hjeldu þeir, að Gíleaðingar hefðu kastað trúnni á Jehóva, og hjeldu fund með sjer í *Síló*. Þar var það ráð tekið, að færa trúarníðingunum stríð á hendur. Þó var *Píneas* og 10 ættahöfðingjar fyrst sendir til þess, að heimta skýringu Gíleaðinganna um altarisbygginguna, sem ekki þótti vera gjörð í neinni lagaheimild. Gíleaðingar sögðu, að altari þetta væri ekki ætlað til neinna fórnfæringa, heldur til minningar um það fyrir eptirkomendurna, að Gíleaðingar ættu og hlut í hinni sameiginlegu guðsþjónustu í *Síló*. Sendimennirnir sneru þá ánægðir heim aptur með svarið, og sefuðust þá Ísraelingar, er þeir heyrðu það.

Í 15 ár eptir skiptingu Kanverjalands naut Jósúa, ásamt þjóðinni, ávaxtanna af sigurvinn-

ingum sínum. En þegar hann þá fann það á sjer, að hann átti skammt eptir ólifað, ásetti hann sjer, að kveðja lýðinn á áhrifamikinn hátt, líkt og Móses hafði áður gjört. Hann stefndi þá saman öllum hinum elztu mönnum, foringjum ættanna, og öllum lýðnum í Sikkem, nálægt gröfum forfeðranna, og hjelt þar ræðu yfir þeim. Þar í skýrði hann frá velgjörningum Jehóva á Ísraelingum að undanförnu, og hjet þeim blessun hans framvegis, ef þeir hlýddu trúlega lögum Móses, og blönduðu sjer ekki saman við hina heiðnu Kanverja, er hann skipaði þeim að af má með öllu. Að lyktum spurði hann þá hátíðlega, hvort þeir kysu heldur, að tigna Jehóva, eða feðraguði ættanna, sem væru fyrir austan Frat, eða guði Kanverja; „því hann og ætt sín ætlaði að tigna Jehóva“. Þá svöruðu þeir allir samt, að þeir ætluðu að tigna Jehóva og trúa á hann einan. Jósúa brýndi þá fyrir lýðnum allar hinar þungu skyldur, sem þessu heiti væri samfara; en þeir ítrekuðu það að nýju. „Þá skuluð þjer vera vitni gegn sjálfum yður, að þjer hafið kosið, að þjóna Jehóva einum“! sagði Jósúa. Og lýðurinn svaraði: „Drottni vorum, guði, viljum vjer þjóna; hans röddu viljum vjer hlýða“! Þá reisti Jósúa upp stein í skugga eikar einnar til merkis um, að Ísraelingar hefðu endurnýjað samninga sína við Jehóva, og mælti: „Þessi steinn hefur heyrt

öll vor heit við Jehóva, og hann skal vera vitni gegn yður, svo að þjer afneitið ekki guði yðar!" — Jósúa ljet síðan rita upp ræðu sína, og leggja hana við lögbókina í sáttmálsörkinni. Skömmu þar eptir dó *Jósúa Núnsson*, þjónn Jehóva, og var hann þá 110 ára gamall. Nokkru þar eptir andaðist og æðsti presturinn *Eleasar Aronsson*.

## 3. tímabil.

### *Ástand Ísraelinga á dögum dómaranna.*

(1400—1150 ára f. Kr.).

Eptir lát Jósúa stóð nú Ísraelslýður — sem var alinn upp í hirðatjaldi og vanur hörðum aga — forustulaus uppi, og átti að fara að stjórna sjer sjálfur, eins og unglingur, sem misst hefur föður sinn, og er allt í einu kominn út í hinn hættufulla heim, þar sem ótal freistingar bíða hans, reiðubúnar til þess, að ganga á hólm við æskufjör hans. Að vísu ætluðu Ísraelingar sjer að halda áfram stríðinu við Kanverja, eins og Jósúa hafði skorað á þá um, áður hann ljezt; þó rjeðu þeir það af, að hver ætt skyldi gjöra það sjer í lagi, og hefur það líklega verið þess vegna,

að þeir höfðu nú engan herforingja, sem allur lýðurinn vildi hlýða. Eptir boði Jehóva fór Júdaætt, með liðsinni Símonsættar, fyrst á móti Kanverjum, og lagði undir sig nokkrar borgir í nágrenninu. Þeir tóku konunginn í *Besek* höndum, og þegar þeir hjuggu af honum þumalfingur og þumaltær, játaði hann, að það væri að eins endurgjald; „því 70 höfðingjar, er hann hefði farið eins með, hefðu forðum tínt upp mola af borðum hans sjer til viðurværis". Jórsalaborg var tekin og brennd, en kastalann, *Síon*, hafa þeir líklega ekki getað unnið; því eptir þetta voru í Jórsölum bæði *Jebúsítar* og Benjamíningar í einu. Hinar ættirnar áttu og í stríðum við Kanverja, en bráðum urðu þær þó leiðar á því, og ljetu sjer nægja, að leggja á þá ýmsar kvaðir og skattskyldu. Þannig bjuggu nú Ísraelingar saman við heiðna menn, námu siði þeirra, og tóku upp skurðgoðadýrkun þeirra með þeim löstum, sem henni urðu samfara. Fór þetta einatt því meira í vöxt, sem fleiri dóu af þeim, er verið höfðu með Móses og Jósúa. *Stjórnarskipun sú, er Móses hafði gefið þjóðinni, komst ekki á.* Jehóva gleymdist svo skjótlega, að það er í nokkur hundruð ára ekki talað um neinn prest, sem staðið hafi fyrir hinni opinberu guðsþjónustu. Þó hafa efalaust nokkrir af niðjum Píneasar haldið henni við. Eins og dæmi upp á trúarníðing minnumst vjer hjer ein-

ungis á *Mikka* nokkurn, sem steypti sjer goð úr silfri, og leigði sjer mann einn af *Levisætt*, til þess að vera hjá sjer heimilisprestur, „því“ — segir ritningin — „þá var enginn konungur (stjórnandi) hjá Ísraelingum, og hver maður lifði eins og honum líkaði bezt“. Seinna meir kom flokkur einn af Dansætt, sem rændi burtu prestinum og goðinu, en hertók borgina *Lais*, sem síðan var kölluð *Dan*; þar komst á skurðgoðatignan, sem hjelzt við fram á daga *Samúels*. Með þessum hætti voru þau bönd slitin, sem hjeldu þjóðinni saman innbyrðis, og tengdu hana við Jehóva. Ávextirnir af þessu var ágreiningur og tortryggni, og það er auðsjeð, að svo varð að vera: *„þegar lýðurinn tignaði ekki lengur sannan guð, þá varð hann bráð nágranna sinna, sem að eins stöku hetjum, er Jehóva sendi þeim, auðnaðist að frelsa frá ánauð þeirra, þegar neyðin um tíma hafði vakið traust lýðsins á hjálp hins almáttuga guðs“*. Konungur nokkur við Frat, *Kúsan Risataím*, var hinn fyrsti, sem lagði Ísraelinga undir sig, og gjörði þá skattskylda sjer. Þá kom *Otníel* fram, frændi Kalebs og tengdasonur, og skoraði á lýðinn, að fylgja sjer. Hann sigraðist á Rísataím, og hafði síðan í 40 ár dómaravald meðal Ísraelinga. Eptir lát hans urðu Ísraelingar skattskyldir konungi Móaba. Eptir margra ára kúgun átti Benjamíninginn

*Ehúð* að færa konunginum skattinn. Á þeirri ferð komst hann að því, hversu harðstjórinn var kærulaus og óvarkár um sig; hann snýr því aptur á heimleiðinni, og undir því yfirskyni, að hann væri sendur frá guðunum biður hann um, að mega tala við konunginn í einrúmi, og það var honum leyft. Leggur hann þá konunginn í gegn, og leynist svo í burtu, skorar á lýðinn að fylgja sjer, og sigrast þegar á hinum foringjalausu Móabsbúum. Nú höfðu Ísraelingar frið í 80 ár, en þeim hnignaði þó einatt jafnt og þjett. Að vísu sýndi *Samgar* nokkur þá hreysti mikla, er hann sigraðist á Filistum, og þó hafði hann ekki önnur vopn en nautaprik sitt. En það er einmitt vottur um vesaldóm lýðsins á þessum tíma. Þess vegna gat og hinn kanverski konungur *Jabín* lagt Ísraelínga undir sig, og átti hann það mest að þakka hraustmenninu *Sísera*, herforingja sínum, og hervagnafjölda þeim, er hann hafði. Þjóðina vantaði foringja, og hin vitra *Debóra* var hugrakkari en kappar Ísraelinga. Hún bjó undir pálmaviðareik einni í löndum Efraímsættar, og lýðurinn þyrptist til hennar, til þess að láta hana skera úr málum sínum og leggja sjer ráð. Sem *spákona* lætur hún því kalla fyrir sig *Barak*, kappa einn af *Naftalisætt*, og hvetur hann til þess, að frelsa þjóðina, og lofar honum aðstoð Jehóva. Barak er fús á, að gjöra

þetta, ef hún komi með sjer; því lofar hún, og segir, að Jehóva muni gefa Sísera í hendur konu einni. Þau fóru síðan á stað með 10,000 manns, og settu herbúðir sínar á fjallið *Tabor*. Leið þá ekki á löngu, áður Sísera umkringdi þau með fjarskalegum grúa af hervögnum. Debóra skipar þegar, að gjöra skyndilegt áhlaup á óvinina, og riðluðust þá fylkingar þeirra undir eins, og biðu þar mikinn ósigur. Sísera flýr burtu fótgangandi, og leitar sjer hælis hjá konu nokkurri af Kenítaætt, að nafni *Jael*. Hún tekur honum vel, býður honum tjald sitt, og svalar honum á mjólk. Síðan lagðist hann til hvíldar, og er hann var sofnaður, keyrir hún flein einn í gegn um höfuð hans í gegn um gagnaugun, og ljet hann svo líf sitt. Debóra orti síðan fagurt kvæði um sigurinn.

Debóra gat brotið ok Jabíns af herðum þjóðarinnar, en ekki gat hún gefið henni þann anda, sem einn mátti vernda frelsi hennar framvegis. Hún hafði og ekki heldur jafnmikið álit hjá öllum ættunum. Midíansbúar herjuðu á landið, og Ísraelingar urðu að fela sig í hellum og fjallaraufum fyrir ræningjum þessum. Þegar neyðin þrýsti fast að þjóðinni, þá kom sendiboði Jehóva til *Gídeons* af Manasse-ætt, *þar sem hann stóð og þreskti hveitið*, og skoraði á hann, að frelsa föðurland sitt. Eptir boði engilsins hjó Gídeon nóttina

eptir upp lund Baals, og reisti þar upp altari handa Jehóva. Borgarbúarnir voru reyndar komnir á fremsta hlunn með, að hefna tiltækis þessa á Gídeon, með því að drepa hann, en hyggni föður hans, sem hjelt, að Baal gæti hefnt sín sjálfur, frelsaði hann. Þar eptir dró Gídeon saman her mikinn, og fór á móti Midíansbúum, Amalekingum og Aröbum, sem gjörzt höfðu bandamenn. Gídeon leyfði hinum huglausu að fara heim aptur, áður en hann lagði til bardaga, og urðu þá einar 10,000 eptir hjá honum af 32,000. Af þessum 10,000 valdi hann eptir ráði Jehóva 300 manns til þess, að gjöra áhlaup á hinn óteljandi fjandmannagrúa. Sjálfur fór hann þó áður njósnarför inn í herbúðir óvinanna. Þar sátu tveir hermenn og töluðust við í bróðerni. Annan þeirra hafði dreymt, að byggbrauð, bakað í ösku, ylti að herbúðum Midíansbúa, og velti um öllum tjöldum þeirra. „Það er sverð Gídeons“, sagði hinn; „guð hefur gefið Midían og herbúðirnar í hendur hans“. Þegar Gídeon hafði heyrt þetta, lofaði hann guð, og fór burtu glaður í huga. Hann skiptir þá liði sínu í þrjá flokka, og skipaði þeim umhverfis herbúðir óvinanna. Hann ljet hvern mann hafa leirkrús með blysi í annari hendi, en lúður í hinni. Síðan lætur hann flokkana skyndilega ráðast á óvinina, blása í lúðrana, en kasta leirkrúsunum, svo þær brotnuðu, og blysin fóru

logandi út í loptið. Fjandmannaherinn vaknaði nú við vondan draum, og þegar hann sá eldinn fljúgandi í náttmyrkrinu, og heyrði lúðragjallið, hugði hann sig á alla vegu umkringdan, og varð frá sjer numinn af ótta og skelfingu. Þar biðu Midíansbúar og bandamenn þeirra algjörðan ósigur, og Gídeon elti flóttann, og náði þá enn tveimur höfðingjum, sem höfðu drepið bræður hans. Þess vegna skipaði hann syni sínum, barni að aldri, að vega þá, til þess blóðhefndinni væri fullnægt. Sveinninn þorði það ekki, svo Gídeon vóg þá báða eptir ósk þeirra. Þar eptir refsaði hann tveimur borgum, sem á herförinni höfðu neitað honum um mat handa liðinu. Ísraelingar urðu nú svo glaðir yfir afreksverkum Gídeons, að þeir buðu honum konungstignina, og það með, að hún skyldi ganga í arf til niðja hans, en hann neitaði boðinu, og sagði, að Jehóva, en ekki hann, ætti að vera og væri konungur þeirra. En af tignargjöfum þeim, er honum voru færðar, ljet hann búa til líkneskju eina, og var hún lengi síðan tignuð eins og skurðgoð; svona var þessi mikla hetja ólík Móses í anda og athæfi. Gídeon átti fjölda kvenna, og við þeim 70 syni. Þar að auki átti hann með hjákonu sinni í Sikkem son einn, er hann kallaði *Abímelek*, sem undir eins eptir lát föður síns kom sjer í svo mikla hylli hjá Sikkemsbúum, að þeir völdu hann,

til þess að stjórna sjer. Fje það, sem þeir gáfu honum, hafði hann til þess, að kaupa fyrir morðingja, er á laun vægju alla bræður sína. Þeir fjellu allir fyrir launvígum bróður síns, nema hinn yngsti, sem hjet *Jótam;* hann komst einn undan, og daginn sem Abímelek, bróðir hans, var tekinn til konungs í borginni, þá gekk hann upp á fjallið *Grísim,* og boðaði þeim hegninguna í dæmisögu þessari, og sagði: *„Heyrið mig, þjer Sikkemsbúar, svo guð heyri yður. Einu sinni fóru trjen að taka yfir sig konung, og þau sögðu við viðsmjörsviðinn: Vertu konungur vor! En hann svaraði: Ætti jeg að yfirgefa feiti mína, sem jeg á að þakka alla þá virðingu, sem jeg nýt, bæði hjá guði og mönnum, og fara að gnæfa upp yfir hin trjen? Þá fóru trjen til fíkjutrjesins og síðan til vínviðarins, en hvorugt þeirra vildi missa nytsama frjófsemi fyrir völdin tóm. Þá mæltu trjen við þyrniviðinn: Kom þú og vertu konungur yfir oss! Þyrniviðurinn svaraði: Ef það er alvara ykkar, að vilja taka mig fyrir konung ykkar, þá komið og hvílið í skugga mínum, en sje það ekki svo, þá skal eldur ganga út frá þyrninum og eyða sedrusviðnum á Líbanon"*. Síðan mælti Jótam enn fremur við borgarmenn: „Ef þjer hafið hagað yður vel og sæmilega við Gídeon og niðja hans, sem hætti lífi sínu, til þess að frelsa yður, þá verið

nú ánægðir með Abímelek, og Abímelek með yður; en sje það ekki svo, þá gangi eldur út frá Abímelek og leggi Sikkem í eyði, og eldur gangi út frá rústunum af Sikkem, og eyðileggi Abímelek.“ Í Óhamingjuboða þessum var mikill sannleikur fólginn; því Abímelek var ekki búinn að sitja 3 ár að völdum, þegar hann komst í stríð við borgarbúa, sem ekki vildu einu sinni þyrma mönnum hans, þegar þeir fóru fram hjá borginni, heldur rændu þá vægðarlaust. Abímelek rjeðst á borgina með launung og vann hana, og drap hávaðann af íbúunum. En allir hinir, sem komust undan sverðsegginni, flúðu inn í hof *Baals*, og þar brenndi hann þá inni. Borgina sjálfa lagði Abímelek gjörsamlega í eyði, og stráði salti um rústirnar. Að því búnu hjelt hann liðinu til borgarinnar *Tebes*, sem einnig hafði rifið sig undan valdi hans. En þegar hann nálgaðist vígið í borginni, sem hann ætlaði að leggja eld í, þá hæfði kona nokkur höfuð hans með kvarnarsteinsbroti. En til þess að falla ekki fyrir konuhendi, ljet hann skjaldsvein sinn reka sig í gegn með sverði, og rættist spádómur Jótams þannig öldungis. Þegar Ísraelingar sáu, að Abímelek var fallinn, þá fóru þeir þegar burtu, hver til síns heimilis. Eptir þetta lítur svo út, sem þeir hafi notið friðar í 50 ár. En þar eð þeir fóru þá aptur að hafast það að, sem illt var í augum drottins,

og þjóna annarlegum guðum, þá byrjuðu hörmungarnar að nýju. Ammóningar voru búnir að ná yfirráðunum yfir þeim, og kúguðu þá, *einkum Gíleaðingana.* Þeir hurfu nú raunar frá skurðgoðunum og áköllúðu Jehóva, og bjuggust í stríð móti óvinunum, en þá vantaði foringja. Þeir gjörðu því orð Gíleaðingi nokkrum, sem hjet *Jepta;* hann var óskilgetinn, og rekinn burtu frá ætt sinni, og hafðist við eins og ræningi úti á eyðimörku. Þegar lýðurinn var búinn að fá Jepta í hendur landsstjórnina, gjörðist hann foringi hans. Fyrst gjörði hann óvinunum orð, til þess að vita, hvort ekki yrði komið jöfnuði á. En konungur Ammóninga svaraði honum með hroka, og brá þá Jepta skjótt við, og fór í móti honum með lið sitt. Þegar hann fór á stað, hjet hann Jehóva, að færa honum það í brennifórn, sem fyrst mætti honum heiman að frá sjer, þegar hann kæmi aptur, ef hann ynni sigur. Hann fór og vann sigur, og er hann kom aptur, mætti hann fyrst einkadóttur sinni, sem kom í móti sigurvegaranum með alls konar fagnaði og hljóðfæraslætti. Faðirinn varð öldungis frá sjer numinn yfir heiti sínu, sem hann vildi ekki bregða; en dóttirin bað um 2 mánaða tíma, til þess að gráta hagi sína, og gekk síðan örugg í móti því, er fyrir henni lá. Dætur Ísraelinga minntust hennar síðan, með því að halda henni hátíð á hverju ári. Nokkru seinna risu

Efraímingar upp í móti Jepta, eins og fyr í móti Gídeon, fyrir þá sök, að þeir hefðu ekki tekið neinn þátt í hinum fagra sigri; en Jepta fór á móti þeim, og sigraðist á þeim. Á þeim 25 árum, sem þrír hinir næstu dómarar eptir Jepta voru uppi, lítur svo út, eins og Ísraelingar hafi notið friðar.

*Samson* var því næst dómari lýðsins, og aflaði hann sjer ævarandi nafns fyrir hetjuskap sinn. En þó verður hann hvorki talinn á meðal velgjörðamanna lýðsins, nje hinna miklu og veglyndu foringja hans. Sagan segir, að maður nokkur af Dansætt, að nafni *Manóa,* hafi fengið loforð um það með engli guðs, að kona hans, sem var óbyrja, skyldi fæða son. Þessi sonur skyldi vera *helgaður guði* (nazírei), sagði engillinn, og mátti því ekki drekka vín nje neina aðra drykki áfenga, ekki borða kjöt óhreinna dýra, nje skera hár sitt, til þess að hann á sínum tíma gæti orðið sá maður, er bryti ok Filista, sem um þessar mundir lá þungt á lýð Jehóva. Sveinninn var nefndur Samson, og var þegar á unga aldri sterkari en aðrir menn. En það lítur svo út, eins og hann hafi ekki verið mjög guðhræddur maður; því undir eins og hann sá konu eina af Filistum, sem honum leizt vel á, bað hann föður sinn um leyfi til að eiga hana, þrátt fyrir bann Mósislaga. Á leiðinni til konuefnis síns rjeðst ljón á Samson,

[redacted] hann sigraðist á, og var hann þó vopnlaus með öllu. Samson varð fljótt ásáttur við foreldra konunnar, og þegar hann nokkru síðar fór til þeirra til brúðkaups síns, þá gekk hann hjá beinagrind ljónsins. Sá hann þá, að villtar býflugur höfðu búið þar um sig, og tók hann hunangið frá þeim, borðaði nokkuð af því, en hafði nokkuð með sjer, til þess að gefa foreldrum sínum. Þegar hann nú kom til brúðkaupsins, átti hann, eptir því er siður var á austurlöndum, að bera upp gátu fyrir brúðarsveina sína 30. Gætu þeir ráðið gátuna, þá átti hann að fá þeim öllum ný klæði, en ef þeir gætu ekki ráðið hana, þá áttu þeir að gjalda honum 30 manna klæði. Gáta Samsonar var þannig: „Matur gekk út af etanda, og sætleiki út af hinum sterka“. Filistar gátu ekki ráðið gátuna, fyr [redacted] þeir fengu brúðina til þess, að narra Samson til þess, að segja henni ráðningu hennar, en hún sagði þeim. Með þessum brögð-[redacted] gátu þeir lokið ráðningunni fyrir hið sjöunda sólsetur, frá því gátan var borin upp, og sögðu: „Hvað er sætara en hunang, og hver er sterkari en ljón?“ Samson sá nú, hvernig brúðurin hafði vjelað sig, og í bræði sinni fór hann til næstu borgar, drap 30 Filista, rændi klæðum þeirra, og fjekk þau brúðarsveinum sínum. Síðan skildi hann við konuna, og gáfu þá foreldrarnir hana einum af brúðarsveinum

Samsonar. Nokkru eptir ætlaði Samson þó að heimsækja konu sína, en þá var hún öll á burtu, og öðrum gefin. Hann varð þá æfareiður, handsamaði fjölda af refum, batt þá tvo og tvo saman, vatt logandi blys í skott þeirra, og rak þá síðan inn á kornakra og aldingarða Filista, svo þeir kveyktu í þeim. Filistar hefndu sín á konu Samsonar, sem verið hafði, og brenndu hana og föður hennar inni. En Samson ofsótti þá hjeðan í frá hvervetna, og hafðist við í hellum á fjöllum uppi. Af þessu reiddust Filistar, og færðu Júdaætt stríð á hendur. Óttaslegnir fóru nú Ísraelingar á fund Samsonar, og ljet hann þá færa sig bundinn til Filista. En er þeir æptu siguróp af gleði yfir feng þessum, varð Samson reiður, og sleit af sjer böndin eins og brunninn þráð. Þreif hann þá asnakjálka, er þar varð fyrir honum, og barði óvinaherinn á flótta. Um þetta hreystiverk fer Samson sjálfur þessum orðum:

„Með asnakjálka hef jeg valköst, já tvo valkesti hlaðið; með asnakjálka hef jeg sigrað þúsund manna“.

Því næst — segir sagan — spratt upp tært vatn úr asnakjálkanum, og á því svalaði kappinn sjer; því hann var yfirkominn af þorsta og lúa. Eptir þetta fór hann á fund skækju einnar í *Gaza,* og þó segir í lögmáli Mósis, að „saurlífi megi alls ekki eiga

sjer stað á meðal sona Ísraels“. Þegar borgarmenn vissu, að Samson var þangað kominn, lokuðu þeir öllum hliðum borgarinnar, til þess að geta handtekið hann sofandi næsta morgun. En um miðnætti reis Samson úr rekkju, fór burtu, og tók með sjer allan dyraumbúning borgarhliðsins, og bar hann upp á fjall eitt skammt þaðan. En að lyktum varð þó Samson sigraður af vjelum konu einnar, sem hjet *Dalíla.* Eptir bón landa sinna, Filistanna, leitaðist hún við, að komast eptir því, með hvaða ráðum hið ógurlega afl Samsonar yrði borið ofurliði. Optar en einu sinni sagði hann henni rangt til þessa, t. a. m. að það væri fjötur af nýjum bastreipum, sjö þarmastrengjum, o. s. frv. En þegar hún hafði lagt þessa fjötra á hann sofandi, og vakti hann með þessum orðum: „Filistar ætla að drepa þig, Samson!“ þá sleit hann jafnan af sjer fjötrana. Dalíla var nú svo blíðmál við Samson, sem hún gat framast, og sagði honum grátandi, að þessi launung hans á sannleikanum væri vottur um kulda hans við sig, þar sem það gæti þó ekki staðið honum á neinu, að fullnægja þessari hinni saklausu forvitni sinni. Samson sagði henni þá loks, að ef hár sitt væri skorið, þá væri og afl sitt farið. Dalíla stefndi nú til sín höfðingjum Filista, sem höfðu samið um þetta við hana, og þegar hún var búin að skera hárið af höfði

Samsonar, þar sem hann lá og svaf í skauti hennar, þá fjekk hún hann þeim í hendur. Þeir stungu úr honum bæði augun, fjötruðu hann, og ljetu hann mala korn í dýflissunni. Hjer spratt nú aptur hár hans, og jafnframt því óx honum og afl að nýju. Þá bar svo við einu sinni, að Filistar hjeldu hátíð nokkra, og ljetu færa Samson inn í veizlusalinn, til þess að henda gaman að vesaldómi þeim, sem hin ógnarlega hetja var komin í. En húsið stóð á tveimur stólpum, og er Samson heyrði bituryrði hinna óstýrilátu fjandmanna, greip hann sinni hendi um hvorn stólpa, og kippti þeim um koll, svo að húsið hrundi allt niður og varð honum og mörgum þúsundum Filista að bana. Þannig endaði æfi hinnar miklu hetju Ísraelinga, og geta menn ekki dáðst mjög að henni. Hin aflmikla hetja varð þræll sællífisins, og þá var ekki að undra, þó að styrkur hans minnkaði, svo að hann yrði á endanum bráð fjandmanna sinna, þegar hann var búinn að missa það, sem vissaði hann sjálfan um aðstoð Jehóva, og hræddi óvinina. Vjer erum því fúsir á, að hverfa frá þeim kappa, sem í öllu sínu lífi og athöfnum ber það með sjer, að ósvífni og guðleysi aldarinnar kom fram í honum eins og í nokkurs konar skuggsjá. Og því ánægðari dveljum vjer við hin blíðari atriði, sem í hinni heilögu sögu eru í fleiru en einu tilliti forfari betri og þýðari tíma.

Undir lok dómarastjórnarinnar hjá Ísraelingum fór maður nokkur frá *Betlehem* í Júdaætt vegna hallæris búferlum til Móabalands. Auk konu hans, sem hjet *Noomí*, voru og synir hans tveir með honum. Skömmu síðar dó hann, og synir hans eignuðust þarlendar konur; hjet önnur *Arpa*, en önnur *Rut*. Eptir 10 ára dvöl í Móabalandi önduðust og báðir synir *Noomís*, og vildi hún þá yfirgefa land það, sem hún var búin að reyna svo mikið mótlæti í, og fara heim aptur til föðurlands síns. Báðar tengdadætur hennar fylgdu henni á veg, og er skilnaðarstundin kom, vildu þær báðar fylgja henni alla leið. Noomí vildi ekki, að þær tækju lengur þátt í mæðu sinni, og sneri þá Arpa heim aptur í sitt land, en Rut mælti: „Bið þú mig ekki um, að yfirgefa þig; því hvar sem þú verður, þar verð jeg einnig. Þín þjóð skal og vera mín þjóð, og þinn guð er einnig minn guð. Dauðinn einn skal geta skilið okkur að.“ Hjeldu þær síðan báðar áfram til Betlehem. Allir hinir gömlu kunningjar þyrpast saman, og allt er á lopti í hinni litlu borg. „Er þetta Noomí? er þetta Noomí?“ ljek á hvers manns vörum, er þeir sáu hana. „Nei“, svaraði hin mædda ekkja, „kallið mig ekki lengur *Noomí* (unaður), heldur *Mara* (sorg). Jeg fór burtu hjeðan auðug, en örsnauða sendir Jehóva mig aptur hingað“. Uppskerutíminn fór nú í hönd, og hin fátæka

Rut gekk út á akur, til þess að tína upp öx þau, sem niður fjellu. Þá vildi svo til, að hún hitti á akur hins auðuga *Bóasar*, sem var náskyldur tengdaföður hennar. Hann fór mjög vel með Rut, leyfði henni, að tína svo mikið sem hún vildi, og ljet hana neyta matar með hjúum sínum. Rut undrast þetta, og spyr, hvernig hún, útlendingurinn, hafi unnið til slíkrar góðvildar hjá honum. Þá mælti hinn veglyndi Bóas: „Jeg hef heyrt, hvað þú hefur gjört fyrir hana tengdamóður þína, að þú hefur yfirgefið föður og móður og föðurland þitt, til þess að komast til þeirra manna, sem þjer voru ókunnir áður. Jehóva launi þjer góðverk þitt! Já, miklu má Jehóva launa þjer, þar sem þú fórst til hans, til þess að leita skjóls undir vængjum hans". Rut svaraði honum með auðmýkt og þakklæti, og Bóas skipaði mönnum sínum, að láta fleiri öx detta niður viljandi á akurinn, til þess að hún gæti fundið því meira. Noomí varð mjög glöð, er hún heyrði hina mörgu og ljósu votta um veglyndi Bóasar. Þegar uppskeran var á enda, rjeð hún því Rut til þess, að fara á fund Bóasar, og minna hann á, að hann væri hinn næsti frændi, sem eptir lögum Mósis ætti að ganga að eiga ekkju ættingja síns, ef hann hefði ekki eignazt nein börn, sem erft gætu akur hans eða fasteign. Rut gjörði það, sem Noomí hafði ráðið henni

til, í fullu trausti á rjettsýni Bóasar, og henni varð eptir ætlan sinni. Hinn veglyndi frændi kvaðst fús til, að ganga að eiga Rut, og leysa fasteignina úr veði, svo framarlega sem annar ættingi, sem nær stæði, vildi ekki sjálfur gjöra það. Þar að auki gaf hann henni og býsnamikið af korni, sem hún færði Noomí, er varð hin glaðasta við fregnina um erindislok Rutar. Sama morgun gengur Bóas þegar til borgarhliðsins (er var hið sama hjá austurlandabúum, eins og *forum* (þingstaðurinn) hjá Rómverjum), og kljáði málið út við hinn rjetta „innlausnarmann“, sem ekki vildi leysa veðið og eiga Rut. Bóas gjörði það hvorttveggja, og launaði þannig hinni ráðvöndu og guðhræddu konu það, er hún hafði lagt í sölurnar fyrir mæðusama móður, sem nú átti betri gæfu að fagna fyrir sakir umhyggjusemi tengdadóttur sinnar. Bóas eignaðist son við Rut, sem nefndur var *Óbeð*, sem Noomí gjörði að kjörarfa sínum (tók sjer í sonarstað). Það var því með fullum ástæðum, að ein af vinkonum hennar sagði við hana: „Tengdadóttir þín, sem elskaði þig, er þjer betri, en 7 synir“. Óbeð var faðir *Ísaís*, föður *Davíðs* konungs.

---

## 4. tímabil.

*Samúel rjettir Gyðingaríki við að nýju. Blómi þess á dögum konunganna, Sáls, Davíðs og Salómonar.*

(1150—975 ára f. Kr.).

---

Það er óvíst, hversu löngu eptir daga Jepta og Samsonar það var, sem æðsti presturinn *Elí* stjórnaði lýð drottins. Synir hans tveir, prestar í Síló, urðu til almennrar ásteytingar vegna ribbaldaskapar þeirra og ósiðsemi. Samt sem áður ljet þó hinn guðhræddi, kjarklausi Elí sjer nægja, að ávíta þá hóglega með orðum, og þess vegna varð hann og að líða þungar ávítur hjá spámanni drottins, sem jafnframt boðaði honum eyðileggingu ættar sinnar. En í vanmættinum kemur máttur hins almáttka dýrðlegast fram. Þannig fæddist nú, þegar spillingin var mest, sá maður, sem án efa hefur líkzt Móses mest í anda og kjarki af öllum stjórnendum Ísraelinga. Þessi maður var *Samúel*, fæddur af Efraímsætt. Móðir hans var hin *guðhrædda Hanna*, sem með samþykki föður hans, *Elkana*, helgaði þennan frumgetinn son sinn til þjónustu Jehóva, og ljet hann alast upp hjá Elí við tjaldbúðina. Hann vandist þegar á æskuárum sínum við, að

gefa gaum að rödd Jehóva, sem á náttarþeli kynnti honum hegningu Elís og sona hans, sem skömmu síðar kom fram á þeim. Það kom sumsje stríð upp á milli lýðsins og Filista, og er Ísraelingar sáu, að þeir mundu bíða ósigur, ljetu þeir sækja sáttmálsörkina í von um sigur, ef hún væri hjá sjer. Þetta skaut og óvinunum að vísu fyrst skelk í bringu, en bráðum hertu þeir upp hugann, sigruðust á lýð Jehóva, tóku sáttmálsörkina að herfangi, og höfðu hana á burtu með sjer í sigurhrósi til *Asdoð;* þar settu þeir hana í hof skurðgoðs síns, er hjet *Dagon.* Á meðan þessu fór fram, sat hinn 98 ára gamli Elí áhyggjufullur fyrir utan hús sitt við veginn; þá kom þar til hans flóttamaður einn, sem sagði honum, að Ísraelingar væru búnir að bíða ósigur, synir hans báðir, er með örkinni hefðu verið, væru fallnir, og helgidómur guðs kominn í hendur óvinanna. Þessi hin síðustu tíðindi voru hinum aldraða manni of þung; hann datt niður úr sætinu, og dó af biltunni. Ekki var þó sáttmálsörkin lengi á valdi óvinanna. Optar en einu sinni fundu þeir líkneskju Dagons fallna ofan af stallanum á gólfinu hjá sáttmálsörkinni, og hvar sem örkin var höfð, þar kom upp drepsótt á meðal Filista. Þeir skiluðu henni þess vegna aptur, og sendu með henni gjafir.

Örkin og lögmálstöflurnar voru nú komnar

aptur heim til Ísraelinga, en orð lögmálsins voru týnd úr hjörtum þeirra. Tuttugu árum eptir lát Elís kemur Samúel, sem þá var orðinn dómari lýðsins, fram á þjóðfundi nokkrum, og fær lýðinn til, að hafna skurðgoðatignun, en *taka upp að nýju trúarbrögð Mósis,* „því þjóðin fann þörf sína á Jehóva“. Filistar komu raunar með her manns, til þess að drepa þegar niður hina fyrstu frelsisviðleitni Ísraelinga. En nú treystu þeir Jehóva, og fengu sigur í stríðinu, „því fórnaði ekki Samúel drottni, og barðist hann ekki með bæninni, eins og Móses, á meðan orustan stóð yfir?“ Eptir þetta ferðaðist Samúel einatt um landið, til þess að *skipa lögum og rjettindum manna á milli, og styðja og styrkja trúna.* Hann virðist og að hafa *stofnað skóla* á heimili sínu í *Rama,* til þess að *hver* maður, sem fyndi köllun hjá sjer til þess, að fræða lýðinn, gæti þar notið leiðbeiningar og kennslu í guðsorði og ritningunni, fyrst að Levísætt hefði vanrækt skyldu sína svo mjög. Þegar Samúel var orðinn gamall, þá gjörði hann sonu sína tvo að undirdómurum, en þeir seldu rjettindin fyrir fje. Það var bæði gremja yfir þessu og hræðsla fyrir því, að þeir mundu taka við landstjórninni eptir föður sinn, svo og veldi nágrannakonunganna og skortur á herforingja í stríði því, sem konungur Ammóna virðist þegar um þessar mundir að hafa ógnað Ísraelingum með, sem

knúði hina elztu menn þeirra til þess, að skora á Samúel, að velja sjer konung. Að vísu gat hið iðulega stjórnleysi eða óstjórn á dögum dómaranna verið hvöt til þessa, en hinn *reyndi* Samúel, er *var orðinn svo innlífaður andanum í lögum Mósis*, gat ekki dulizt afleiðinga þeirra, sem að líkindum hlytu að fylgja slíkri *breytingu*, og þess vegna gat hún ekki verið hinum *aldurhnigna manni* eða *föðurnum* kær. Hann setti því lýðnum fyrir sjónir lifandi mynd hinnar austurlenzku *harðstjórnar*, sem þeir vildu nú taka upp, í staðinn fyrir föðurstjórn Jehóva. En það kom fyrir ekki; Samúel varð að velja þjóðinni konung, og til þess rjeð einnig vefrjett Jehóva. Hann valdi þá *Sál Kísson*, af hinni lítilmótlegu Benjamínsætt, sem nú var minnst og mannfæst allra ætta Ísraelinga. Samúel ímyndaði sjer, að slíkur maður mundi ekki taka sjer harðstjórnarvald, með því að kollvarpa valdi prestanna. Sál var maður fríður sínum og kappi mikill, og meiri vexti en aðrir landar hans. Skömmu seinna var hann aptur valinn á þjóðfundi einum með hlutkesti, og þar eptir tekinn til konungs. Urðu þá sumir menn til þess, að gjöra gis að honum, og segja, að enginn þekkti nafn hans, en hann ljet sem hann heyrði það ekki.

Eptir þetta virðist Sál að hafa lifað eins og hver annar valdalaus maður um hríð. Samúel

hafði þá enn dómaraembættið á hendi, þangað til loksins að *Nahas*, konungur Ammóna, fór með her sinn til Gíleaðs, og settist um borgina *Jabes*. Borgarbúar vildu þegar gefast upp, en Nahas setti það í skilmálana, að hægra augað væri stungið úr höfði hvers karlmanns í borginni. Borgarmenn báðu þá um 7 daga frest, til þess að vita, hvort sjer mundi ekki koma nein hjálp. Sál kom frá plógi, er sendimaður Jabesmanna færði honum tíðindin. Varð hann þá svo óður við, að hann drepur yxnin fyrir plógnum, hlutar þau í sundur, og sendir blóðug stykkin út um landið á meðal Ísraelinga með þeirri orðsendingu, að þannig skuli verða farið með kvikfénað hvers þess, sem ekki fylgi Sál og Samúel. Lýðurinn þyrptist saman, og Sál vann mikinn sigur á Ammónum. Herinn varð þá svo frá sjer numinn, að hann vildi þegar drepa alla þá Ísraelinga, sem fyr höfðu gjört gis að konunginum, en Sál mælti, að á þeim degi, sem Jehóva hefði frelsað lýðinn, skyldi enginn verða af lífi tekinn. Samúel notaði nú fögnuð þjóðarinnar til þess, að láta hana að nýju taka Sál til konungs á þjóðfundi í *Gilgal*, og lagði þá um leið niður dómaraembættið. Jafnframt skoraði hann á hvern þann, er vissi nokkur rangindi í fari sínu, að koma og til færa þau; en allir játuðu, að hann hefði breytt við sig eins og hinn bezti faðir. Samúel heldur þá í seinasta sinni ræðu fyrir

þjóðinni, og álasar henni þar í fyrir það, er hún hafi eins og færzt undan stjórn Jehóva, með því að taka konung yfir sig, og hvetur hana til þess, að tigna drottinn af öllu megni, til þess að konungur og þjóð megi njóta blessunar hans.

Sál notaði nú álit það, sem hann var búinn að afla sjer, til þess að koma upp staðföstum her, er í voru 3000 manna. Með þessu liði byrjaði hann að reka Filista burtu frá stöðvum sínum í landi Ísraelinga, og hófst þannig stríð við þá að nýju. Sál hjelt liði sínu á móti hinum mannmörgu óvinum, er fylkt höfðu liði sínu á hentugasta stað. En áður til orustu væri lagt, átti að færa Jehóva fórn, og þegar Samúel kom ekki, eins og hann hafði lofað, innan 7 daga, þá fórnaði konungur sjálfur. Samúel sá það í hendi sinni, að Ísraelingar hlytu þegar að verða bráð harðstjórnarinnar, undir eins og prestarnir, þjóðvinirnir, misstu veldi sitt og einka-rjettindi. Hann áleit tiltæki Sáls hið fyrsta stig til þess, að umturna lögum ríkisins, og til þess að sameina konungs- og presta-valdið. Þess vegna boðar hann Sál *eptir konungalögunum* reiði Jehóva, og að konungstignin skuli verða tekin frá ætt hans. Sál sigraðist á óvinunum, og átti það mest að þakka hreysti sonar síns, *Jónatans;* í ákafanum sór hann þá, að sá skyldi missa lífið, er neytti nokkurs, fyr en myrkur væri komið, og

ekki sæist lengur til að reka flóttann. Af þessu vissi Jónatan ekki, og hann hafði hresst sig á nokkru af hunangi eða himnabrauði (manna). Þegar Jehóva var um kveldið spurður, hvort menn mættu daginn eptir halda áfram að reka flóttann, þá fjekk presturinn ekkert svar. Var þá hlutazt til, og komust menn að því, að lyktum, að brot Jónatans var sök í ónáð Jehóva, og mundi Sál tafarlaust hafa látið drepa hann, ef lýðurinn hefði ekki frelsað hina ungu hetju. Smámsaman lagði Sál undir sig allar nágrannaþjóðirnar, sem áður höfðu kúgað Ísraelinga, og Samúel vonaði, að með hreysti hans kynni það að takast, *að eyðileggja ræningjaflokka Amalekinga,* eins og Móses hafði áður skipað. Sál sigraðist og á þeim, og ljet drepa þá alla, nema *Agag* konung, og hið *bezta af kvikfjenaði* þeirra. En þegar hann ætlaði að afsaka þessa yfirtroðslu lögmálsins með því að segja, að kvikfjeð hefði hann ætlað til fórna, þá mælti Samúel og var hinn reiðasti, „að hlýðni er Jehóva þægari en brennifórn, og auðmýkt er honum kærari en hrútafeiti; að Sál væri fallinn í fulla ónáð Jehóva, og ættingjar hans útilokaðir frá konungsstóli Ísraelinga“. Eptir bón Sáls kom Samúel enn einu sinni með honum á þjóðfund, en eptir það fór hann heim til sín til *Rama,* þegar hann var búinn að láta drepa Agag, og síðan kom hann aldrei til Sáls,

heldur smurði hann leynilega *Davið Ísaison* af Júdaætt til konungs eptir hinn ógæfusama Sál, sem ekki var fær um, að vera í þeirri stöðu, sem hann var settur í, og sem einatt bugaðist meir og meir af hugsýki, er stundum varð að æði.

Davíð ljek manna bezt á hörpu, og var hann því fenginn til hirðar konungsins, því það var einkum hljóðfærasláttur, sem af honum rætti. Davíð heppnaðist þetta vel, og komst hann í mikla kærleika við konung. Þó leið ekki á löngu, fyr en hin tortryggna dutlungasýki Sáls einnig fór að stefna á Davíð. Svo stóð á, að það kom upp stríð á milli Ísraelinga og Filista, og herbúðir þeirra stóðu hvorar gagnvart öðrum. Risi nokkur úr liði Filista, er *Golíat* hjet, gekk eptir fornum sið á degi hverjum fram á vígvöllinn, og skoraði á einhvern Ísraeling til þess, að ganga á hólm við sig, og áttu hólmgöngulokin einnig að vera stríðslok beggja þjóðanna. Enginn þorði að fara á móti honum, og hafði þó konungur heitið þeim manni ærnu fje og dóttur sinni fyrir konu, sem felldi Filistann. Hinn ungi hirðir, sem á hverjum degi færði eldri bræðrum sínum við herinn mat, bauðst til, að fara á móti hinum óttalega óvin, „þar eð hann áður hefði fellt bæði ljón og björn, til þess að bjarga hjörð sinni“. Konungur leyfði honum að fara til einvígisins, og

með öruggu trausti á Jehóva gekk hinn ungi maður fram á móti hinum óttalega óvin, og hafði ekki annað vopna, en smalaprik sitt og slöngu. Risinn hæddist að þessum útbúningi, en Davíð lagði hellublað á slönguna, og hæfði tröllið þegar í fyrsta sinni í höfuðið, svo hann fjell dauðrotaður niður á völlinn; síðan hjó hann af honum höfuðið með sverði sjálfs hans. Þegar Filistar sáu, hvernig einvígið fór, tóku þeir undir eins á rás og flúðu, og biðu manntjón mikið fyrir hinum sigrandi Ísraelingum, sem ráku flóttann. Með þessu hinu fyrsta hreystiverki sínu ávann Davíð sjer ekki einungis hylli hersins og undran lýðsins, heldur og einlæga vináttu hins veglynda og trygga Jónatans. Þar á móti missti hann öldungis vináttu konungsins; því þegar Sál kom heim aptur sigrihrósandi, fóru menn hvervetna út í móti honum úr borgum Ísraelinga, og viðkvæðið í sigurljóðum þeim, er honum voru þá sungin, virðist að hafa verið þetta:

„Sál lagði að velli sína þúsund, en Davíð sínar tíu þúsundir“.

Af þessu varð hinn drambláti og tortryggni konungur svo reiður, að hann vildi þá helzt geta ráðið Davíð þegar af dögum. Hann gjörði hann að foringja einnar þúsundar, og bað hann að berjast hraustlega; því hann hugsaði, að þá mundu Filistar verða honum að bana. Og þeg-

ar Sál var búinn að gefa öðrum manni hina eldri dóttur sína, sem hann hafði áður heitið Davíð, þá bað hann nú um hina yngri dótturina, *Mikol.* Konungur játti því, en skipaði honum í stað brúðargáfu að færa sjer óræk merki þess, að hann hefði drepið 100 Filista. Davíð brá við, og drap 200 Filista, og nú fjekk hann konunnar. En því meiri hreysti og viturleik sem hann sýndi, því meiri varð ótti Sáls, og því beiskara hatur hans á honum, og svo urðu mikil brögð að hvorutveggja þessu, að hann varð á endanum að stökkva burtu frá hirðinni; því Sál var þá opt búinn að veita honum banatilræði. Og einu sinni bauð hann honum með uppgjörðri blíðu til hátíðar nokkurrar í því skyni, að taka hann þá af lífi, en Jónatan varaði Davíð við því, svo hann kom ekki. Varð þá konungur svo æfur, að það lá við sjálft, að hann mundi drepa son sinn. Á flótta sínum kom Davíð til æðsta prestsins, sem hjet *Abimelek*, og af því hann vissi ekki, að konungur áleit tengdason sinn sem óvin sinn, þá fjekk hann honum, sem var allslaus, skoðunarbrauð í nesti og sverð Golíats til ferðarinnar. Þræll nokkur frá Edóm, *Dóeg* að nafni, sagði Sál frá þessu, og ljet hann þá óðar drepa æðsta prestinn og allt hyski hans, sem var að tölu 85 menn; þar eptir ljet hann flæma hvert kvikindi burt frá þeim stað, er hann hafði verið í. Einungis einn af sonum hans,

sem *Abjatar* hjet, komst undan böðlum konungs, og flúði til Davíðs, sem einnig hafði flutt foreldra sína og systkini til Móaba, svo þeim yrði ekki grandað. Sjálfur var Davíð upp frá þessum tíma á reyki, og hafðist einatt við á eyðimörkum, meðan Sál lifði, því hann sat hvervetna um líf hans. Allir þeir, sem komizt höfðu í ónáð hjá konungi, eða voru í einhverjum kröggum, fóru til Davíðs, og gjörðu hann að foringja sínum, og með frábærum dugnaði og kjarki hjelt hann ræningjaflokki þessum í skefjum. Optar en einu sinni sýndi Davíð, hversu ástæðulaus grunsemi konungs væri. Það var til að mynda einu sinni, að Davíð hafði gengið til hvíldar inn í helli einn með menn sína, og þangað kom Sál einnig, og tók á sig náðir framar í hellinum; því hann vissi ekki af hinum, sem innar voru. Þegar menn Davíðs urðu þessa varir, rjeðu þeir honum til þess, að deyða konunginn, þar sem guð hefði nú gefið honum færi á því, en Davíð tók því fjarri, að leggja hendur á hinn smurða drottins. Þar á móti læddist hann að konungi sofandi, og skar lafið af kápu hans. Síðan vaknaði Sál, og grunaði alls ekki, að líf sitt hefði verið í höndum þess manns, er hann var þá einmitt að elta, fyr en Davíð kom sjálfur fram, sýndi honum kápulafið, og sagði honum upp alla sögu til merkis um, hversu fjarri hann væri því, að sitja um líf

konungs. Sál fann til þess, hversu veglyndislega Davíð hafði farizt, og mælti: „Þú ert rjettlátari, en jeg; því þú launar illt með góðu, og Jehóva mun launa þjer það. Jeg veit það víst, að þú átt að verða konungur Ísraelinga, og bið þig að vinna mjer eið að því, að þú hlífir þá ætt minni og hefnist ekki á henni“. Davíð gjörði það, og að því búnu fóru þeir sinn í hvora átt. Samt sem áður var þó Davíð enn landflótta. Þá var það, er hann dvaldi um hríð nálægt bænum *Karmel,* þar sem hinn ríki maður *Nabal* átti heima, og varði Davíð hjarðir hans fyrir ræningjum og villudýrum. En á hátíðinni, sem haldin var eptir sauðaklippinguna, sendi hann menn til Nabals, og bað hann kurteislega um björg nokkra handa sjer og mönnum sínum, er væru í mikilli þröng. En hinn naumi óþokki svaraði honum gegn *skyldu* og *landsvana,* „að um þær mundir strykju svo margir þjónar burtu frá húsbændum sínum, að hann hvorki vildi nje gæti gefið þeim mat, og að hann þekkti alls ekki þennan Davíð Ísaíson, nje þá menn, er með honum væru“. Þegar Davíð heyrði það, reiddist hann, og ætlaði þegar að hefna slíkrar smánar á óþokkanum. En undir eins og kona Nabals, *Abigael,* vissi, hvað orðið var, fór hún móti Davíð með ríkulegar gjafir, og er þau mættust, sefaðist hann þegar, og þakkaði henni þar að auki mikillega

fyrir, að hún hefði hamlað sjer frá, að vinna það verk, er sig hefði án efa iðrað eptir seinna meir. Á meðan þetta gjörðist, lá Nabal í ölæði heima; en er hann heyrði daginn eptir *sagt frá hættu þeirri, sem hann hafði verið í,* þá varð hann svo hræddur, að hann dó 10 dögum seinna, og varð nauðugur viljugur að yfirgefa allan auð sinn og vín.

Hamingjuleysi Sáls konungs varð bráðum aptur ríkjandi, og knúði hann að nýju til þess, að leita óvinar síns, sem hann hjelt vera. En um nóttina, þegar hann lá í fasta svefni með öllu liði sínu, leyndist Davíð inn í tjald hans, og tók spjót hans og vatnskrús frá höfðalagi hans, og fór með það upp á háls nokkurn, er þar var skammt frá. Því næst vekur hann *Abner,* herforingja konungs, og ávítar hann fyrir það, hversu illa hann gæti lífs konungsins. Vaknar þá Sál, og þekkir málróm Davíðs, játar synd sína, og biður hann að snúa heim aptur. En Davíð þorði ekki að treysta fagurmælum hins dutlungafulla konungs, og flúði nú til Filistalands, án þess þó að brjóta skyldu sína við föðurland sitt, þó það bakaði honum nýja hættu. Filistar bjuggust sumsje um þetta leyti til stríðs við Ísraelinga, til þess að hefna fornrar vanvirðu og manntjóns á þeim, og það var með kænsku, að Davíð komst undan lífláti, sem honum var hótað, ef hann gengi ekki í lið með

þeim móti föðurlandi sínu. Ísraelingar bjuggust einnig til stríðsins, en Sál titraði af ótta fyrir endalokum þess. Hugrekki hans var á burtu; hann þorði ekki að reiða sig á Jehóva, og langaði mjög til, að vita afdrifin fyrir fram. En hann var búinn að láta drepa prestana, og Samúel var dáinn; enginn gat sagt honum vilja Jehóva. Í þessum vandræðum fór hann til spákonu einnar, og hafði hann þó á velgengnisárum sínum reynt til, að rýma öllum slíkum bragðakindum burtu úr landinu. Konungur fór þá í dularklæðum með tvo menn á náttarþeli til konunnar, og bað hana, að vekja Samúel upp úr gröf sinni. Það er ekki hægt að segja, hvort spákonan, sem efalaust hefur þekkt Sál, ætlaði nú heldur að hefna sín á konungi, eða hún hefur þókzt sjá, hvernig stríðið mundi lykta; en án þess að Sál yrði nokkurs var, lægzt hún sjá Samúel og lýsir honum, svo að konungur fann, að það var rjett. Þá hneigir hann sig auðmjúklega til jarðar, og óskar að vita, hvað hann eigi að gjöra í bardaganum, sem fyrir lá. Nornin ljet Samúel svara því, sem hann á að hafa mælt í lifanda lífi, „að Jehóva sje í reiði sinni þegar búinn að taka ríkið frá Sál og gefa Davíð það, en hinn næsta dag ætlaði hann að selja konunginn, syni hans og her Ísraelinga í hendur óvinanna“.

Konungi fjellst nú algjörlega hugur; hann

fjell aflvana á jörðina, og fjekkst varla til þess, að neyta nokkurs. Daginn eptir gekk hann í bardagann, til þess að sanna spádóm konunnar. Ísraelingar biðu ósigur; Jónatan og tveir bræður hans fjellu; konungur var sjálfur mjög sár, og stóð einn uppi með skjaldsveini sínum innan um fjandmannagrúann; hjer var alls engin hjálparvon eptir; hann býður þá sveininum, að vega sig, til þess að hann kæmist ekki í hendur hinna miskunarlausu óvina, en af því sveinninn þorði ekki að leggja hendur á konung sinn, þá skaut hann spjótskapti sínu í jörð niður og fjell á það ofan. Ljet þar Sál konungur líf sitt, og skjaldsveinninn varð sjálfum sjer að bana með sama hætti og konungurinn. Filistar fundu lík Sáls konungs, og sendu þegar boð um allt landið, til þess að sigurinn yrði hvervetna kunnur. En lík Sáls tóku þeir, og hengdu það í háðungarskyni upp á borgarvegginn í *Betsan*, og fóru illa með það. En hinir þakklátu Jabesbúar, sem Sál hafði áður hjálpað, fóru um nótt til *Betsans* og námu burtu líkið, og var það hættuför mikil. Fyrir þetta ljet Davíð, þegar hann var kominn til ríkis, votta þeim þakklæti sitt og hylli. Hann ljet og þegar drepa þræl einn af Amalekingum, sem færði honum höfuðdjásn Sáls konungs, og hældist um, að hafa orðið honum að bana. Sömuleiðis orti hann og sorgarljóð eptir Sál og Jónatan vin sinn, og

hefur þannig haldið nafni þeirra á lopti um allan aldur (2. Sam. 1. k.). Eptir dauða Sáls konungs var Davíð tekinn til konungs yfir Júdaætt, og hafði hann aðsetur sitt í Hebron. En hinn hrausti herforingi Sáls, Abner, gjörði *Ísbóset*, son hans, að konungi yfir öllum hinum ættunum, og leitaðist jafnvel við, að reka Davíð frá völdum yfir hinni einu ætt. En honum tókst það ekki; því *Jóab,* herforingi Davíðs, vann á honum mikinn sigur. Í þeirri orustu drap Abner bróður Jóabs, *Asael,* ungan mann og kappa mikinn, sem veitti honum eptirför, og hirti ekki um aðvörun hans, að hætta sjer ekki undir högg sín. Sjö ár ríktu þeir báðir Davíð og Ísbóset. En af því að Ísbóset dirfðist að ávíta Abner fyrir það, að hann hafði gengið að eiga eina af hjákonum Sáls konungs, þá varð hann svo reiður, að hann stökk á burtu til Davíðs, og bauðst til, að gefa honum kórónu Ísbósets. Af þessu varð þó ekki; því þegar hann fór heimleiðis, myrti Jóab hann í hefndarskyni fyrir bróður sinn, og af því hann sá ofsjónum yfir áliti hans hjá Davíð. Davíð ljet gjöra útför hans mjög veglega, og skipaði allsherjarsorg eptir kappann. Skömmu síðar urðu tveir af þegnum Ísbósets til þess, að myrða hann, og ljet Davíð þegar taka þá báða af lífi, jafnvel þó hann kæmist þá til valda yfir öllum Ísraelingum. Þegar Davíð var nú orðinn ein-

valdur í landinu, þá lagði hann þegar undir sig *Jórsali* (Jerúsalem), sem *Jebúsítar*, kanverskur þjóðflokkur, bjuggu í. Þar eptir átti hann tvær orustur miklar við Filista, og sigraðist á þeim í báðum. Eptir það ljet hann bera sáttmálsörkina með mikilli viðhöfn inn í Jórsali, sem nú urðu miðdepill guðsþjónustunnar og aðseturstaður konungs. Því næst lagði hann undir sig Móabaland, Edóm og Sýrland, og átti Jóab mestan og beztan þátt í því. Ekki ljet hann eyðileggja hinar sigruðu þjóðir, en hann gjörði sjer þær skattskyldar, og setti setulið í borgir þeirra. Davíð gjörði vinasamning við konung *Ammóna* og *Feníka*. En þegar *Nahas* Ammónakonungur dó, og Davíð sendi menn til þess, að óska syni hans til hamingju með konungdóminn, þá smánaði hann sendimennina, og fór illa með þá. Þessa hefndi Davíð með því, að leggja allt Ammónaveldi undir sig. En á meðan Jóab sat um borgina *Rabba*, fjekk Davíð óleyfilega ást á *Batsebu*, konu *Úríasar*, er var í stríðinu við Ammóna; hann gjörði því Jóab þau orð, að setja Úrías á hættulegan stað í bardaganum, svo hann fjelli. Jóab gjörði það, og Úrías fjell ásamt miklum fjölda af köppum þeim, sem með honum voru. „Svona gengur það í stríðinu“, sagði konungurinn, þegar hann heyrði fall Úríasar, og gekk þegar að eiga Batsebu ekkju hans. Davíð hjelt,

að þetta ódæði væri öllum mönnum hulið, og girndarbruni hans kæfði niður röddu samvizkunnar; þar að auki mátti slíkt brot virðast saklausara í augum *austurlenzks konungs,* en ella. Þá gengur spámaðurinn *Natan* fram fyrir konunginn, og segir: „Tveir menn voru á einum bæ; annar þeirra var auðugur mjög, og átti grúa af kvikfje, bæði smáu og stóru; hinn var þar á móti fátækur, og átti einungis eitt lamb, sem hann hafði keypt og upp alið, og það hafði vaxið upp með börnum hans. Það át úr hendi hans, og drakk úr bikar hans, lá á skauti hans, og var honum eins og dóttir. Nú bar svo við, að ferðamaður nokkur kom til auðmannsins; þá tímdi hann ekki að taka neitt af kvikfje sínu, stóru nje smáu, heldur tók hann lamb fátæklingsins, slátraði því, matreiddi það, og bar það á borð fyrir ferðamanninn". Davíð varð æfareiður, þegar hann heyrði rangsleitni þessa, og mælti: „Sannarlega er sá maður dauða verður, sem þetta hefur gjört". Þá tók Natan málinu fyrir og mælti: „Þú ert maðurinn, konungur! Svo segir Jehóva, guð Ísraels: Jeg smurði þig fyrir konung yfir þjóð minni, frelsaði þig frá hendi Sáls konungs, og gaf þjer hús herra þíns; hvers vegna hefur þú einkis virt boðorð Jehóva, og gjört það, sem illt er í augum hans? Þú hefur myrt Úrías með sverði Ammóna, og gengið að eiga konu hans". Auðmjúkur og iðrandi

hlýddi konungur á orð hins djarfmælta spámanns, sem að lyktum boðaði honum hegningu Jehóva, og gekk svo á burtu. Mikil var synd Davíðs, og þung var refsing hans. Hinn fyrsti sonur hans við Batsebu dó af sótt, og síðan gjörði annar af sonum hans uppreist í móti honum. Það lítur svo út, að hann hafi, eins og Elí og Samúel, verið of eptirlátur við börn sín; því þó að sonur hans *Absalon* myrti einn af bræðrum sínum, tók hann hann skömmu seinna aptur í sátt. Þetta launaði Absalon föður sínum með því, að gjöra samtök við trúnaðarmann hans, refinn *Akítófel*, er ætlaði að hrinda Davíð frá völdum. Absalon var fríður sýnum og blíðmáll, og fjekk því skjótt marga menn í flokk með sjer, og það lá við sjálft, að hann kæmi föður sínum á óvart í höfuðborginni. En Davíð fjekk njósn um athæfi sonar síns, og flúði fótgangandi með fáa menn austur yfir Jórdan, en hinn aldraði *Húsaí* varð eptir heima, til þess að koma sjer í mjúkinn við Absalon og ónýta ráð Akítófels. Það heppnaðist. Absalon ljet Húsaí telja sig á, að dvelja um hríð í Jórsölum, og safna Ísraelingum saman á móti Davíð, í staðinn fyrir að Akítófel rjeð honum til, að fara þegar eptir föður sínum, og ráðast á hann, áður en hann gæti dregið lið að sjer. Þegar Akítófel sá, að hann gat engu við ráðið, og að afdrifin mundu verða ill, þá hengdi hann sig sjálfur.

Að lyktum fór Absalon á stað, og hjelt flokk sínum austur yfir Jórdan. En þá var Jóab búinn að draga saman lið mikið, og var hann fljótur að sigrast á hinum óreynda herforingja, og reka hann á flótta. Á flóttanum vafðist hár Absalons um grein á eik nokkurri, svo hann hjekk þar fastur á, og drap þá Jóab hann. Olli það konungi mikillar sorgar; því hann vildi láta þyrma lífi sonar síns. Davíð sneri síðan heim aptur, og launaði *Barsillai* fyrir það, að hann hafði hjálpað honum um vistir á flóttanum. Annar maður, er hjet *Símei*, hafði smánað hann, þá er hann flúði, og er Davíð kom aptur, gaf hann honum upp hegninguna fyrir það. Viðlíka fórst honum og við *Mefíbóset*, son Jónatans, er hann hafði tekið til hirðarinnar, og farið með eins og konung. Þjónn Mefíbósets bar sumsje Davíð þá fregn, að hann hefði ætlað að ráða hann af dögum, og gaf hann honum fyrir það helming af öllum eigum húsbónda síns, en refsaði Mefíbóset ekki með öðru, enda virðist hann að hafa verið saklaus. Eptir þetta gjörðist *Seba* nokkur uppreistarforingi móti Davíð, en Jóab sefaði það undir eins.

Ríki Davíðs náði nú frá landamærum Egyptalands austur að Frat, og velmegun þjóðarinnar blómgaðist í skjóli friðarins. Konungurinn vildi því byggja Jehóva musteri í Jórsölum í staðinn fyrir tjaldbúðina, en Natan bauð hin-

um blóðuga hermanni, að geyma það eptirkomanda sínum, og Davíð ljet sjer nægja með, að viða til hússins. Samt stofnaði hann þó skipulega guðsþjónustu með söng og hljóðfæraslætti. En hann átti enn eptir að þola eina mæðu, áður hann skildi við. Það var annaðhvort af löngun eptir að vinna fleiri lönd undir sig, eða af drambi, að hann ljet telja þegna sína, en eptir sögn spámanns þess, sem hjet *Gað*, ljet guð til refsingar fyrir það koma upp grimmilega drepsótt, sem á þrem dögum fór um allt landið, „því Jehóva sendi út morðengil sinn með brugðnu sverði“. Hjer að auki ónáðaðist og Davíð í elli sinni af nýjum hættum, sem honum tókst þó að umflýja og sefa. Davíð hafði sumsje ætlað, að sonur sinn *Salómon* skyldi koma til ríkis eptir sig. En eldri bróðirinn *Adonja* reyndi þó til, að ná stjórninni, og naut hann aðstoðar þeirra *Jóabs*, æðsta prestsins *Abjatars*, og yngri bræðra sinna. Hann hafði lífvörð fyrir sig, og ætlaði loks að láta nefna sig til konungs, áður en faðir sinn dæi. Natan komst að ráðabruggi þessu, og ásamt Batsebu fjekk hann talið konunginn á, að láta prestinn *Sadok* undir eins smyrja Salómon til konungs. Fagnaðaróp þjóðarinnar, sem heilsaði hinum unga konungi sínum, kom nú flatt upp á samsærismennina, þar sem þeir voru allir saman komnir, til að neyta kveldverðar, og þá um leið að framkvæma áform sitt, og

þegar þeir heyrðu, hvar komið var, skildu þeir, og fór hver heim til sín. Einn síns liðs flúði Adonja síðan til altaris Jehóva, og Salómon hjet honum fyrirgefningu, ef hann hjeti sjer trúnaði framvegis. Davíð skoraði síðan á hinn nýja konung, að halda vel lög Mósis, og skömmu þar eptir andaðist hann. Hann hafði verið dugandiskonungur og unnið til elsku þegna sinna, sem hann og hafði til dauðadags. Hann var skapari menntunar Gyðinga, og á sínum tíma fagurt dæmi riddaraskapar, guðhræðslu og veglyndis.

Þegar Salómon kom til ríkis, hafði hann fengið það ráð hjá föður sínum, að láta drepa Jóab, er var sekur orðinn í tveimur launvígum, og Símei, sem áður er á minnzt, vegna þess að þeir væru báðir öðrum fremur hættulegir óvinir fyrir hinn *unga konung*. En Salómon var of veglyndur til þess, að hlýða þessu ráði, þangað til að Adonja vakti grunsemi hans með því, að biðja um eina af hjákonum Davíðs fyrir konu handa sjer; þá ljet hann drepa bæði hann og Jóab. Jóab flúði raunar að altari guðs, en eptir lögum Mósis var þar enginn griðastaður fyrir þann, sem unnið hafði launvíg. Símei varð að lofa því, að vera allt af kyr í Jórsölum, og þegar hann brá út af því 3 árum seinna, og fór til Filistalands, þá var hann vægðarlaust drepinn. Æðsta prestinn Abjatar rak Salómon burtu til ættborgar sinnar, og naut hann þess hjá hon-

um, að hann hafði ætíð verið svo trúr föður hans, bæði í mótlæti og meðlæti. Eptir það varð *Sadok* æðsti prestur í staðinn fyrir afkomendur Elís. Heilög ritning segir, að guð hafi í draumi leyft hinum unga höfðingja, að biðja sig [redacted] gjöf nokkra, og að Salómon hafi þá beðið hann [redacted] vizku. Skömmu eptir sýndi hann og í dómarasætinu, að hann hafði fengið hana. Það komu sumsje tvær konur fyrir hann; önnur þeirra hafði [redacted] nótt legið barn sitt [redacted] hel, og síðan stolið barni hinnar konunnar, og vildu þær nú báðar hafa það. Salómon bauð þá einum þjóna sinna, að bregða sverði, og hluta barnið sundur á milli beggja mæðranna. Og er honum sýndist vera full alvara, þá leyndi móðurhjartað sjer ekki lengur; því önnur konan kvaðst heldur vilja missa alla kröfu til barnsins, en sjá á dauða þess. Salómon dæmdi henni þá barnið, og með það fóru konurnar burtu.

Salómon endurnýjaði vinasamning föður síns við konung Feníka, *Híram*, og með aðstoð hans lauk hann byggingu hins skrautlega musteris Jehóva [redacted] fjallinu *Móría* í Jórsölum, og var það eitt af stórvirkjum fornaldarinnar. Þegar Salómon vígði musterið, gjörði hann bæn sína til Jehóva, og mælti: „Drottinn, guð Ísraels, enginn guð er [redacted] þú, hvorki á himnum uppi, nje á jörðu niðri. Sjá himnar himnanna rúma þig ekki, og því síður þetta hús, sem jeg hef

byggt þjer; en láttu samt augu þín hvíla yfir þessum stað, og heyr þú í þínum himni þær bænir, sem þar verða fram bornar, svo að þú *fyrirgefir* og *hjálpir*, og gjörir við sjerhvern, eins og hann hefur unnið til, þar eð þú þekkir hjarta hvers eins, og til þess, að *allar* þjóðir fái að þekkja þig og tigna þig, eins og Ísraelingar, sem þú hefur valið þjer til *eignar*“. Salómon konungur sat lengi að völdum, og naut einatt friðar. Hann dró saman auðæfi mikil, helzt með verzlan sinni með Feníkum á *Ófír*, og kom honum það í góðar þarfir, því hann var eyðslusamur og hinn mesti skrautmaður í öllu. Hann byggði mörg hús og hallir og alþjóðlegar byggingar, og hirð hans var einhver hin dýrðlegasta á austurlöndum. Skraut þetta, og á þeim tímum fram úr skarandi þekkìng hans á náttúrusögu, heimspeki og skáldskap, varð svo þjóðræmt, að jafnvel drottning ein frá Árabalandi hinu farsæla gjörði sjer ferð til hans, til þess að heyra á speki hans, og nafn hans er enn nefnt með eins konar lotningu á austurlöndum. Það er og sagt, að hann hafi ritað 3000 spakmæli, ort 1005 kvæði, og ritað mjög svo nákvæma náttúrusögu. En hann fjell í sællífi og kveifarskap, og hafði fjarskalega margar hjákonur. Var hann þeim svo eptirlátur, að þó hann hafi líklega ekki sjálfur tekið þátt í heiðindómi þeirra, þá leyfði hann þeim þó alls

konar skurðgoðadýrkan, og reiddust spámenn guðs því mjög, og það svo, að einn þeirra, sem hjet *Akía,* skoraði á verkstjóra konungs, *Jeróbóam,* að ná undir sig yfirráðunum yfir 10 ættum Ísraelinga, að minnsta kosti undir eins og Salómon fjelli frá. En þetta áform Jeróbóams komst upp, svo hann varð að flýja til Egyptalands. Lýðurinn var þó harðla óánægður yfir álögum þeim og *skyldustarfa,* sem hirðarhald og skrautgirni Salómonar ollu honum, og í *Damaskus* stofnaðist ríkiskorn eitt, sjálfstætt og óháð Salómoni, en í Edóm var gjörð uppreist, sem konungur virðist ekki að hafa reynt með neinu kappi að bæla niður.

Þegar Salómon andaðist, hafði hann verið konungur í 40 ár; þá komu Ísraelingar saman í Sikkem, til þess að velja sjer nýjan konung. Jeróbóam var þá kominn heim aptur úr útlegðinni, og gjörðist hann nú þegar oddviti þjóðarinnar, sem sendi þau orð *Rehabeam* Salómonarsyni, að hún vildi taka hann til konungs yfir sig, ef hann hjeti sjer því, að ljetta nokkuð á sjer byrðum þeim, er faðir hans hefði lagt á sig. Rehabeam leitaði nú ráða til hinna ráðnu og rosknu ráðgjafa föður síns, og sögðu þeir, að ef hann hlýddi þjóðinni þennan eina dag, þá mundi hún hlýða honum alla æfi. En Rehabeam var svo dramblátur, að hann gat ekki fallizt á ráð þetta, heldur fór hann eptir tillögum gæðinga sinna og

jafnaldra, sem vantaði alla reynslu og djúpsæi, og eptir þriggja daga frest gaf hann sendimönnum þjóðarinnar þetta svar: „Þungt var ok föður míns, en þyngra verður mitt; faðir minn typtaði yður með svipum, en jeg ætla að typta yður með sporðdrekum“. Þegar lýðurinn heyrði þetta svar, varð hann hinum heimska konungi æfur, og mælti: „Vjer eigum enga hlutdeild í syni Ísaís; vjer skulum fara heim til vor“, og þeir fóru að fara burtu frá Sikkem. Að vísu var nú *Adóram*, fjárhirðir konungs, sendur, til þess að sefa og mýkja lýðinn, en hann var grýttur til dauðs, og Rehabeam varð hið bráðasta að flýja til Jórsala, þar sem Júda- og Benjamíns-ættir tvær einar tóku hann til konungs yfir sig. Hinar ættirnar tóku sjer Jeróbóam fyrir konung.

---

## 5. tímabil.

### *Ísraels- og Júda-ríki að greind.*

(975—588 ára f. Kr.).

---

### *I. Ísraelsríki.*

(975—722).

Skamma stund hafði Gyðingaríki verið í blóma, eins og voldugt og álitsmikið ríki. Skipting

þess sundraði ekki einungis kröptum þjóðarinnar, og æsti þá hverja upp í móti öðrum, heldur hafði hún og enn skaðmeiri áhrif á hinn innra styrk hennar, eins og hún var og afleiðing af vaxandi kulda við trúarbrögð Jehóva, og vottur þess, hversu fjarri landnám Davíðs og auðæfi Salómonar voru því, að geta tryggt velmegun ríkisins. Vjer skulum nú stuttlega skoða stjórn hinna eptirkomandi konunga, sem endar með gjörsamlegri eyðileggingu beggja ríkjanna.

Jeróbóam var af Efraímsætt, og tók sjer því aðsetur í *Sikkem* í landi Efraímsættar, sem þar að auki var voldugust allra ætta Ísraelinga. Þó flutti hann seinna aðsetur sitt þaðan til borgar þeirrar í löndum hins vestra helmings Manasseættar, sem *Tirsa* hjet, og sem var nafntoguð sökum fegurðar sinnar. Til þess að sporna við því, að ríkin steyptust saman að nýju, tók hann með fávíslegri kænsku upp *líkneskjadýrkan* (skurðgoðadýrkan), og ljet reisa upp kálfa tvo í *Betel* og *Dan*. Þessir kálfar áttu að tákna guð, og færðu prestarnir þeim fórnir; en prestarnir voru teknir af handahófi úr ýmsum ættum, vegna þess að Levísætt og aðrir dýrkendur Jehóva flúðu burtu til Júdaríkis. Konungurinn gjörði sig sjálfan að æðsta presti, og færði goðum sínum fórnir, og hirti ekkert um hótanir spámannanna nje aðvaranir. Skurðgoðin og dýrkan þeirra var allt lagað eða sniðið

eptir skúrðgoðum og skurðgoðadýrkan Egypta, sem Jeróbóam tók sjer til fyrirmyndar. Á meðan Jeróbóam sat að völdum í Ísraelsríki, var einatt fjandskapur milli beggja ríkjanna. Eptir hann kom sonur hans *Nadab* til ríkis, og sat hann að völdum í tvö ár. Þá var hann og öll ætt hans myrt af manni þeim af Ísaskarsætt, sem hjet *Baeska* (953 árum f. Kr.).

*Baeska* hjelt áfram skurðgoðadýrkuninni, og refsuðu spámennirnir honum strengilega fyrir það. Konungur Júdaríkis fjekk þá Sýrlendinga til þess, að herja á Ísraelsríki, og urðu þau stríðslokin, að Baeska missti nokkuð af löndum sínum. *Ela* sonur hans varð konungur eptir hann, og ríkti í tvö ár; þá var hann drepinn í ölæði í veizlu nokkurri (929). Um þær mundir urðu deilur miklar um konungstignina, og var þá ætt Baeska öll strádrepin niður, en hershöfðinginn *Omrí* tekinn til konungs.

*Omrí*, sem þannig varð stofnari hinnar þriðju konungaættar í ríki þessu, byggði borgina *Samaríu*, og gjörði hana að aðsetursstað stjórnarinnar. Hann hjelt skurðgoðadýrkaninni áfram. Þó er sonur hans, hinn dáðlausi *Akab* konungur (918), enn meira lastaður en hann. Akab tók sjer fyrir drottningu dóttur *Etbaals* Feníkakonungs, hina illa ræmdu, grimmu og guðlausu *Jesabel*. Eptir fortölum hennar tók hann upp hina viðbjóðslegu skurðgoðaþjónustu

Feníka, skipaði mikinn fjölda af prestum, og ofsótti grimmilega alla dýrkendur Jehóva og spámennina. *Elías*, sem var bæði vandlætingasamur og tryggur áhangandi hinnar fornu trúar, boðar þess vegna óttalegan þurk, sem hegningu frá Jehóva. Spádómurinn rættist, og á meðan að landsmenn píndust af þurkinum, var það, að hirðarforinginn *Obadías*, sem áður hafði opt og einatt frelsað spámenn guðs úr höndum Jesabelar, eptir bón Elíasar, kom Akab konungi á fund hans. Elías taldi hinum vesala konungi fljótlega hughvarf, svo að hann ljet stofna til fórnar, þar sem prestar *Baals* og *Jehóva* skyldu með jarðteiknum sýna, hvor þeirra væri hinn sanni guð. Elding fjell af himni og kveykti í fórn Elíasar, og manngrúinn, sem á horfði, drap þegar alla presta Baals, án þess að konungur reyndi til, að hlífa þeim nokkuð. Þar eptir kom regn og frjófgaði jörðina, en Akab sneri heim aptur, til þess að hverfa að nýju að drottnun Jesabelar. Elías varð að flýja, til þess að verða ekki fyrir hinni grimmilegu hefnd, sem hún hafði ætlað honum. Maður einn, er *Nabot* hjet, vildi ekki *selja* konungi föðurarf sinn, sem Akab ljek mikill hugur á, þar eð hann lá svo vel við í aldingarð handa honum. Konungur varð svo raunamæddur af þessu, að hann neytti hvorki svefns nje matar. Jesabel sendi þá ljúgvotta móti Nabot, er báru það, að hann hefði

hætt guð og konunginn, og fyrir það skipaði hún í nafni Akabs viðkomandi yfirvöldum, að dæma manninn til dauða, láta grýta hann í hel, og dæma konungi eign hans. Þetta var gjört. En þegar Akab, frá sjer numinn af gleði, fór að skoða hina nýju og fögru eign sína, þá kom Elías þar í móti honum, og boðaði honum strengilega refsingu Jehóva fyrir brot það, er hann hefði drýgt. Hættulegasti fjandmaðurinn, sem ríkið átti þá, var *Benhadað*, Sýrlandskonungur, sem með 32 jörlum og óvígum her settist um borgina Samaríu. Akab vildi kaupa sjer frið, en hinn drambláti óvinur setti honum svo smánarlega friðarkosti, að höfðingjar borgarinnar vildu ekki samþykkja þá. Hinn drambsami Benhadað skipar þá, að gjöra áhlaup á borgina, en sat sjálfur með öllum jörlum sínum við drykkju. En eptir áeggjan spámanns nokkurs er þá gjört áhlaup út úr borginni, og trufluðust Sýrlendingar við það; biðu þeir þar mikinn ósigur og flúðu síðan á burtu. Árið eptir kemur konungur Sýrlendinga aptur, til þess að hefna sín, og leggur til bardaga við Akab í dal einum stórum, „af ótta fyrir fjallaguðum Ísraelinga“. En Akab fjekk hjer og sigur. Þegar Benhadað sá, að hann gat ekki forðað sjer, þá gjörir hann konungi Ísraelsríkis orð, og biður hann að gefa sjer líf. Akab gjörði það, tók hann á vagn sinn, og fór með hann eins og

vin sinn. Þar að auki gjörði hann sig ánægðan með friðarkosti þá, sem Benhadað stakk upp á, en það var, að hann gæfi sjer aptur borgir þær, sem hann hafði unnið frá Ísraelsríki. Þessu lofaði Benhadað, og vann eið að, en hann efndi það þó ekki. Þess vegna lastaði og spámaðurinn með fullri ástæðu dáðleysi Akabs. Hinn vitri *Jósafat*, konungur Júdaríkis, hjelt við friðnum á milli beggja ríkjanna, og mægðist þar að auki við Akab. Einu sinni þegar konungarnir voru saman, rjeðu þeir með sjer, að fara herför á móti Sýrlendingum, og 400 spámanna, sem til þess voru fengnir fyrir kaup, spáðu öllu hinu bezta um förina. Einn þeirra hafði jafnvel búið sjer til horn úr járni, til þess að sýna, hversu volduglega Akab mundi mylja Sýrlendingana sundur. Jósafat virðist ekki að hafa trúað þessum mönnum, því hann spurði, hvort enginn annar spámaður Jehóva væri til, heldur en þeir. Þá er *Mikka* sóttur, og segir hann konungi fyrir ill afdrif herfararinnar, sem Jehóva með röngum spádómum vildi í hegningarskyni koma honum til að byrja. Mikka var nú kastað í dýflissu. Akab var í dularklæðum í orustunni, og fjell þó (897). Eptir hann kom hinn elzti af sonum hans *Akasía* til ríkis. En hann dó skömmu seinna, og þá varð bróðir hans *Jóram* konungur í Ísraelsríki. Á hans dögum var *Akasía*, dóttursonur Akabs, konungur í Júda-

ríki. Þeir líktust báðir Akab í vonzku, og hegningin, sem Elías hafði boðað þessari guðlausu ætt, kom nú fyrst algjörlega fram. Einu sinni þegar Akasía var í heimboði hjá Jóram, þá drepur herforinginn *Jehú* þá báða (883). En spámaðurinn *Elísa* var áður búinn að láta smyrja Jehú til konungs. Jehú ljet og drepa Jesabel, og gjöreyddi allri ætt Akabs.

Á stjórnarárum Jehús var skurðgoðatignan Feníka lögð niður í landinu, og allir prestar Baals drepnir. En líkneskjudýrkan Jeróbóams hjelzt við, bæði á hans dögum og konunga þeirra, er eptir hann komu af hans ætt. *Jóakas, Jóas* og *Jeróbóam hinn annar* áttu allir í stríðum við Sýrlendinga, og tókst þeim stundum heppilega. Einkum jókst þó ríkið til muna á dögum Jeróbóams, enda var og stjórn hans hið síðasta dugmerki hjá stjórnendum ríkis þessa. Sonur hans var myrtur (784), og eptir það eyðilögðu ríki þetta sífelldar styrjaldir um konungstignina, svívirðilegir lestir og stjórnleysi.

Þegar *Hósea* var konungur, kom hegningin yfir hina guðlausu þjóð. Hósea hafði myrt formann sinn, en er þó sagður betri maður, en margir af fyrirrennurum hans höfðu verið. Fyrst var hann nokkra stund skattskyldur *Salmanassari,* Assýrakonungi; en nú ætlaði hann með aðstoð Egypta að losa sig við Salmanassar, og gjörast sjálfráður. Salmanassar fór þá með her

á hendur honum, og eptir 3 ára drengilega vörn tók hann loks Samaríu, lagði Hósea í fjötur, og flutti hávaðann af landsmönnum burtu til landanna í kring um Frat, en flutti þaðan aptur menn í þeirra land. Nýlendubúar Ássýra í Ísraelsríki voru mjög ásóttir af villudýrum, og hjeldu þeir, að það væri hegning fyrir það, að þeir tignuðu ekki guð landsins. Salmanassar sendi þeim því eptir beiðni þeirra mann einn af Levísætt, sem þá stofnaði hjá þeim trúna á Jehóva, er þó var fyrst framan af samhliða skurðgoðatrú Assýra. Seinna virðist Jehóvatrúin þó með tilstuðlan *Esekíasar* og *Jósíasar*, Júdaríkiskonunga, að hafa orðið drottnandi á meðal Samverja, en svo kallaðist þjóð þessi, er var sambland Assýra og Ísraelinga.

## II. *Júdaríki.*

(975—588).

*Rehabeam* reyndi til, að ná því aptur með hernaði, sem hann hafði misst, en þegar herinn var allur kominn saman á einn stað, þá kom spámaðurinn *Skemaja* fram eptir boði Jehóva, og bannaði þeim, að beita vopnum við bræður sína. Skildist þá herinn allur sundur, og hver fór heim til sín. Vegna þess að Júdaríki óx mjög við komu þeirra, er flúðu burtu úr Ísraelsríki, einkum Levísættar, eggjaði Jeróbóam *Sisak,* konung á Egyptalandi, að herja á

Júdaríki, og í því stríði var jafnvel musterið rænt og ruplað af fjegjörnum fjandmönnum. Svona skammvinnt varð skraut Salómonar. Það lítur og svo út, að Rehabeam hafi verið aðgjörðalítill stjórnari, og á hans dögum fjekk skurðgoðadýrkan yfirhönd í ríki hans. Sonur hans *Abíam* hafði setið skamma stund að völdum, áður hann dó, og varð sonur hans *Assa* þá konungur. Assa rýmdi út skurðgoðadýrkuninni, en keypti Sýra til þess, að gjöra áhlaup á Ísraelsríki.

Sonur hans, *Jósafat*, (914), var einn af hinum beztu konungum í Júdaríki. Eptir ráðum spámannsins Jehú setti hann dómara til og frá um allt landið, skipaði eins konar hæsta dóm í Jórsölum, og fjekk til kennara, sem áttu að fræða lýðinn í lögmálinu. Með verzlan reyndi hann til þess, að rjetta við efnahag landsins, og með því, að auka herinn og byggja kastala, tryggði hann það fyrir árásum annara þjóða. Hann gjörði og bæði Filista og ýmsa þjóðflokka í Arabalöndum sjer skattskylda. Hann hjelt einatt friði og vináttu við Ísraelsríki, og tók þar að auki *Ataliu* Akabsdóttur fyrir konu handa syni sínum. Hann tók og þátt í stríðinu við Sýra, og lá við, að hann kæmist ekki lífs úr því. Á hinum síðari árum hans gjörðu Móabar og Ammóningar samtök við nokkra Edóminga, er frá honum höfðu fallið, og ætluðu að fara með

her á hendur honum. En innbyrðis óeirðir sundruðu þeim, og eyddu her þeirra, áður en þeir komust alla leið. *Jóram* Jósafatsson (884) gekk ekki í fótspor föður síns. Hin vonda, guðlausa Atalía, kona hans hafði öll ráð yfir honum, og hann byrjaði stjórn sína með því, að láta myrða alla 6 bræður sína og taka upp skurðgoðadýrkan. Eptir Jóram varð sonur hans *Akasía* konungur, en eptir eins árs stjórn drap *Jehú* hann, þegar hann var á kynnisför hjá móðurbróður sínum, Jóram, konungi í Ísraelsríki. *Atalía* hripsaði þá völdin í hendur sjer, og til þess að tryggja sig, ljet hún myrða alla karlmenn af konungsættinni, nema *Jóas* Akasíusson, sem föðursystir hans, *Jósabat*, kona *Jójadasar* æðsta prests, faldi í musterinu, og ól þar upp á laun í 6 ár. Þegar Jóas var orðinn 7 ára gamall, tóku þeir sig saman, Jójada, höfðingjar lífvarðarins, Levísætt, og hinir elztu menn af lýðnum, og tóku hann til konungs yfir Júdaríki. Atalía drottning stökk þá sjálf til musterisins, til þess að sefa upphlaupið, en Jójada ljet handtaka hana og drepa. Jóas var ágætur konungur á meðan Jójada lifði og stjórnaði honum. Trúarbrögð Jehóva voru tekin upp aptur í landinu í staðinn fyrir trúna á Baal, musterið var endurbætt, og friðnum haldið á. En undir eins og æðsti presturinn dó, ljet Jóas ekki að eins telja sig á, að taka upp aptur skurðgoðadýrkanina,

heldur skipaði hann og, að grýta í hel *Sakkarías,* son velgjörðamanns síns, í forgarði musterisins, fyrir þá sök að hann fann að háðung þeirri, sem trúarbrögðin urðu fyrir. Árið eptir varð Jóas að kaupa sjer frið af hinum sýrlenzka konungi fyrir öll auðæfi musterisins og fje ríkisins. Fyrir það drápu þegnar hans hann skömmu síðar (833). Sonur hans, *Amazía,* varð þó konungur eptir föður sinn, og er það sagt um hann, að hann ljet drepa morðingja föður síns, *en ekki börn þeirra.* Í stríði við Edómsbúa bað hann Ísraelsríki um liðsher, og fjekk hann, en ljet hann fara heim aptur, þar eð þeir væru líkneskjudýrkendur. Þessarar smánar hefndu þeir síðan með því, að fara ránsför til Júdaríkis. Í stríði því er nú kom upp, var Amazía mjög óheppinn; sjálfur var hann tekinn höndum, Jórsalir teknir, og borgarveggirnir rifnir niður. Þó hefur Amazía efalaust haft stjórnina á hendi, og verið eins og jarl Ísraelsríkis, þangað til hans eigin menn rjeðu hann loks af dögum. Sonur hans, *Úsía,* losaði sig aptur undan konungum Ísraelsríkis, rjetti við, og efldi akuryrkju og kvikfjárrækt, og tryggði ríkið með kastölum, æfðum her og ýmsum herbúnaði og vopnum. Ammóningar urðu honum skattskyldir, og hann lagði undir sig Filista, Araba og fleiri þjóðir. En þegar hann á efstu árum sínum ætlaði af drambi sjálfur að fórna á reykelsisaltar-

inu í *helgidóminum*, líklega til þess að sameina æðsta prests-embættið við konungdóminn, þá varð hann allt í einu holdsveikur, og varð þaðan í frá að lifa einn saman, aðgreindur frá öllum öðrum mönnum, þangað til hann dó (759). En á meðan hafði *Jótam*, sonur hans, alla stjórn í ríkinu. *Jótam* var guðhræddur stjórnari, og ríkti í 16 ár. Sonur hans *Akas* hafði þar á móti engin önnur ráð, þegar nágrannaþjóðirnar fóru að kúga hann, en að tilbiðja goð fjandmanna sinna, og svo kvað rammt að því, að hann hafði musteri Jehóva lokað, en fórnaði goðinu *Mólok* syni sínum.

Þegar hann dó (728), kom hinn guðhræddi *Esekías*, sonur hans, til ríkis, og tók hann upp aptur trúarbrögð Jehóva, og efldi þau, sem hann mest mátti, ekki einungis í Júdaríki, heldur og á meðal hinna nýju innbúa í Ísraelsríki. Hann sigraðist á Filistum, en leitaði hjálpar hjá Egyptum móti Assýrum. Þessi liðsbón olli því, að *Sankeríb* sendi her, til að taka Jórsali, án þess að hirða um gjafir þær, sem Esekías vildi gefa honum til þess, að gjöra það ekki. *Esajas* spámaður hughressti nú hinn örvæntingarfulla konung með því, að lofa honum aðstoð Jehóva, sem og varð. Morðengill Jehóva (drepsótt) fór um herbúðir Assýra, og er margar þúsundir þeirra dóu á einni nóttu, urðu hinir drambsömu fjendur að hverfa heim aptur með

erindisleysu. Esekías lagðist þar eptir í sótt, og var að kominn dauða, en Esajas læknaði hann og hjet honum eptir boði Jehóva, að hann skyldi enn lifa í 15 ár. Hinn góði konungur notaði þau og dyggilega, til þess að gagna hinu veika ríki, og vjer lesum að eins eina yfirsjón í fari hans, sem hin helga saga getur um. Konungur Babýlonar sendi sumsje menn til hans, til þess að votta honum gleði sína yfir því, að hann væri búinn að fá aptur heilsuna eptir hina þungu sótt, og þá var hann svo *hjegómlegur*, að sýna sendimönnunum auðæfi sín öll. Esajas sagði honum þá, að í refsingarskyni fyrir þetta mundi Jehóva einhvern tíma láta auð hans allan verða fluttan eins og herfang til Babýlonar, og niðja hans þjóna hinum voldugu konungum hennar. 12 ára gamall kom *Manasse* til ríkis eptir föður sinn Esekías (699), og var hann þá í engu tilliti fær um það. Assýrakonungur hafði lagt Babýlon undir sig, og vofði nú yfir Júdaríki. Manasse fann til vanmættis síns, og leitaði nú eptir sið forfeðra sinna hjálpar hjá ýmsum skurðgoðum, sem hann ljet hvervetna reisa ölturu, fórnaði börnum sínum, og setti jafnvel líkneskjur upp í musteri drottins. Þar að auki hjelt hann og táknaþýðendur, þrátt fyrir ógnandi aðvaranir spámannanna. Samt sem áður var þó Manasse tekinn höndum, og fluttur í böndum til Babýlonar, en komst þaðan aptur eptir nokkur ár, og hefur

hann þá líklega átt að vera jarl Babýlonarkonungs. Vera má og, að óeirðir þær, er um það leyti voru á meðal Assýra, og sem seinna kollvörpuðu ríki þeirra, hafi ollað lausn hans. Í skóla mótlætisins var nú Manasse orðinn allur annar maður, og eptir það hann kom heim aptur, ríkti hann einatt vel og guðrækilega. Þegar hann dó (644), kom *Ammon* sonur hans til ríkis eptir hann. Ammon var skurðgoðadýrkari, og drápu þegnar hans hann eptir tveggja ára stjórn.

Júdaríki hnignaði nú óðum, og það jafnvel á dögum hins guðhrædda Esekías; því konungurinn gat ekki endurskapað þegna sína. Það kom og fyrir lítið, að nú kom hinn seinasti góði konungur þeirra, *Jósías,* til ríkis. Hann var 8 ára gamall, þegar hann varð konungur. Jósías var án efa alinn upp hjá æðsta prestinum *Hilkíasi,* og alla sína stjórnartíð reyndi hann til, að rýma burtu skurðgoðatrúnni og stöðva spillingu þjóðarinnar. En hann reyndi það, að guð einn er sá, [redacted] vekur upp frá dauðum, og þess vegna er það sagt að hin seinasta ræða Mósis hafi svo mjög fengið á konunginn, þegar Hilkías hafði fundið aptur hina týndu lögbók, og las hana upp fyrir lýðnum og honum. Eins og Jósías hafði *lifað,* eins *dó* hann og í stríði fyrir frelsi þjóðar sinnar. Á þeim 32 árum, sem hann hafði verið konungur, hafði Babý-

lonarríki gengið mjög upp, svo að þegar *Nekkó*, konungur á Egyptalandi, fór þangað herför, þá tók Jósías ótilkvaddur þátt í henni; því hann vissi það víst af sögu spámannanna, að ríki hans átti *þaðan* von eyðileggingarinnar. En þetta átti ekki að heppnast; Jósías fjell í stríðinu, og með honum missti ríki hans sjálfræði sitt (611). Þjóðin tók raunar hinn yngra soninn, *Jóakas*, fyrir konung yfir sig, en eptir 3 mánaða stjórn veik sigurvegarinn Nekkó honum frá völdunum, lagði þunga skatta á landsmenn, og setti eldra bróðurinn, sem hann kallaði *Jójakim* á hásæti Davíðs, eins og jarl sinn. En þegar *Nebúkaðnesar* hafði sigrazt á Nekkó í bardaganum við *Circesium*, (Sirsesíum), þá varð Jójakim skattskyldur Babýlonarkonungi. Á seinustu árum sínum losaði hann sig þó undan valdi hans, og virðist að hafa verið dáinn áður en hefndin kom. Þar á móti var sonur hans *Jójakin* eptir 3 mánaða stjórn tekinn höndum af Nebúkaðnesar; flutti hann hann, herinn, alla ríkismenn, höfðingja og iðnaðarmenn til Babýlonar, og um leið rændi hann musteri guðs, og tók allt skraut úr höll konungsins, og hafði það með sjer. Hann gjörði son *Jósíasar*, *Matthanja*, að jarli sínum, og kallaði hann *Sedekias* (598). *Jójakin* var 37 ár í varðhaldi, en þá ljet *Evilmeródak* Babýlonarkonungur hann lausan, og fór með hann

eins og konung. En flutning hans til Babýlonar telja menn [redacted] byrjun herleiðingarinnar til Babýlonar.

Hinn duglitli Sedekías tældist til þess, að gjöra uppreist móti konungi Babýlonar, og varaði þó *Jeremías* spámaður hann við því. En það, sem dró hann til þess, var bæði von [redacted] hjálp Egypta, þjóðardramb og digurmæli nokkurra herforingja hans. Á 9. ríkisári Sedekíasar kom þá Nebúkaðnesar með her manns, og settist um Jórsali. Jeremías hvatti þjóðina og konunginn til þess, að [redacted] ekki fjendur sína með stríði, sem ekkert hefði að þýða, og sem þar að auki væri ekki annað en *upphlaup* á móti konungi þeirra. En slíkar fortölur urðu ekki til annars en þess, að höfðingjar lýðsins misþyrmdu spámanninum, þvert á móti vilja Sedekíasar, [redacted] einungis með launung þorði að koma að máli við hann. Borgin var nú (588) tekin með herhlaupi, rænd og rupluð, og, ásamt musterinu, brotin niður með öllu. Sedekías flýði raunar á burtu með herinn, [redacted] hann náðist skjótt, og beið algjörðan ósigur á *Jeríkóarvöllum,* þar sem fundurinn varð. Hann var síðan færður til Nebúkaðnesars, sem fyrst ljet myrða börn hans fyrir augum hans, þar næst stinga úr honum bæði augun og síðan leggja hann [redacted] fjötra, og flytja ásamt þegnum hans til Babýlonar. Einungis fáeinir umkomulitlir [redacted] urðu eptir

undir forustu hins veglynda og hyggna *Gedalja*, sem Babýlonarkonungur gjörði þar að jarli sinum. En öfund og áeggjan Ammónakonungs knúðu [redacted] mann, sem og var konungborinn eins og Gedalja, og hjet *Ismail*, til þess, að drepa hann nokkru seinna. Gedalja var raunar varaður við honum, en hann hirti ekki [redacted] það, og tók vel við honum, en ekki að síður framkvæmdi þó Ismail áform sitt. Nú urðu þeir fáu, [redacted] eptir höfðu orðið af landsmönnum, svo fjarskalega hræddir, að þeir hlupu til Egyptalands, þvert á móti ráðum Jeremíasar, sem þeir neyddu til þess að fara með sjer. Þannig voru nú Júda- og Benjamínsættir gjöreyddar orðnar, og lönd þeirra í eyði; *því þangað voru ekki sendir nýlendubúar, eins og til Ísraelsríkis.* Að minnsta kosti var þar engin veruleg byggð, [redacted] vera má að einstöku maður hafi þó dvalið eptir meðal rústanna af borgum þeim, er höfðu verið svo fagrar og blómlegar.

---

## 6. tímabil.

*Sýrus rjettir Gyðingaríki við; það kemst undir Persa, Makedóna og Sýrlendinga.*

(588—167 ára f. Kr.)

---

Ógnanir Móses og spámannanna voru komnar fram, og það leit svo út, eins og þjóð Jehóva væri til fulls og alls máð úr tölu hinna sjálfráðu þjóða, og þá hefði Móses starfað til ónýtis, og spámennirnir talað til einkis. Í 137. sálmi Davíðs er svo lifandi mynd af ánauð og löngun hinna herleiddu Ísraelinga, að vjer getum ekki efazt um, að hún sje eptir einhvern, sem þá var uppi um sama leytið:

„Vjer sátum við ár Babýlonar, og grjetum, þegar vjer minntumst á Síon“.

„Vjer hengdum hörpur vorar upp í greinir trjánna“.

„Þá heimtu þeir, sem höfðu oss í haldi, söng af oss, og kúgarar vorir heimtu af oss gleði, og sögðu: *Sýngið oss lofsöng um Síon!*“

„Hvernig áttum vjer að syngja lofsöng drottins í ókunnu landi!“

„Ef að jeg gleymi yður, Jórsalir, þá gleymi mjer hin hægri hönd mín“.

„Mín tunga festist við góm minn, ef jeg

man ekki til yðar, ef jeg tek ekki Jórsali fram yfir hinn mesta unað minn“.

Samt sem áður lítur það þó svo út af sögu þeirra Jójakins og Danjels, er svo fáir urðu síðar til þess að þiggja heimfararleyfið, og hinir, sem eptir urðu, gáfu föðurlandi sínu svo ríkulegar gjafir, eins og að hinn *ytri* hagur þeirra að minnsta kosti hafi verið bærilegur. Eptir lát Nebúkaðnesars fór ríki Babýlonar að hnigna, og þegar persinn *Sýrus* hertók Babýlon, 538 árum fyrir Krists fæðingu, þá kollvarpaðist það algjörlega. 2 árum síðar rættust fyrirheit spámannanna; því þá gaf Sýrus Gyðingum heimfararleyfi. Það er bágt að segja, hvað einkum hafi knúð hann til þess, hvort það var *virðing fyrir eingyðistrú* Gyðinga og *fyrirsagnir spámannanna*, eða það voru *tillögur álitsmikilla Gyðinga*, t. a. m. Danjels. En hvað sem um þetta er, þá var það nóg ástæða fyrir hinn stjórnkæna sigurvegara, að *losa hin nýunnu lönd sín sem mest frá óróasömum mönnum, og* gjöra sjer þá að trúum og dyggum þegnum. Samt sem áður ber Sýrus það fyrir sig í skipun þeirri, *sem líklega er eptir sjálfan hann*, og rituð er í *bók Esru* (1. k. 2.—4. v.), að hann gjöri þetta eptir boði guðs. Áhrif þau, sem herleiðingin hafði á *menntun Gyðinganna, sambönd þeirra við aðrar þjóðir, tungu, skáldskap* og *trúarbragðahugmyndir* þeirra, sjest að nokkru leyti

hjer á eptir í þessari bók. En við herleiðinguna dreifðust Gyðingar út um suður- og austur-hluta Asíu, án þess þó nokkru sinni að slíta með öllu sambandið við föðurland sitt, og varð það síðan, í hendi forsjónarinnar, til mikils frama fyrir útbreiðslu hinna kristnu trúarbragða.

*Serúbabel* (Scheschbazar), er var af konungaætt, og æðsti presturinn *Jósúa* gjörðust foringjar þeirra Gyðinga, sem heim sneru (536), en það voru *niðjar Levís, Benjamíningar* og *Júdear, og það þeir helzt af þeim, sem mest hjeldu upp á stjórnarskipun Mósis.* Alls voru þeir hjer um bil 50,000 að tölu. Hinir, sem kyrrir urðu, og sem voru miklu fleiri, gáfu þeim, er fóru, stórgjafir, eptir tillögum Sýrusar, sem sjálfur seldi þeim öll hin heilögu ker í hendur, er tekin höfðu verið úr musterinu í Jórsölum. Undir eins og Gyðingar komu heim aptur, reistu þeir brennifórnaraltarið upp í musterisrústunum. En árið eptir var grundvöllurinn til nýs musteris lagður með miklum hátíðleika og *sorgblandinni* gleði. Efniviðurinn var keyptur af Fenikum fyrir korn og vín. Samverjar vildu fá að taka þátt í musterisbyggingunni, „því síðan á dögum *Assarhaddonar* höfðu þeir dýrkað Jehóva". En Gyðingar neituðu þeim um það, og hefur það án efa verið ekki síður af *þjóðdrambi*, en af *trúarbragðavandlæti.* Við þetta urðu Samverjar reiðir mjög, og á meðan Sýrus

lifði, tókst þeim, að hamla musterisbyggingunni, og jafnvel hjá eptirkomendum hans fengu þeir bann fyrir henni undir því skyni, að víggirtir staðir væru ekki til annars, en stæla upphlaupagirni hinna óróasömu Gyðinga.

Tálmanir þessar virðast og að hafa kæft niður trúarbragðavandlæti Ísraelinga. En á öðru stjórnarári *Daríusar Hystaspis* kom spámaðurinn *Haggaí* fram, og ávítaði lýðinn í anda hinna eldri spámanna fyrir kulda hans í trúarbragðaefnum, og hirðuleysi um helgidóm þjóðarinnar. „Þess vegna kom yfir þá óáran, vegna þess að þeir hugsuðu einungis um, að byggja hús handa sjálfum sjer, en ekki að byggja musteri Jehóva“. Þjóðin vaknaði þá eins og af dvala, og tók til hinnar hálfbúnu musterisbyggingar. Foringjar Persa, sem yfir þeim rjeðu, lofuðu og Gyðingum, að halda á fram byggingunni á meðan Daríus var spurður um hvort Sýrus hefði þá í raun og veru skipað þeim, að byggja musterið upp aptur. Þegar þetta reyndist nú svo, þá bannaði Daríus, að tálma byggingunni, og ljet þvert á móti skjóta til hennar fje af tekjum konungsins. Eptir tillögum og hvötum þeirra *Haggaís* og *Sakaríasar* spámanna varð musterisbyggingunni lokið undir forustu *Serúbabels* og *Jósúa* á hinu 6. stjórnarári Daríusar (515 f. Kr.), og musterið

var vígt á páskahátíðinni til hinnar mestu gleði fyrir þjóðina.

Nú var þá musterið risið upp aptur á rústum hinna skrautlegu Jórsala, en kraptaleysi þjóðarinnar og þar af leiðandi báglegt ástand og kúgan olli hjá henni afskiptaleysis um trú og þjóðerni. Þess vegna bundust þeir og hjónaböndum við nágrannaþjóðirnar, og gleymdu lögunum. Á dögum *Artaxerxesar hins handalanga* var sá maður af Levísætt uppi, er mjög var í miklu áliti vegna *bókvísi* sinnar, *og það jafnvel hjá sjálfum konunginum.* Hann hjet *Esras.* Hann fjekk leyfi til þess hjá konungi Persa (458), að hann mætti rjetta við að nýju hjá þjóð sinni stjórnarskipun Mósis, og fá til þess styrk af tekjum konungs. Konungur bauð Esras að fá honum fylgdarlið til þess að verja hann fyrir árásum stigamanna, en Esras vildi það ekki; því hann reiddi sig á vernd Jehóva. Honum brást og ekki von sín, og komst hann með Gyðingaflokk einn tálmunarlaust heim til Jórsala, og fór þegar með kappi að reyna til þess, að rjetta við stjórnarskipun Mósis, lífga upp lunderni þjóðarinnar og hreinsa siðina. Einkum gekk hann ríkt eptir, að Gyðingar hættu öllum ólöglegum hjónaböndum við óviðkomandi þjóðir.

En skammt myndi þó Esras hafa komizt með allan sinn áhuga, ef ekki hefði komið

fram sá maður á 20. stjórnarári Artaxerxesar, sem undir eins var *stjórnvitringur* mikill og hann var *guðhræddur* og *ættrækinn*. Þessi maður var *Nehemías*, skenkjari Persakonungs. Ferðamenn, sem komu frá *Júdeu*, sögðu honum, að þeir, sem heim væru komnir, væru varnarlausir fyrir kúgun og öllum óskunda nágrannaþjóða sinna. Nehemías varð mjög sorgbitinn af þessari fregn, og fjekk leyfi til þess hjá konungi, að mega vera höfðingi landa sinna í 12 ár og efla hag þeirra, og höggva efnivið í skógi konungs til *víggirðinga* umhverfis Jórsali. Nehemías fór með persnesku fylgdarliði til Jórsala, og kom hann þangað hjer um bil 13 árum seinna en Esras (445). Á náttarþeli fer hann og skoðar hina brotnu borgarveggi, og daginn eptir birtir hann hinum elztu mönnum lýðsins leyfi konungs. Nú tóku allir með gleði til starfa. Fjandmenn Gyðinga, höfðingjar Samverja, Móaba og Ammóninga, gjörðu í fyrstunni háð að vanmætti þjóðarinnar, þegar þeir heyrðu leyfi konungsins; sögðu þeir, *að ef refur stígi á borgarveggi slíkra vesalinga, þá mundu þeir hrynja um koll*. En er borgarveggirnir voru búnir að ná helmingi þeirrar hæðar, sem þeim var ætluð, þá hugsuðu þeir ekki um annað, en að fella þá með sviksamlegum áhlaupum; því þeim gramdist það mjög, hversu vel Gyðingum heppnaðist starf sitt. Nehemías

vopnaði þá lýðinn, og ónýtti þannig ráðabrugg fjandmanna sinna. Gyðingar stóðu girtir sverðum að vinnu sinni frá morgni til kvelds, og Nehemías fór sjálfur aldrei úr klæðum, og svaf með alvæpni á næturnar, svo hann væri ætíð viðbúinn, til þess að taka fyrstur á móti óvinunum, ef þeir rjeðust á þá. Óvinirnir þorðu ekki að áreita svo einbeitta hugrekki; þeir rituðu því Nehemías hvað eptir annað brjef, og sögðu, að honum væri brugðið um upphlaupsanda, og skyldi hann því koma á fund við sig skammt fyrir utan Jórsali, til þess að þeir tækju allir saman ráð sín, til þess að hrinda slíkum óhróðri af honum. Nehemías rjeði í brögð þeirra, og neitaði ætíð að koma á fundinn. Loksins er einn af prestunum keyptur til þess, að vara Nehemías við launmorði, og ráða honum til þess, að fela sig um nóttina í musterinu. Með lagabroti ætluðu fjendur hans að svívirða hann, og hræðsla hans átti að drepa niður hugrekki þjóðarinnar og traust hennar á honum. „Skyldi annars eins maður og jeg fara að fela sig“, svaraði Nehemías prestinum, og fór hinu sama fram og áður. En hann átti og við nærstaddari fjendur að berjast. Allur fjöldi Gyðinga var fátækur, og þvert á móti lögum Mósis höfðu auðmennirnir gjört þá að þrælum sínum. Þessir menn höfðu því ekki nóg matvæli og gjörðu ýmislegar óeirðir. Nehemías stefndi þá saman

öllum höfðingjum lýðsins, og setti þeim fyrir sjónir, hvílík svívirða það væri fyrir þá, að láta bræður sína, er heiðingjar hefðu gefið frelsi, verða ánauðuga þræla. Ríkismennirnir fyriruðu sig við fortölur hans, skiluðu aptur öllum hinum veðsettu fasteignum, og gáfu allar skuldir upp. Þannig hlotnaðist nú Gyðingum sá fögnuður, að geta vígt hina uppbyggðu borgarveggi, og þakkað guði fyrir þá náð, sem hann hafði auðsýnt þeim. En í 52 daga höfðu þeir verið að reisa upp veggina. Laufskálahátiðin var þá haldin með mikilli viðhöfn, og með aðstoð ritningfróðra manna af Levísætt las Nehemías Mósislög upp fyrir lýðnum undir beru lopti. Gyðingar unnu síðan eið að því, að þeir skyldu gæta laganna í öllum greinum, og höfðingjarnir gáfu þetta heit fyrir sitt leyti ritað. Því næst urðu allir niðjar Levís og tíundi hver allra vopnfærra karlmanna að setjast að í Jórsölum, til þess að vera hinni víggirtu borg til varnar. Allt þetta gjörði Nehemías án þess að fá laun þau, er jarlinum voru ætluð, og þó hafði hann á hverjum degi 150 Gyðinga við borð sitt, auk allra aðkomandi manna. „Náð Jehóva var laun hans“. Þegar hinn ákveðni tími var liðinn, fór Nehemías burtu aptur til Persalands, en áður en árið var liðið, varð hann að nýju að fá heimfararleyfi til Jórsala; því *æðsti presturinn Eljaskib* hafði jafnvel vanhelgað nokkurn hluta af

musterinu, með því að gjöra það að skemmu handa Ammóningnum *Tobíasi*, en *sonarsonur* hans hafði með öðrum fleirum tekið sjer útlendar konur til eignar. Nehemías reyndi til með sanngjarnri hörku, að af má bæði þessar óreglur og aðrar slíkar, og hina iðulegu yfirtroðslu sabbatsins. Eptir þetta talar sagan ekki framar um þenna *starfsama vin trúarbragðanna ag föðurlandsins*, en minning hans gengur þó næst Mósis og Samúels. Samtíða honum og samvinnandi hefur hinn síðasti spámaður, *Maleaki*, efalaust verið.

Gyðingar voru eptir þetta undir stjórn hinna persnesku jarla á Sýrlandi, en æðsti presturinn virðist einatt að hafa fengið meiri og meiri hlut í stjórn landsins. Einn þeirra, að nafni *Jóhanan*, drap bróður sinn Jósúa í musterinu, fyrir þá sök, að Jósúa hafði fengið loforð *Bagóasar* jarls fyrir embætti Jóhanans. Bagóas gekk inn í musterið og smánaði það, og lagði árlegt gjald á fórnarlömb öll, sem einatt var greitt í samfleytt 7 ár. Á dögum *Daríusar Kódómannusar* varð sá viðburður, sem olli því, að musteri var og byggt á fjallinu *Garizím*. Bróðir *Jaddúa*, æðsta prests, *Manasse*, hafði gengið að eiga dóttur *Sannaballatar* Samverjajarls, og krafðist þá æðsti presturinn og lýðurinn þess af honum, að hann annaðhvort skildi við konuna, eða segði af sjer öllu tilkalli til

prestskapar. Manasse vildi hvorugt, og flúði til Sannaballatar, sem stakk upp á, að hann skyldi verða æðsti prestur við musteri, sem hann ætlaði sjer að byggja á Garizím, og ætti að verða eins lagað og Jórsalamusterið. En um þessar mundir vann *Alexander hinn mikli* sigurinn við *Issus* (333), og settist þar eptir um *Týrus* (332), og bað hin næstu löndin um styrk til þess, að vinna hana. Sannaballat fór til liðs við hann með 8000 manna, [redacted] Jaddúa vildi ekki brjóta eiða sína við Daríus, og fór hvergi. En fyrir þetta leyfði Alexander Samverjum, að byggja sjer musteri á Garizím; þar varð Manasse æðsti prestur. Þegar Alexander var búinn að ná *Týrus* eptir 7 mánaða umsátur um hana, þá hjelt hann liði sínu til Jórsala. Æðsti presturinn gekk þá á móti honum í öllum tignarskrúða sínum, og (eptir sögn *Jósefusar)* fór sigurvegarinn mjög vægilega og vel með Gyðinga.

Alexander hinn mikli dó 323 árum f. Kr. og með honum kollvarpaðist og hið víðlenda ríki, [redacted] haun hafði sett á stofn. Hin nýju ríki, sem eptir það komu upp á Sýrlandi og Egyptalandi, höfðu einatt ráðin yfir Júdeu, sem varð þrætuepli þeirra, og sem ýmsir börðust um, *Selevkingar* og *Tólómeingar*. Vald æðsta prestsins var því harðla reykult og takmarkað, en þó hjelt hann yfirstjórninni. *Tólómeus hinn fyrsti* (Lagíson, σωτὴρ) hertók Jórsali (312) með vjel-

um. Hann rjeðst sumsje á hana á sabbatsdegi, og fór með meira en 100,000 Gyðinga burtu til Egyptalands. Þar var farið vel með þá, og þaðan dreifðust þeir út um allan norðurhluta *Afríku.* Af þessum Gyðingum komu Gyðingar Alexandersborgar, sem urðu svo nafntogaðir fyrir bókvísi sína og mállýzku *(Ebreagrískuna).* Á dögum *Filadelfusar* (284) voru hinar helgu bækur Gyðinga lagðar út á grísku, og heitir sú þýðing *sjötíumannaþýðing.* Hún var lögð við bókasafnið mikla í Alexandersborg. Gyðingaríki hefði án efa náð töluverðum framförum undir stjórn *Antíókusar hins mikla* (203), ef þá hefðu ekki verið svo miklar deilur og stríð í landinu. Þegar Rómverjar höfðu sigrazt á *Antíókusi,* og hann fjell frá (187), þá var ríkið í stórskuldum, og löndin kúguð, og þannig tók sonur hans, *Selevkus hinn 4.,* við því. Þess vegna var hann og staðráðinn í því að ræna musteri guðs í Jórsölum, en æðsti presturinn, *Ónías* hinn 3., gat tálmað því. *Antíókus Epífanes,* sem þá kom næstur til ríkis, var alinn upp í Rómaborg, og vildi nú sameina gríska menntan við austurlenzka harðstjórn og skraut. Hann seldi bróður Óníasar *Jason* (Jósúa) (175) æðsta-prestsembættið fyrir fje. En þá (172) kom hinn þriðji bróðirinn, *Menelaos,* og bauð enn meira fyrir embættið; því hann stal jafnvel *gullkerum musterisins,* til þess að geta það. Það var því hægt

fyrir *Jason*, að koma lýðnum til þess, að gjöra upphlaup gegn musterisræningjanum, sem stóð í skjóli Sýrlendinga. Antíókus notaði sjer þá tækifærið til þess, að [redacted] og rupla hina of frelsiskæru þjóð *öldungis*. Með liði miklu kom hann og sefaði upphlaupið, tók Jórsali, rændi musterið og byggði nýja borg til þess að halda þjóðinni í skefjum. En til þess að kæfa niður rætur alls upphlaupsanda, skipar harðstjórinn því næst, að Gyðingar skuli taka upp *trúarbrögð*, tungu og siði *Grikkja*. Hann bannaði umskurnina, brenndi hinar helgu bækur, og reisti líkneskju *Júpiters* upp í musterinu. Auðmennirnir og höfðingjarnir urðu fyrstir til þess, að gjörast trúarníðingar og hlýða boðum Antíókusar. En alþýðan stóð föst fyrir, og ljet engar ofsóknir, pintingar nje ógnanir skelfa sig. En það kom allt fyrir ekki; því hana vantaði foringja, og Gyðingar virtust nú annaðhvort að hljóta að ummyndast í aðra þjóð, og týnast þannig úr sögunni, eða þá rætast upp með öllu og eyðast.

## 7. tímabil.

### *Ástand Gyðinga á dögum Makkabeanna.*

(167—39 ára f. Kr.).

Í borginni *Módín* fyrir vestan Jórsali var *Mattatías* prestur, og synir hans 5. Hann var kjarkmaður mikill, og vandlátur mjög um trúarbrögð Jehóva; honum sárnaði því, að vita af smánan helgidómanna, ánauð þjóðarinnar, og lífláti ýmsra hinna beztu manna (1. Makkab. b. 1., 7.—14.). Sendimenn konungs komu á fund hans, og reyndu til með alls konar fagurmælum og tælandi loforðum, að fá þennan mann, er var í mestu áliti allra manna þar um slóðir, til þess að ganga af trú sinni. En hann svaraði þeim skorinort og mælti, að þó allir gengu af trúnni, skyldi þó aldrei hvorki *hann* nje *hans menn* hlýða skipun konungsins í því. Og svo var hann ákafur, að þegar hann sá Gyðing nokkurn fórna á skurðgoðastalla, þá drap hann bæði hann og sendimann konungs, og ruddi stallanum niður. En með þessu verki hafði hann hafið stríð fyrir trú sinni og lífi. Mattatías flúði nú með alla sína menn á fjöll upp, og drógust þar skjótt að honum margir flóttamenn, sem *allir* voru *vandlátir um Mósislög*, og sá hann sig þá færan um það, að ganga með þeim í stríð

við konungsmenn. Hann varði sig og sína eins á sabbatsdögum og endrarnær, en það höfðu margir flóttamenn ekki þorað að gjöra, og heldur látið konungsböðlana strádrepa sig, en breyta á móti lögunum. Ári síðar dó hin mikla trúarhetja, og var hann þá búinn að leggja grundvöllinn til frelsunar lýðsins, eggja liðsflokk sinn til öruggrar framgöngu og óbifanlegs trausts á Jehóva, og setja son sinn, *Júdas Makkabea,* yfir flokkinn. Júdas var maður guðhræddur, vitur og hugrakkur, og hafði alla þá kosti, sem hann þurfti til þess, að verða frelsari þjóðar sinnar (166—161). Hann sigraðist optar en einu sinni á herflokkum Epífanesar, náði Jórsölum aptur úr höndum konungsmanna, hreinsaði musterið, og kom guðsþjónustunni í rjett horf. Til þakklætis fyrir það stofnaði hann hátíð, sem Gyðingar skyldu þaðan í frá halda á ári hverju. En af því *Síon* náðist ekki úr höndum Sýrlendinga, var hún innibyrgð með háum og traustum girðingum. Epífanes var um þessar mundir í stríðum við aðrar þjóðir, og beið þar mikinn ósigur, svo hann gat ekki snúizt við Gyðingum. Hann dó og skömmu síðar, og þá tók *Evpator* sonur hans við ríkinu. Hann fór með óvígan her til Jórsala, og hafði þá Júdas ekki við, jafnvel þó að bróðir hans, *Eleasar,* gæfi út líf sitt fyrir trúarbrögðin og þjóðina. Hann ruddist sumsje í bardaganum í gegn

um herflokkana að fíl þeim, sem hann ætlaði að konungurinn sæti á, og lagði hann í gegn, en varð undir dýrinu, þegar það fjell, og ljet þar líf sitt. Evpator settist um Jórsali. En þá kom upp ófriður heima í ríki hans, svo hann samdi frið við Júdas, og gaf Gyðingum trúarbragðafrelsi. Að því búnu hjelt hann á burtu, en ljet þó áður brjóta niður alla borgarveggina umhverfis Jórsali. Nú höfðu Gyðingar frið um hríð, og Júdas varð þá fyrst að taka til vopna, þegar *Demetríus* var búinn að ryðja sjer upp á veldisstól Evpators, því hann byrjaði þá stríðið að nýju. Í þeim stríðum varð Júdas loks borinn ofurliði, og fjell hann ásamt þeim fáu, sem þá fylgdu honum (161).

Eptir lát hans tóku Gyðingar, sem þá áttu við mjög bágan kost að búa, bróður hans *Jónatan,* fyrir stjórnara yfir sig. Fyrst framan af gat hann engu áorkað með allri sinni kænsku og hreysti, en hafði ásamt bróður sínum *Símoni* fullt í fangi með að verja líf sitt og sinna, og voru þeir þó báðir varkárir mjög og staðfastir. En miklu bágara áttu þeir þó eptir það, að óvinirnir höfðu getað vjelað *Jóhannes,* bróður þeirra, í hendur sjer. Að lyktum urðu óeirðirnar á milli *Demetríusar* og *Alexanders,* sem þóttist vera sonur Epífanesar, [redacted] konungsvaldið á Sýrlandi, til frelsunar Jónatani, og viturlega heppnaðist honum þá, að nota tækifærið

sjer til hagnaðar. Demetríus og Alexander kepptust hvor öðrum meira um að vinna hetjuna í sinn flokk með fögrum boðum. Hann varð þá æðsti prestur og landstjóri með lítilvægum skatti. Hann náði Jórsölum að nýju á sitt vald, og víggirti þá aptur. Það er mælt, að Jónatan hafi jafnvel gjört vináttusamning við Rómverja. Eptir farsæla og starfsama stjórn í 18 ár gat hinn sýrlenzki höfðingi *Trýfon* á endanum svikið hann í hendur sjer (143). Trýfon ætlaði sjer þá að vinna mikið, og kúga Gyðinga, en þeir völdu þegar *Símon*, er var elztur af sonum Mattatías, fyrir oddvita sinn. Símon hafði átt mikinn þátt í frelsisstríðum þjóðar sinnar, helzt á dögum Jónatans. Þegar Trýfon sá, hvar komið var, heimtaði hann 100 *talenta* til lausnar Jónatani, sem hann hafði í varðhaldi, og sonu hans tvo í gislingu. Símon greiddi honum lausnargjaldið, til þess að sjer yrði ekki kennt um, að hafa ollað bróður sínum dauða af drottnunarsýki eða nísku, jafnvel þó hann þættist vita það víst, að það mundi ekki koma fyrir neitt. Það varð og; því níðingurinn drap Jónatan engu að síður.

Símon var bæði heppinn og hugaður, og hann náði aptur öllum víggirtum borgum í Júdeu undir þjóð sína. Þar að auki náði hann og *Síon* (kastalanum í Jórsölum), sem hann gjörði að aðsetursstað sínum. Stjórn hans

blessaðist vel; hann víggirti margar borgir, setti á fót aptur herinn í Jórsölum, og bjó hann vel að vopnum og áhöldum öllum. Hann efldi velmegun landsmanna, rjetti við akuryrkju og verzlan, og hjelt trúarbrögðunum og lögunum í heiðri. Hann endurnýjaði vináttuna við Rómverja, og hjelt sig ríkmannlega, eins og konungi sómdi, og þjóðinni líkaði vel. Þannig sendi hann Rómverjum að gjöf skjöld einn úr tómu gulli, og reisti bræðrum sínum og föður kostulega marmaravarða. Og þar eð hann ríkti nú eins og *sjálfráður konungur,* og neitaði Sýrlendingum um nokkur yfirráð yfir sjer eða þjóð sinni, þá var það ekki að undra þó Ísraelingar í gleði sinni gæfu hinum veglynda Símoni einnig *æðsta-prests-embættið,* og það með, að *konungstignin gengi í erfðir til niðja hans,* og hann ljeti rista þessa ályktun þjóðarinnar á eirspjald, sem var hengt upp í musterið. Að lyktum varð Símon einnig bráð svívirðilegra vjela. Tengdasonur hans *Tólómeus,* höfðingi í Jeríkó, myrti hinn aldraða mann (135) í heimboði einu, er hann hafði gjört honum, og ætlaði sjer þannig að ná völdunum yfir öllum Gyðingalýð. Hann sendi og menn til þess, að myrða son Símonar, *Jóhannes Hyrkanus,* og hertaka Jórsali.

Svik Tólómeusar urðu honum ekki eins happadrjúg, og hann hafði ætlað; því undir eins

og lát Símonar frjettist, var *Jóhannes Hyrkanus* tekinn til konungs eptir hann. Hyrkanus var þegar á dögum föður síns búinn að sýna drengskap sinn og hreysti í stríðinu fyrir föðurlandið, er hann hafði varið með hug og dug. Þegar sendimenn Tólómeusar komu til Jórsala ljet hann refsa þeim að verðleikum, en svikarinn komst undan hefndinni á flótta. *Antíókus Sídetes,* konungur á Sýrlandi, herjaði síðan á ríki Hyrkanusar, og varð hann þá að gefast upp, en Antíókus var svo vægur Gyðingum, að þeir kölluðu hann *hinn góða* (εὐσεβής). Antíókus fjell í stríði við *Parþa,* og þá gjörðist Hyrkanus aptur sjálfráður; efldi hann þá ríki sitt, einkum með því, að leggja undir sig lönd bæði frá *Samverjum* og *Idúmeubúum.* Samverjar misstu trúarbragðafrelsi sitt við það, er hann kollvarpaði musterinu á Garizím, og neyddi þá til, að taka trú Gyðinga. Hann endurnýjaði og sáttmálana við Rómverja, og þjóðinni vegnaði vel, á meðan hann sat að völdum. Á síðustu árum hans fór þegar að brydda á sundurlyndi því, sem bráðum varð til þess, að sundra ríki hans; því nú fóru *farísear* og *saddúsear,* er áður virðast einungis að hafa verið *trúarbragðaflokkar,* að skipta sjer af stjórnarmálefnum. Farísear vildu láta þjóðarstjórnina vera aðgreinda frá æðsta-prest-embættinu, og varð Hyrkanus

því þeim mun reiðari, sem einn þeirra ljet það í ljósi á háðuglegan hátt fyrir konunginn.

Sonur Hyrkanusar, *Aristóbúlus hinn grimmi* (Júdas), lagði undir sig *Ítúreu*, tók sjer konungsnafn, og dó eptir eins árs stjórn af sorg yfir því, að hann hafði látið rógtungu nokkra tæla sig til þess, að drepa bróður sinn. Eptir dauða Aristóbúlusar kom bróðir hans *Alexander Janneus* til ríkis, og öll þau 27 ár, sem hann sat að völdum, átti hann í sífelldum stríðum bæði við utan- og innanlands-óvini, þar eð hatur farísea og landnámagirni gaf honum aldrei frið. Þegar hann lá banaleguna, rjeð hann því konu sinni, *Alexöndru* (Salóme), til þess, að ávinna sjer hylli hinna voldugu farísea, sem höfðu svo mikil áhrif á lýðinn. Þetta gjörði hún og, svo að þá rjeðu foringjar faríseanna í raun rjettri öllu, á meðan hún ríkti. Sonur hennar, *Aristóbúlus*, hraustur maður og djarflyndur, undi þessu illa, og gjörði því upphlaup þegar á meðan móðir hans var á lífi. Þegar hún skömmu síðar andaðist (71), þá voru sáttarorð borin á milli Aristóbúlusar og eldra bróður hans, hins duglausa *Hyrkanusar*, og varð það út úr, að Hyrkanus gaf bróður sínum upp forgöngurjett sinn til stjórnarinnar. Lifði hann síðan í kyrlífi, embættislaus, þangað til hinn stjórnvitri Ídúmei, *Antipater*, fjekk talið hann á að fara í liðsbón til Arabalands (66). Af

þessu kom nú aptur stríð upp á milli bræðranna (65), og Rómverjar slettu sjer fram í það eins og annað. Loksins tókst *Pompejus* (hinn mikli) á hendur, að kljá stríðið til lykta (64). Aristóbúlus sá að Rómverjar voru fremur á máli hins duglitla Hyrkanusar, og gat hann þá ekk reist rönd við þeim með sínum mönnum. *Pompejus* tók hann höndum og fór móti Jórsölum. Þar varð hann loks að taka musterið með herhlaupi. Hann gjörði því næst Hyrkanus að stjórnara og æðsta presti, en ljet hann vera skattskyldan Rómverjum. Hann reif niður borgarveggi Jórsala, og [redacted] allar seinni alda viðbætur frá landinu. Sjálfur skoðaði hann musterið; en af lotningu fyrir hinum ósjáanlega guði, sem þar var tignaður líkneskjulaust, ljet hann ekki hafa þaðan neitt á burtu. Eptir þetta voru sífelldar óeirðir og róstur á meðal landsmanna sjálfra, og kom þá *Gabinius* á nokkurs konar höfðingjastjórn, [redacted] *Krassus* rændi musterið öllum gripum þess og gersemum (54).

Kænska og kringumstæður fengu loks Ídúmeubúum [redacted] hendur það vald, [redacted] Makkabear höfðu áður haft. *Antípater* fjekk ekki einungis leyfi *Sesars* (Caesar) til þess, að hlaða upp að nýju borgarveggi Jórsala, heldur gjörði Sesar einnig Antípater að *procurator provinciae* (skattlands-höfðingja, 48), jafn vel þó að

Hyrkanus væri kallaður landshöfðingi og æðsti-prestur. Antipater gjörði *Heródes,* son sinn, að höfðingja yfir *Galíleu,* og með því að hann var svo fljótur að fá þar hinn þunga herskatt goldinn, þá ávann hann sjer vináttu *Kassíusar* eptir dauða Sesars. Skömmu síðar andaðist Antípater af eiturdrykk, sem honum var byrlaður, og tókst þá Heródesi ekki að eins, að halda tign sinni óskertri, heldur og eptir orustuna við *Filippí* (42) að ávinna sjer hylli *Antoníusar,* svo að hann seldi honum og bróður hans fyrir ærið fje yfirráðin yfir *Júdeu,* og kallaði þá *tetrarka* (τετράρχης = fjórðungshöfðingi). Aristóbúlus hafði verið drepinn með eitri, og sonur hans Alexander hálshöggvinn í Rómaborg. En hinn bróðirinn, *Antigónus,* reyndi með liðveizlu Parþanna, að leggja undir sig Ídúmeubúa. Fyrst framan af gekk honum vel. Hann gat handtekið Hyrkanus, og sendi hann til Persalands, eptir að hann hafði skorið af honum bæði eyrun, og með þeim hætti gjört hann óhæfan til þess, að vera æðsti prestur; því það máttu ekki vera limlestir menn. Heródes neyddist sjálfur til þess, að flýja til Egyptalands, og þaðan í liðsbón til Rómaborgar. En þar var þá sátt komin á á milli *Oktavíanusar* og *Antoníusar* (39). Heródesi heppnaðist erindið; því þeir tóku báðir málstað hans, og fengu talið svo um fyrir ráðherrunum (senatus), að þeir gjörðu

hann að konungi yfir Júdeu. Rómverjar fengu honum liðsher, og náði hann skjótt aptur löndum sínum og Jórsölum (37), og *Antigónus*, sem var seinastur höfðingi af ætt Makkabea, varð að þola smánarlegan þrælsdauða. Svona lítil varð hamingja sú, er kórónan hafði í för með sjer handa ætt þessari, sem jafnvel í dauðateygjunum bar af öðrum í afli og kjarki.

---

## 8. tímabil.

### *Gyðingar undir yfirráðum Ídúmeans Heródesar og Rómverja.*

(39 f. Kr. — 70 ára e. Kr.).

---

Jafnvel þó að *Heródes* væri af ætt Esaús, settu þó Rómverjar hann á veldisstól Ísraelinga. Með hörku og kænsku tókst honum að verja sig fyrir hinum sífelldu upphlaupum og hatri *Kleópötru*, enda var hann og hugrakkur maður og stjórnvitringur mikill. Reiði Antoníusar keypti hann af sjer með gulli og fagurmælum, og á Araba-

konungi þeim, sem Kleópatra æsti í stríð við hann, sigraðist hann öldungis. Þegar Antoníus var orðinn undir fyrir *Ágústusi*, þá heppnaðist Heródesi, að vinna svo hylli sigurvegarans, að hann ekki einungis samþykkti veldi hans, heldur og jók það, og þó hafði Heródes styrkt Antoníus, og það jafnvel eptir orustuna við *Aktium*. Heródes hafði um þessar mundir byggt Samaríu upp, og nú kallaði hann hana *Sebaste* (Ágústa) af virðingu við Ágústus, eins og vígið í Jórsölum hafði áður verið nefnt *Antonía*, eptir Antoníusi. Nú hjelt hann að sið Grikkja fimmta hvert ár skilmingar og leiki til virðingar við Ágústus. En bæði það, að hann var svona mikið háður Rómverjum, sem og ætt hans og harka í að beita valdi því, er í raun og veru gat ekki átt við guðsstjórn Gyðinga, hlaut að snúa hjörtum þegnanna frá honum. Það kom því fyrir ekki, að hann gekk að eiga dótturdóttur Hyrkanusar, sem hjet *Maríamne*, nje heldur hitt, að hann byggði nýtt og harðla skrautlegt musteri á fjallinu *Móría*, þar sem hið gamla hafði verið. Jafn árangurslaust var og það, að hann geymdi landsins fyrir árásum aðkomandi fjandmanna, og hóf álit þess að nýju; því ekkert af þessu gat varpað því í gleymsku, er harðstjórinn smátt og smátt hafði látið drepa margar þúsundir þegna sinna, 3 af sonum sínum og allar leifar hinnar mikilsvirðu Makkabeaættar.

Hann ljet ekki einungis drepa Hyrkanus áttræðan, eptir það hann hafði lokkað hann burtu úr landi Parþanna, þar sem hann lifði áhyggjulaus og mikils virtur, heldur drap hann og konú sína Maríamne, sem hann elskaði þó, og bróðir hennar saklausan með henni. Það gat að eins um stuttan tíma sefað hatur þegna hans, að hann í hallæri einu með undrunarverðri starfsemi ól önn fyrir landinu, og seldi jafnvel skraut sitt, silfur og gull, fyrir korn. En ekkert gat þó sefað samvizkubit sjálfs hans, einkum af drápi Maríamnar, sem ásamt tortryggni og ótta gjörði hann jafn aumkunarverðan, eins og hann var blóðþyrstur og harður. Hann ákvað, að sonur sinn *Arkelás* skyldi koma til ríkis eptir sig, en Ágústus skipti landinu milli hans og tveggja bræðra hans. Arkelás, sem hafði erft alla lesti föður síns, en enga af kostum hans, fjekk *Júdeu, Samverjaland* og *Ídúmeu*, og nafnið *þjóðstjóri* (ἐθνάρχης); honum var og heitið konungsnafni síðar meir, ef hann gjörði sig verðan þess. En eptir klögun þegna hans var honum vikið frá völdunum eptir 10 ár, og sendur í útlegð til borgarinnar *Vienne.* Eptir burtrekstur Arkelásar var rómverskur *procurator provinciae* (skattlandsstjóri) settur yfir Júdeu og Samverjaland, og var hann aptur háður landstjóranum *(proconsul)* í Sýrlandi. Aðsetur sitt átti hann að hafa í *Sesarsborg (Caesarea = Turris Stra-*

*tonis)*, jafnvel þó hann væri ætíð á stórhátíðum í Jórsölum. Gyðingar höfðu að vísu eins konar ráðherraþing (*Sanhedrin* = συνέδριον ɔ: *senatus*), sem þegar var til á dögum Makkabeanna, og, ef til vill, stofnað á dögum *Esru*. Þing þetta var í miklu áliti, og sátu í því 72 menn, sumt prestar, sumt ritningfróðir menn af ýmsum ættum, og æðsti presturinn var optast nær forseti þess. Hjelt það jafnvel á dögum Rómverja æðsta dómsvaldi um sjerhvað það, er snerti trúarbrögð og siði, en ekki mátti það framkvæma dauðadóm á neinum, fyr en það var búið að fá til þess samþykki landstjórans. Hann setti og æðsta prestinn í og frá embætti eptir geðþekkni. Þessa undirgefni undir Rómverja gátu hvorki Farísearnir þolað, nje þeir Gyðingar, sem fastast hjeldu við guðsstjórnarskipun Mósis. Einn af þessum mönnum var *Júdas Gálónítas*, sem ekki játti neinn herra yfir Gyðingum nema guð einn. Uppreist sú, er hann gjörði, varð að sönnu sefuð, en þó ekki kæfð niður til fulls. Á seinustu stjórnarárum *Tíberíusar* keisara var *Pílatus hinn pontverski* landstjóri í Júdeu.

*Antipas*, annar sonur Heródesar, fjekk *Galíleu* og *Gílead* til umráða, en þriðji bróðirinn, *Filippus*, fjekk norðausturhluta landsins, *Trakónítis*, *Áranítis* og *Bataneu*. Antípas var dáðlaus og hjegómagjarn sælkeri, og ljet hann

drottningu sína, hina drambsömu og grimmu *Heródías*, ráða öllu. Filippus stjórnaði þar á móti hinu litla umdæmi sínu rjettvíslega og vel, og hafði aðsetur sitt í *Sesarsborg Paneasar* (*Caesarea Paneas*), en Antípas í *Tiberíusar-borg (Tiberias)* við vatnið *Genezaret*. Þegar Filippus dó, þá gaf *Kalígúla* lönd hans *Agrippu*, syni *Aristóbúlusar* sonar *Heródesar* hins mikla, og ljet þar með fylgja konungsnafn. Aristóbúlus faðir Agrippu hafði verið drepinn, á meðan Heródes var uppi. Af þessu vaknaði upp öfund hjá *Heródías*, systur Agrippu, og taldi hún Antípas mann sinn á, að fara til Rómaborgar, til þess að ná löndum Filippusar, eða þá konungsnafninu einu, þó ekki væri meira. En í staðinn fyrir það var hann eptir röngum áburði Agrippu gjör útlægur til borgarinnar *Lýon*, og þangað fylgdi Heródías honum sjálfkrafa (39). Agrippa tók nú og við löndum þeim, sem Antípas hafði haft. Hann fjekk á unnið það við *Kalígúlu*, að hann tók aptur þá skipan, að setja líkneskju keisarans í musterið. *Kládíus* unni honum einnig, og gaf honum Júdeu og Samverjaland til umráða (41). Þannig var þá allt saman Gyðingaríki aptur komið í eins manns hendur, en það stóð ekki lengi, og var líkt og ládeyða á undan stormi. Agrippa dó snögglega árið 44 e. Kr., og þá tók róstuandi lýðsins þegar að láta brydda á sjer, og það því heldur,

sem Gyðingar fengu nú yfir sig hvern landstjórann öðrum verri, sem viljandi bljesu að eldinum, til þess að þeir ættu sjálfir því hægra með, að drepa menn, fjefletta og kúga. Að þessu eru þeir *Felix, Festus* og einkum ófreskjan *Flórus* kunnir. Þá ljetust og margir vera frelsari sá, sem Gyðingar væntu, og spámennirnir höfðu talað um og kallað *Messías* (ɔ: hinn smurði), og juku slíkir svikarar einatt á hina vaxandi óánægju og hatur. En þegar *Neró* skipaði lýðnum, að reisa upp líkneskju sína í musterinu og tilbiðja hana, þá gjörðu Gyðingar loksins almenna uppreist, og gat ekki *Agrippa hinn annar,* sonur Agrippu hins mikla, sefað hana. Ef guðsótti og sannur frjálsræðisandi hefði þá sameinað lýðinn, og hann hefði átt slíkan forustumann, sem Makkabear voru, þá er það óvíst, hvort hinir voldugu Rómverjar hefðu megnað að kúga hann. En nú var hin nærri því ótrúlega staðfesta þeirra og þol sjálfum þeim til eyðileggingar; því jafnvel þá, er *Vespasianus* var sendur á móti þeim með 60,000 manna (67 e. Kr.), og búið var að taka landið eptir knálega vörn, og hann sat um Jórsali, þá beittu flokkarnir innanborgar meiri heipt og hatri hverjir við aðra, en á móti Rómverjum sjálfum, og þó var eins og hungur og drepsótt kepptist um, að drepa lýðinn niður. Vespasíanus var boðaður heim til Rómaborgar, en son-

ur hans *Títus* hjelt umsátrinu áfram, og tók loksins borgina með áhlaupi á 70. ári frá holdtekju Krists. Eyðileggingin var hræðileg: musterið var gegn vilja Títusar og í skýlausu banni hans brennt upp til kaldra kola, og með því meginhluti borgarinnar; víggirðingar og kastalar voru brotnir niður og umturnað, en Gyðingar seldir mansali, *svo lengi sem nokkur kaupandi fjekkst að þeim.* Á dögum *Hadríanusar* voru Jórsalir með öllu lagðir í eyði, og áformað, að reisa upp aðra borg á rústum þeirra, sem heita skyldi *Aelia Capitolina.* Út af því hófst þá enn uppreist að nýju, sem ekki varð sefuð, fyr en eptir 3 ár, og þá með því, að tvístra og sundra Gyðingalýð til fulls og alls. Tilraun sú, er *Júlíanus* keisari *Apostata* (ɔ: trúarníðingur) gjörði til þess, að byggja upp aptur musterið, ónýttist á undarlegan hátt (af eldgosi). Nú stendur þar tyrkneskt bænahús (Moskee), sem musterið var.

---

# III. kafli.

## Yfirlit yfir hin helgu rit hins gamla testamentis.

---

Vjer höfum nú farið yfir sögu Gyðinga, og sjeð, hvernig trúin á Jehóva, hinn eina og sanna guð, skapara heimsins og stjórnara, geymdist á meðal þeirra í meira en 1500 ára, og það þrátt fyrir allar ytri og innri tálmanir, sem hún átti við að stríða. Nú skulum vjer þá nákvæmar yfirvega þau heilögu rit, sem ekki hafa einungis geymt þessa fræði mann frá manni, heldur og einkum búið þann tíma undir, sem vilji og náð guðs átti enn dyrðlegar að birtast á, og munum vjer þá finna þá millumliði, sem gjöra oss það undanfarna skiljanlegt, og benda oss fram á það, er á eptir kemur.

### I.

Gamla testamentið, eða safn hinna helgu rita Gyðingalýðs, byrjar á sögubókum. Fyrstar þeirra eru fimm bækur Mósis (PENTATEUCHUS). Hin fyrsta bók Mósis (GENESIS) inniheldur elstu sögurnar um sköpun heimsins og mannanna, syndafallið, barnæsku mannkynsins, syndaflóðið, og uppruna málanna, sem og sögur Gyðingafeðranna: Abrahams, Ísaks, Jakobs og Jósefs. 2. bók Mósis (EXODUS) segir frá högum Gyðinga á Egyptalandi, frelsun þeirra þaðan og löggjöfinni á Sínaí. 3. bókin (LEVITICUS) inniheldur, auk

ýmsra sögukafla, helzt guðsþjónustulögin. Í 4. bókinni (NUMERI) eru sumpart ættartölur og einstök lög, sumpart frásagan um för Gyðinga um eyðimörkina, og stríð þeirra á dögum Mósis. Hin 5. bók (DEUTERONOMIUM) tekur upp aptur helztu atriði laganna með nokkrum breytingum og viðbótum, og segir frá hinum seinustu störfum Mósis og fyrirskipunum, og frá andláti hans.

Saga Mósis ber það með sjer, að hann hafi þekkt ritlistina, og eins er það auðsætt af innihaldi rita hans, sem og af allri sögu Gyðinga, að flest af því, sem ritað er í hinum 5 Mósis bókum, sje eptir hann sjálfan, jafnvel þó niðurröðun efnisins og búningur kunni að vera yngri. Þessar bækur eru mjög mikils varðandi, og það ekki einungis í tilliti til trúarbragðanna, heldur og í vísindunum. Í 1. bók Mósis eru hinar elztu, tignarlegustu og fegurstu sögur um uppruna alls, upptök hins illa, og hagi mannkynsins áður en sögur byrja. Í þessum frásögum eru barnleg einfeldni, háfleygi og djúp þýðing tvinnað saman í eitt. Hafi sagan allsendis nokkra þýðingu, og geti hún, jafnvel án tiltekinna dæma, haft á oss nytsamleg áhrif, þá hljótum vjer og að unna og virða mikils hið elzta sögurit, sem vjer þekkjum, um þá þjóð, sem með tilliti til trúarbragðanna er allra þjóða fremst í heiminum. Hversu fræðandi er það og unaðslegt, að lifa og ferðast í tjöldum feðranna um hinar löngu horfnu aldir! hversu tignarlegt, að fylgja Móses á hans löngu og örðugu leið, og sjá, hverju einn maður fær með aðstoð Jehóva orkað! Í Mósis bókunum kemur öll fornöldin, og einkum hin austurlenzka, mjög áþreifanlega fram, og ef vjer erum þeim ekki kunnugir, þá hlýtur saga hinna síðari tíma, einkum trúarbragðasaga Gyðinga og kristinna manna, að vera oss óskiljanleg; því í þeim er fólgin rót Gyðingatrúarinnar, skáldskapar þeirra, sögu, þjóðareinkunna og siða. Mjög eru því rit þessi nytsöm og mikilsvirði fyrir fornfræðinginn, heimsspekinginn, sagnaritarann, lög-

fræðinginn og skáldið, en hinum kristna manni eru þau heilög og ómissandi; því þau eru fyrsti liðurinn í þeirri hinni undrunarverðu festi, sem í heilagri ritningu hefur manninn til guðs, byrjunin á ráðsályktunarstörfum drottins til frelsunar mannkyninu.

Rit það, sem næst er eptir Mósis bækurnar, kalla menn Jósúabók, af því hún segir frá hreystiverkum Jósúa. Það lítur svo út, eins og að hún sje rituð eptir lát hans eptir gömlum kvæðum (Jós. 10., 13.), fornmenjum, eiginhandarritum Jósúa (24. 26.) og lifandi frásögum. Líkt er og efalaust varið Dómarabókinni, sem segir frá einstökum afbragðsmönnum konum og körlum, á meðal Gyðinga eptir daga Jósúa. Höfundur hennar hefur líklega farið eptir eldri frásögum og kvæðum (t. a. m. Debóru í 5. k.), minnisvörðum, siðum og minningarhátíðum (t. a. m. eptir dóttur Jepta). Eigi vitum vjer heldur, hver vera muni höfundur Rutsbókar, nje hve nær hún er rituð.

Fyrri Samúelsbókin segir frá þeim Elís, Samúel, og Sál, en hin síðari frá Davíð konungi. Konungabækurnar eru framhald þeirra og byrjar hin fyrri á Salómoni, en endar á Akab; hin síðari nær frá Akab til herleiðingarinnar. En vegna þess, að saga Gedalju og lausn Jójakins er sögð í 2. Kgb. 25., 21., þá hlýtur því annaðhvort að vera bætt við eptir herleiðinguna, eða bækurnar hafa þá fyrst verið ritaðar. Þær líta annars út fyrir að vera ágrip af stærri ritum, sem stundum er vitnað til. Konungabækurnar hafa einkum tillit til Ísraelsríkis, en þar á móti tala Kronikubækurnar (ↄ: Árbækurnar) mest um Júdaríki. Í hinni fyrri eru ættatölur og saga Davíðs, en hin síðari heldur sögunni á fram til daga Sýrusar. Margir hafa ætlað, að Esras mundi vera höfundur þeirra, en það er víst, að þær eru ritaðar eptir eldri ritum; t. a. m. Árbókum Júda- og Ísraels-ríkja, Davíðssögu, Skemajubók, o. s. frv., sem nú eru ekki lengur til. Um hið næsta söguritið, Esrubók, sem segir frá

honum og Serúbabel, vitum vjer það aptur á móti með vissu, að Esras er höfundur hennar, nema kafla nokkurra í fyrstu kapítulunum, sem virðast að vera teknir úr eldri ritum eptir Kaldea. Nehemíubók er einnig eptir og um Nehemías.

Estersbók er hið síðasta sögurit í safninu. Konungur einn á Persalandi, að nafni Ahasverus, (ef til vill Xerxes, eða Artaxerxes hinn 1.) rak frá sjer drottningu sína á 3. stjórnarári sínu, en tók aptur á 6. stjórnarári sínu fátæka Gyðingastúlku, Ester, fyrir drottningu handa sjer. Frændi og fóstri Esters, Mardokaí, hafði áður komizt eptir samsæri nokkru móti konunginum, en sökum þess, að hann vildi ekki eptir sið Persa krjúpa fyrir gæðingi konungs, sem hjet Haman, reiddist hann honum svo mjög, að hann fjekk talið Ahasverus á að skipa það, að á tilteknum degi skyldi drepa niður alla Gyðinga í ríki sínu. Mardokaí sagði Ester þetta. Hún gengur þá fyrir konunginn, og var það þó strengilega bannað, og býður honum og Haman heim til sín. Ahasverus þá heimboðið, og Haman varð svo glaður af þeirri virðingu, sem honum þótti sjer veitast í þessu, að hann ljet þegar reisa upp 50 álna háan gálga handa Mardokaí. En konungur gat ekki fallið í svefn um nóttina, og ljet lesa fyrir sig í árbókum ríkisins. Þar heyrði hann þá söguna um Mardokaí, og það með að honum væri enn ólaunað. Hann lætur því undir eins kalla Haman fyrir sig, og spyr, hvað gjöra skuli við þann mann, sem konungurinn vilji veita virðingu. Haman datt ekki annað í hug, en að konungurinn talaði um sig, og segir, „að þann mann eigi að skrýða í konungsskrúða, og setja kórónu á höfuð honum, setja hann á reiðhest konungsins, og fara með hann um öll stræti borgarinnar". Konungurinn ljet nú Haman þegar framkvæma allt þetta á Mardokaí, í staðinn fyrir að hengja hann, sem Haman ætlaði þá einmitt að fá leyfi til. Um kveldið var Haman aptur ásamt konunginum í heimboði hjá drottningu. Reis hún þá upp og talaði máli landa sinna við konung, en hann gjörði góðan róm að máli

hennar, ljet nú þegar hengja Haman á gálga þann, er hann hafði sjálfur reist, og setti Mardókaí aptur í hans stað. Hann gaf og Gyðingum það leyfi, að þeir mættu drepa svo marga, sem þeir vildu af óvinum sínum þann dag, er þeim var fyr ætlaður bani á, og segir sagan, að þeir hafi drepið meira en 70,000 manns. Í minningu þessa hjeldu Gyðingar síðan hátíð þá, er þeir kölluðu púrímshátíð, og sýnir það, að bók þessi, sem vjer þekkjum ekki höfundinn til, nje vítum hve nær er rituð, styðst þó við einhver viss söguatriði. En bæði vegna hins ósögulega sniðs, sem er á bók þessari, og vegna þess, að hún fer ekkert út fyrir Gyðingaþjóð, þá áleit jafnvel Lúter hana minna virði, en hinar fyr-töldu bækur í gamlatestamentinu, sem það á við, er vjer höfum áður sagt um bækur Mósis, að þær eru öllum mönnum harðla mikilsverðar, en þó einkum oss, sem kristnir erum.

## II.

Hjobsbók er hið fyrsta skáldskaparrit í hinu gamla testamenti. „Hjob bjó í landinu Úz“, segir skáldið. „Hann var maður sannarlega guðhræddur, og hafði viðbjóð á öllu, sem illt var. Hann átti 7 syni og 3 dætur, og var einhver hinn auðugasti maður á austurlöndum. Í hvert skipti, sem börn hans komu saman til hátíðahalds á afmælisdögum sínum, var hinn góði maður ætíð vanur, að færa guði fórn árla hinn næsta dag eptir; því hann ímyndaði sjer, að börnin kynnu í gleði sinni að hafa gleymt guði“.

„Einu sinni komu synir guðs saman fyrir hásæti hans, og þar á meðal ákæruengillinn (Satan). Hvaðan kemur þú núna? segir Jehóva. Jeg hef ferðast um alla jörðina. — Sástu þá þjón minn Hjob? segir Jehóva aptur; hann, sem ekki á sinn líka í hræsnislausri dyggð á jörðunni? — En ákæruengillinn sagði, að Hjob dýrkaði guð án efa einungis vegna þess, að honum gengi allt að óskum. Jeg gef þjer vald

yfir öllu, sem hann á, segir Jehóva: en sjálfan hann máttu alls ekki snerta“.

„Þá bar svo við, að öll börn Hjobs voru hjá elzta bróðurnum á afmælisdegi hans. Þá kom til Hjobs maður einn, sem bar honum þá fregn, að Sabear hefðu drepið hirða hans, en rænt öllum stórgripa-hjörðunum og haft þær á burtu með sjer. Áður en hann hafði lokið máli sínu kom annar maður, og svo hver að öðrum, sem sögðu honum, að eldingu hefði lostið niður á sauðahjörð hans og drepið hana ásamt smölunum, að Kaldear hefðu rænt öllum úlföldum hans, og að hvirfilvindur hefði kollvarpað húsinu, sem börn hans hefðu setið inni í, og hefðu þau öll látið þar lífið. Þá reis Hjob upp, reif sundur klæði sín, gjörði bæn sína og mælti: „Nakinn kom jeg frá móðurlífi, nakinn mun jeg aptur hjeðan fara. Jehóva gaf, Jehóva tók, lofað sje nafn Jehóva“.

„Í annað sinn söfnuðust synir guðs saman fyrir hásæti hans, og Jehóva spurði ákæruengilinn aptur, hvaðan hann kæmi, og hvert hann hefði gefið Hjob gaum, sem þrátt fyrir alla þá ógæfu, er hann hefði ratað í, án þess að vinna til þess, leiddist þó ekki til syndar. Ákæruengillinn bað þá um enn þyngri raun; „því allt sem maðurinn á, það gefur hann fyrir líf sitt“, mælti hann. — „Jeg gef þá Hjob öldungis á þitt vald“, sagði Jehóva, „nema líf hans, það máttu ekki taka af honum“. Þá fór engillinn, og steypti út allan líkama Hjobs frá hvirfli til ilja með kaunum og illum kýlum, svo að Hjob settist í ösku, og skóf af sjer hrúðurkarlana með skeljabrotum. Nú virtist ógæfa hans að vera orðin sem mest hún mátti verða, og þá spyr kona hans hann í háði, „hvort hann dýrkaði guð enn? og hvort hann vildi nú ekki kveðja hann og fara að deyja?“ Þá mælti hann: „Þú talar, eins og heimskar konur tala. Eigum vjer einungis að þiggja hið góða frá guði, en ekki einnig hið illa?“ Hjob var enn ekki búinn að

syndga. Þá komu vinir hans þrír, til þess að hugga hann; en er þeir sáu hann, þekktu þeir hann ekki. Þeir rifu þá í sundur klæði sín, og fóru að gráta. Þar eptir sátu þeir hjá honum þegjandi í 7 daga; því þjáning hans var mikil. Loksins bölvaði Hjob burðardegi sínum, og þegar Elífas ætlaði að fara að hugga hann með því, að guð væri rjettlátur, og enginn maður með öllu saklaus, og að hann mundi aptur verða lánsmaður, þegar refsingartíminn væri á enda, þá ítrekaði Hjob kvörtun sína yfir bágindum sínum og hörku Jehóva, og álasar vinum sínum jafnframt fyrir vorkunleysi þeirra. Þá svaraði Bildað því enn frekjulegar, sem Elífas hafði mælt, og þegar Hjob heldur áfram kvörtuninni, þá segir þinn þriðji, sem hjet Sófar:

„Hví skyldi maður ekki svara orðafjölda þínum? hví skyldi hinn málóði maður vera látinn óhrakinn? hví skyldir þú tala hæðilegum orðum, og enginn sneypa þig? Ef þú breiddir út hendur þinar móti guði, slepptir öllu því fje, sem þú hefur aflað þjer með óleyfilegum hætti, og dyldir engan rangfenginn hlut í tjaldi þínu, þá mundir þú gleyma sorg þinni, og minnast hennar eins og vatnsins, sem runnið er fram hjá þjer“.

Hjob kvartar yfir þessum hörðu átölum og segir:

„Hinn saklausi er orðinn að háði, og hinn ógæfusami er einkis virtur. Virðingin fylgir lánsmanninum, og hinn rasandi er sleginn“.

Af afvegaleiddu kappi fyrir rjettlæti Jehóva lætur skáldið nú hina þrjá vini um hríð halda þannig áfram að svara hver öðrum, og með skoðun sinni á stjórn guðs á heiminum særa þeir ógæfumanninn allt af meira og meira, þangað til hann loksins með sjálfbyrgingsskap fer að bera fyrir sig sakleysi sitt og guðhræðslu, af því þeir áklaga hann þá eins og stórbrotamann, sem guð hafi hlotið að refsa. Þegar svona er komið, er hinn ungi Elíhú fyrst nefndur. Hann ávítar Hjob

harðlega fyrir guðlastanir sínar, ver rjettlæti guðs, og endar seinast á fagurrri lýsingu á almætti hans: „þess vegna skulu dauðlegir menn óttast hann, sem enginn af vitringum þeirra hefur sjeð“. Nú laust á þrumuveðri miklu, og í því hljómaði rödd Jehóva til Hjobs og mælti:

„Hver ert þú, fávís maður, sem dregur myrkur yfir hin vísdómslegu ráð guðs með heimskulegum orðum? Girð þú lendar þínar, og kom þú fram eins og maður; jeg ætla að spyrja þig, en þú skalt fræða mig! Hvar varstu, þegar jeg lagði grundvöll jarðarinnar? seg mjer það, ef þú veizt það! Hver hefur sett henni víst mál? veiztu það? Hversu djúpt var grundvöllur hennar tekinn? Hver lagði hornsteina hennar, þegar morgunstjörnurnar sungu fagnaðarsöng, og öll börn guðs glöddu sig? Hver takmarkaði hið víttþanda haf, þegar það brunaði út af skauti móður sinnar, og þegar jeg hjúpaði það í skýjunum og lagði þokuna yfir það eins og blæju?“ Þannig heldur skáldið nú áfram í tölu Jehóva, að lýsa hinu órannsakanlega almætti guðs, og vizku hans, sem birtist í náttúrunni. Þegar því er lokið, játar Hjob þess vegna, að hann skilji ekki hin huldu ráð forsjónarinnar, og iðrast nú hjartanlega yfir því, hversu hann hefur heimskulega þótzt af dyggð sinni. Því næst refsar Jehóva vinum Hjobs þremur, en gefur honum ekki einungis heilbrigði sina, heldur og helmingi meiri auð en áður, og jafnmörg börn eins og áður. Loksins „deyr Hjob 140 ára gamall, og saddur lífdaga“. — Ekki vitum vjer, að hve miklu leyti þetta fagra og háleita skáldskaparrit styðst við sögulega viðburði. Aðalefni þess er: Heimsstjórn guðs er vísdómsfull og rjettlát, en óskiljanleg fyrir sljófleika vorn. Ekki getum vjer heldur sagt, nær Hjobsbók er rituð, nje hver höfundur hennar sje.

Sumir hafa haldið, að Mósis væri höfundur hennar, en aðrir halda, að hún sje rituð eptir herleiðinguna.

Í Hjobsbók dáumst vjer mest að háfleygi, gagnyrðum, fegurð og afli. En þá kosti hefur og sálmasafn það til að bera, sem kallað er Davíðssálmar, sem eru eptir ýmsa menn á ýmsum tímum. Sumir þeirra eru t. a. m. eignaðir Móses, margir eru eptir Asaf, o. s. frv., sumir eru ortir í herleiðingunni til Babýlonar, en sumir eptir hana. Efnið er margbrotið, en þó ætíð guðrækilegt; í sumum eru eiginlegleikar guðs útlistaðir (t. a. m. 104., 135., 136. og 149.); sumir eru þar á móti sigurljóð og hátíðasöngur (108., 118. s.); sumir eru kvartanir Davíðs yfir ógæfu sinni og yfirtroðslum (51., 56., 102. s.). Í margar þúsundir ára hafa þessir sálmar hughreyst hinn iðrandi syndara og endurnært hina örmæddu sál, sem heimurinn hefur ekki borið skyn á að virða, eins og vera bar; þeir hefja andann í djúpri lotningu til yfirvegunar og undrunar yfir tign guðs og náð, og gefa manninum þrek og hugrekki; þeir eru fyrirmynd fyrir sjerhvert andríkt sálmaskáld, og grundvöllur kristinnar trúar; þeir eru oss þess vegna enn ljós á vorum vegum og lampi vorra fóta.

Það var siður fornþjóðanna, að geyma ályktanir reynslu sinnar og rannsókna í stuttum og gagnorðum snillyrðum, sem á stundum voru í mjög svo skrautlegum búningi. Áttu þær málsgreinir þessar eins og nokkurs konar sjóð, sem breytingar lífsins og breytilegleiki gátu aldrei týnt, og sem einatt gekk í erfðir mann frá manni. Þess konar safn af lærdómum og undirstöðuatriðum hinna ebresku spekinga höfum vjer í þeirri bók hins gamla testamentis, sem heitir orðskviðir Salómonar. Fyrst eru þar skýrðir yfirburðir eða kostir vizkunnar, þar næst eru ýmisleg sundurlaus snillyrði, dyggðar- og hygginda-reglur, sem eru hugsaðar með skarpsýni, fram settar með viturleik, byggðar á reynslu, og ágæts efnis, og hafa því jafnan verið álitnar brunnur vizku og þekkingar. Þannig er t. a. m. í 1. k. 7. v.:

„Ótti drottins er upphaf vizkunnar“.

„Reiddu þig á drottinn af öllu hjarta þínu, en treystu ekki viti þínu“. 3. k. 5. v,

„Þú letingi, far þú til maursins, og nem þú hyggindi af honum“. 6. k. 6. v.

„Hinn óguðlegi hverfur á burtu, eins og hvirfilvindurinn, en hinn rjettláti stendur á eilífum grundvelli“. 10. k. 25. k.

Menn hefur greint mjög á um höfund bókar þeirrar, sem hjer er næst á eptir, og kölluð er Prjedikari, sem og um tímann, er hún sje rituð á, tilgang hennar og uppruna. Prjedikarinn er í trúarfræðislegu tilliti nærri því minnst verður af öllum bókum hins gamla testamentis. Þar skiptast einatt á örvæntingarfullar skoðanir á lífinu og breytilegleikanum, vizku og heimsku, dularfullum vegum forsjónarinnar, og einstöku snillyrði, t. a. m.:

„Hugsa þú til skaparans á æskudögum þínum, fyr en hinir vondu dagar koma, og þau árin, sem þú munt segja um: Mjer líka þau ekki“. 12. k. 1. v.

„Eins og þú veizt ekki veg vindarins, nje myndun líkamans í móðurlífi, eins getur þú ekki þekkt verk guðs, sem allt gjörir“. 11. k. 5. v.

„Gleð þú þig, æskumaður, við aldur þinn, og seð þú löngun hjarta þíns; en vittu þó, að guð mun krefja þig til reikningsskapar fyrir sjerhvert verk þitt“. 11. k. 9. v.

Næsta ritið er Lofkvæði Salómonar, og hefur menn einnig greint á um það. Sumir hafa ætlað, að það væri líkingarfull framsetning af ást guðs á Ísraelingum; aðrir sögðu, að það væri skýring á gæzku Krists við kristinn söfnuð. Seinni alda menn hafa flestir verið á því, að bókin væri safn af tækifærisljóðum, sem tekið væri í tölu hinna helgu bóka, vegna þess, að Salómon hefði verið álitinn höfundur þeirra, jafnvel þó þau væru ekki trúarfræðislegs

efnis eða nein guðræknisbók. Bókin er mikils virði fyrir hvern þann, er leggur stund á hina austurlenzku bókvísi, en aðrir geta ekki skilið hana til fulls eða dæmt um hana til hlítar.

## III.

þessu næst er að yfirvega rit spámannanna; þau eru 16 að tölu, og hafa menn kallað 4 hin fyrstu og lengstu hina 4 stærri spámenn, en hin 12 smærri spámenn. Spámannabækurnar eru allar ritaðar á þremur aðaltímabilum: 722 (Esajas, Hóseas, Amos, Mika, Jónas, Jóel); 588 (Jeremías, Esekíel, Danjel, Óbadja, Nahúm, Habakuk, Sefanias), og 536 (Haggaí, Sakarías, Malakía).

Esajas Amosson spáði á dögum Úsíu (6. k.); hann lýsir mjög skorinort sællífi lýðsins á dögum Jótams (2. k.), ræður Akasi frá samtökum við Assýra (6.—10. k.), og hafði mikið atkvæði á dögum Esekíu. Esajas var því nærri því í hálfa öld leiðtogi þjóðarinnar, og stjórnanda hennar. Rit hans eru að sumu leyti sögurit (36.—39. k. um Esekías), að sumu leyti eru þau ræður hans yfir lýðnum, og boðun refsingar fyrir lesti og skurðgoðatignan Ísraels- og Júda-ríkja, Sýrlands, Assýralands, og fleiri þjóða, og að sumu leyti spámannlegar sjónir. Seinasti partur ritsins (40.—66. k.) lýsir því nákvæmlega, hvernig Kóres taki Babýlon, skurðgoðatigninni verði byggt út úr öllum löndum, og betri og sælli tímar komi yfir þjóðirnar. Að fjöri, afli, háfleygi, fegurð og vönduðu máli er enginn af rithöfundum biflíunnar, sem taki Esaja fram, og fáir, sem jafnast við hann.

Jeremías var af prestaætt, og, ef til vill sonur Hilkíasar æðsta prests. Hann kom fram þegar á dögum Jósías, og var yfir 50 ár vitni að spillingu Gyðinga og bágindum þeirra. Hann átti einatt í baráttu við falsspámenn, sem ásamt prestunum og höfðingjum þjóðarinnar ofsóttu hann; voru þeir opt nærri því búnir að ná lífi hans; rit hans voru brennd, og sjálfur var hann hafður í varðhaldi fyrir þá sök, að hann rjeð

frá heimskulegu og ránglátu stríði. Þess vegna sýndi og sigurvegarinn honum virðingu, þegar Jórsalir voru teknir, og leyfði honum, hvort hann vildi heldur, að fara til Kaldealands, eða vera kyr. En Jeremías kaus heldur, að vera eptir í hinu bágstadda föðurlandi sínu. Skömmu síðar var Gedalja myrtur, og var þá spámaðurinn neyddur til þess, að fara til Egyptalands, og þar hefur hann líklega dáið. Það er því ekki að undra, þó að megnið af ritum hans sje lýsing á svívirðingu aldarinnar og yfirvofandi hegningu bæði yfir Gyðingum og heiðingjum. Má og ritsháttur sýna það og, að þá er gullöld hinna ebresku bókmennta liðin. Jeremías ritaði sorgarljóð yfir Jósías, sem án efa eru týnd, en þar á mót eru til 6 sorgarkvæði hans yfir Jórsölum, og heita þau Harmagrátur Jeremíasar.

Esekíel spámaður var og af prestaætt. Faðir hans, sem var mikils háttar maður, var fluttur til Babýlonar ásamt Jójakin konungi og ýmsum höfðingjum öðrum. Esekíel var þar og með föður sínum, og þar kom hann 5 árum síðar fram, eins og sendiboði Jehóva hjá Gyðingum við Frat. Hann var því samtíða Jeremíasi, og spáir um eyðingu Jórsala, refsar hinum hertekna lýð fyrir lesti og óeirðaranda, stendur á móti falsspámönnunum, sem eggjuðu á upphlaup (13., 14., 19. kap.), og boðar hinum öðrum þjóðum, sem hlökkuðu yfir eyðileggingu Gyðinga, refsingu þá, sem þær eigi í vændum. Stundum bendir hann þeim og á hina fjarlægu sælutíð, sem fyrir þeim liggi, og hefur hann þá einkum til þess samlíkinguna um hina heilögu borg (40.—49. k.). Hann tekur Esajas opt sjer til fyrirmyndar, (1., 12., 17., 31., 37. k.), en jafnast þó hvergi nærri við hann í háfleygi, ritshætti nje máli, en mjög er hann auðugur af líkingum, sjónum, dæmum og ýmsu þess konar.

Danjel var fyrri fluttur til Babýlonar en Esekíel, og var þá barn að aldri. Hann var af háum stigum, og ólst þess vegna upp við hirð konungs. Skaraði hann þar fram

úr öðrum bæði að fegurð og viti, sem og í virðingu fyrir hinum helgu lögum feðra sinna.

Þegar hann þroskaðist, dreymdi Nebúkaðnesar konung draum einn, sem hann gat ekki munað, en heimtaði þó, að vitringar sínir þýddu sjer. Þetta gat enginn nema Danjel. „Konunginn hafði dreymt ógnarlega stóra líkneskju, sem höfuðið á var úr gulli, brjóst og armar úr silfri, kviður og lendar úr eiri, fótleggir úr járni, en fæturnir sjálfir bæði úr járni og leir. Skínandi stóð líkneskjan, og kastaði geislum út frá sjer á alla vegu, þangað til að steinn einn kom fljúgandi, og þó ekki af neinna manna völdum, lenti á fæti hennar, og braut hana niður, þá flaug hún eins og korn fyrir vindinum á sundrungu, og skildi sjer engar menjar eptir á jörðunni. En steinninn varð að fjalli, sem fyllti upp alla jörðina“. Danjel þýddi draum þennan um Babýlonar-, Persa-, Makedóna-, og Rómverja-ríki, sem að lyktum öll saman mundu hverfa fyrir ríki guðs á jörðunni. Danjel var þá gjörður að einum hinum æðsta embættismanni í ríkinu, og hjelt hann þeirri virðingu, jafnvel þó að 3 af vinum hans væri kastað í ofn einn hvítglóanda, fyrir þá sök, að þeir vildu ekki tigna líkneskju konungs. Jehóva sendi mönnunum engil sinn, er hreif þá óskemmda burtu úr loganum. Í öðru sinni dreymdi Nebúkaðnesar trje eitt mikið og frítt, sem guð ljet allt í einu höggva upp, og rjeð Danjel það á þá leið, að konungur myndi um tíma víkja frá stjórninni sökum æðis, er á hann mundi koma. En Belsazar (Labynetus), sem var seinastur allra konunga í Babýlon, boðaði Danjel hertöku borgarinnar og eyðileggingu ríkisins; því sama kveldið og Sýrus tók Babýlon, sat Belsazar að veizlu, og hafði þá hin helgu ker, sem rænd voru úr musteri guðs í Jórsölum, fyrir drykkjuker; sá hann þá hönd eina koma og rita á vegginn þessi ókennilegu orð: MENE MENE TEKEL UPHARSIN. Danjel var sá eini, sem skildi þau, og rjeð hann þau þannig: „Guð hefur fyllt tölu daga þinna; þú ert veginn, og reyndist

of ljettur; þess vegna hefur guð gefið Persum ríki þitt“. Hjá Daríusi konungi (sem Xenophon (Senófon) kallar Cyaxares (Sýaxares) gekk og Danjel næst honum að virðingu. Öfundarmenn hans fengu neytt konung til þess, að kasta honum í ljónagryfju eina, fyrir það hann tignaði Jehóva í banni konungsins. En Jehóva verndaði spámanninn, svo hann gekk óskemmdur burtu daginn eptir úr ljónabælinu (1.—6. kap.).

Frá 7. til 12. kap. segir spámaðurinn frá ýmsum vitrunum, er fyrir hann höfðu borið, og sem engill guðs þýddi honum. Sýna þær allan þráð sögunnar í mörg ár, hörku Epífanesar og dýrð hins komanda ríkis Messía. Bókin, [redacted] að nokkru leyti er rituð á mállýzku Kaldea, er efalaust ekki eptir Danjel einan; þess vegna má og álíta sumt, sem þar er sagt um hann, eins og óvissar sögur hinna síðari alda um spámann Jehóva.

Hinn fyrsti af hinum smærri spámönnum, Hóseas, var uppi í Ísraelsríki um sama leyti og Esajas í Júda ríki, eða á seinustu stjórnarárum Jeróbóams hins annars, og þangað til Salmanassar eyðilagði ríkið. Rit hans er því varla annað en hegningarræður um lesti þjóðarinnar, hörku stjórnandanna, sællífi og skurðgoðatignan, og sýna jafnframt eymd lýðsins og hin blóðugu upphlaup.

Hinn næsti spámaður, Jóel, er, ef til vill, elztur allra þeirra spámanna, sem vjer höfum nokkurt rit eptir. Hann virðist að hafa verið í Júdaríki, og málið er svo hreint hjá honum, að það lítur út fyrir að vera frá dögum Esekía, eða jafnvel eldra. Jóel segir frá þjáningu einni, sem landið þoldi, af engisprettum, eins og opt bar við á austurlöndum, og má vel vera, að það sje að eins líking um Assýra. Hann hvetur lýðinn til þess, að gjöra bót og betran og spáir um hinn komandi tíma, „þegar anda guðs verði hellt yfir sonu landsins og dætur, og fjandmenn Gyðinga komi saman í Jósafatsdal, til þess að þola þar dóm og hegningu“.

Amos var hvorki upp alinn nje fræddur til spámanns-

embættis, nje af spámannaætt. En á dögum Jeróbóams hins 2., og um sama leyti og Hóseas var uppi, fór hann frá hirðastarfi sínu, er hann hafði þangað til haft á hendi, og tók að refsa lýðnum og höfðingjunum fyrir lesti þeirra. Hann var fæddur í eyðimörkum Júdeu, skammt frá Jórsölum. Hann gekk að starfa sínum með hug og dug, og refsaði harðlega fyrir skurðgoðadýrkanina jafnvel í Betel, og fyrir guðleysi lýðsins, svo að prestarnir komu því til leiðar, að hann var ófsóttur, eins og uppreistarmaður. Sagan segir, að hann hafi og á endanum liðið píslarvættisdauða fyrir starfa sinn, en það verður þó ekki sagt með vissu. Fullur af afli og ákafa boðar hann fyrst Júdaríki og ýmsum fleiri þjóðum hegningu, þar næst segir hann fyrir herleiðingu Ísraelinga til ókunnra landa, og loksins talar hann um hina ókomnu sælutíma.

Óbadía virðist að hafa verið uppi um sama leyti og Jeremías; því eins og Jeremías (47. k.) finnur hann að fögnuði Edómsmanna yfir eyðileggingu Jórsala, og boðar þeim hegningu, og það með, að þeir muni síðar komast undir veldi Ísraelinga, sem muni rjetta við aptur á sínum tíma.

Jehóva skipaði Jónasi spámanni, að boða innbúum Níníveborgar eyðileggingu sína. En Jónas vildi komast hjá þeirri för og strauk á skip, sem ætlaði að fara til Tarsis (Spánar). Laust þá á fjarskalegu stórviðri, svo að skipinu lá við broti. Formaðurinn gekk þá til Jónasar, þar sem hann lá og svaf, og skoraði á hann, að biðja þann guð, sem hann tignaði, um hjálp. En er veðrinu slotar ekki að heldur, varpa þeir hlutkesti um, hver skipverja það sje, sem guðirnir væru svo reiðir, og hluturinn lendir á Jónasi. Jónas segir þeim þá upp alla sögu, og ræður þeim til að varpa sjer fyrir borð. Þeir gjörðu það þó ekki fyr en í síðustu lög, og báðu guð jafnframt að láta sig ekki gjalda slíkra örþrifsráða, ef þeir hefðu ekki með því breytt eptir vilja hans. Undir eins og spámaðurinn kom útbyrðis, var þar fyrir hvalfiskur einn, sem gleypti hann, og jafnskjótt slotaði óveðrinu. Í 3 daga og 3

nætur var Jónas í kviði hvalfiskjarins, en þá ljet Jehóva hann kasta honum á land upp, og skipaði honum að nýju, að fara til Níníveborgar. Spámaðurinn fór nú, og boðaði hinni miklu borg, að eptir 40 daga hefði Jehóva ásett sjer, að eyðileggja hana. Við þetta skelfdust borgarmenn, og auðmýktu sig fyrir guði. Konungurinn sjálfur klæddist í iðrunarbúning og bað guð að þyrma sjer og borginni. Jehóva heyrði bænir þeirra, og ljet ekki verða af ógnun sinni. Þá möglaði spámaðurinn og segir: „Er það nú ekki komið fram, sem mig hefur lengi grunað? Þess vegna flúði jeg, að jeg vissi gjörla, hversu þú ert umburðarsamur og náðugur, svo að þú lætur ógnanir þínar ekki koma fram. Láttu mig þess vegna deyja; því dauðinn er mjer kærari en lífið!“ Þannig baðst Jónas fyrir, en á meðan ljet Jehóva spretta upp af jörðunni trje eitt (kíkajon, eins konar grastegund, eða, eins og sumir halda, undra-viðinn, PALMA CHRISTI), og undir blöðum þess hlífði Jónas sjer fyrir sólarhitanum fyrir utan borgina, þar sem hann með óþolinmæði og gremju beið eptir, hvernig fara mundi. Jónasi þótti vænt um viðinn; þá ljet Jehóva orma naga rætur hans, svo hann var þornaður upp daginn eptir. Sólin kom upp, og það var blæjalogn. Hitinn var spámanninum óþolandi, og nú bað hann guð innilega um, að lofa sjer að deyja. „Hvað er þetta?“ segir Jehóva þá; „þú tekur þjer nærri visnan eins viðarrunna, sem þú hafðir alls ekkert haft fyrir að rækta, og spratt upp annan daginn, en visnaði hinn. En þar á móti ætlastu til, að jeg láti mjer ekkert annt um hina miklu Níníveborg, þar sem að eru 12 sinnum 10,000 manna, sem ekki vita upp nje niður, heldur eru skynlaus dýr!“ Margir hafa efast um, að þessi Jónas Amítaisson væri sá Jónas, sem nefndur er í 2. Kgb. 14. k., 25. v., sem skipaði Jeróbóam konungi hinum 2., að heyja stríð við Sýrlendinga, því þeir hafa ætlað, að sagan um Jónas spámann væri að sínu leyti eins og Hjob, ekki annað [redacted] skáldskapur, þar sem miskunsemi guðs væri sýnd í, og bæði spámenn-

irnir og lýðurinn varaður við, að hlakka yfir refsingu heiðingjanna.

Mikka var uppi samtíða Esajas, Amosi og Hósea, og því ekki sá spámaður, sem um er talað í sögu Akabs. Hann lýsir spillingu aldarinnar, en tefur þó helzt við fyrirheitið um betri tíma síðar meir, er koma eigi á dögum konungs eins af Davíðsætt.

það er óvíst, um hvert leyti hinir tveir næstu spámenn hafa verið uppi. þó virðist Nahúm að hafa lifað um sama leyti og Esekíel, og tala um tortýningu Assýra og eyðingu Nínívehorgar. Habakuk virðist þar á móti að hafa lifað um sama leyti og Jeremías, og spáð um endalok Júdaríkis og refsingu Kaldea. Háfleygi hans, afl og andríki hlýtur að vinna undran sjerhvers lesanda.

Sefanías var uppi á dögum Jósía, og var að ætlan manna kominn af Esekía konungi, eins og menn halda að Esajas hafi átt að rekja ætt sína til Jóasar Akasíassonar. Sefanías boðar nálægan enda Júdaríkis vegna guðleysis og ósvífni þjóðarinnar, en jafnframt gefur hann og von um betri tíma síðar.

Haggaí og Sakarías voru eins og áður er sýnt, uppi á dögum Daríusar Hystaspis, og hvetja þeir lýðinn einkum til þess, að byggja upp aptur musterið. Maleakí, sem lifði nokkru seinna, refsar fyrir ódyggðir aldar sinnar, kæruleysi og vanhögun á hinni ytri guðsþjónustu, og fyrir hjónabönd við heiðingja.

Spámennirnir hjeldu því á fram, sem Móses hafði byrjað, og skilnaðarræða hans (5. Mb. 28.—30. k.) var fyrirmynd þeirra. þess vegna er og talað um spámenn þegar á dögum dómaranna; þó er það í raun og veru ekki fyr en eptir daga Samúels, að þeir koma fram, og hafa ærin áhrif á æðri og lægri stjetta menn með ræðum sínum, og á eptirkomendur sína með ritum. Spámannaskólar þeir, sem Samúel stofnaði, hafa án efa hjálpað töluvert til þess, að safna

saman, vekja og laga gáfur þær, sem dulizt höfðu áður, jafnvel þó að enginn skóli gæti gjört menn að spámönnum, þ. e. að mönnum, sem með guðlegri andagipt töluðu í nafni Jehóva, og sögðu fyrir óorðna hluti, og það sje einnig víst, að rit þeirra eru ekki ávextir mannlegrar menntunar. Gyðingar voru aðgreindir frá öðrum þjóðum, og tóku því lengi framan af engum töluverðum framförum í menntan, og opt könnuðust þeir ekki við þá menntan, sem þeir höfðu fengið, fyr en bágindi og neyð þrýsti þeim til þess. Ekki höfðu þeir heldur neina stjettagreining, eins og Persar og Egyptar, svo að nokkrir vissir flokkar hefðu vísindi og menntan eins og eign út af fyrir sig. Levísniðjar urðu aldrei það, sem Móses hafði ætlað þeim að verða, og frá því á dögum Samúels komu einstakir menn fram, sem guð hafði valið fyrir sendiboða sína, án tillits til, hverra ætta þeir væru. Optast nær komu þessir menn upp, þegar ástand lýðsins var í öllu tilliti sem vesalast. Amos hefur því varla verið sá eini, sem eptir innri köllun, og „án alls undirbúnings í skóla“, sleppti smalaprikinu og gjörðist bæði spámaður og rithöfundur. Þess vegna sögðust og spámennirnir sjálfir vera sendimenn Jehóva, fylltir af heilögum anda, og sönnuðu það bæði með spádómum og kraptaverkum, auk þess sem líferni þeirra og kenningaraðferð vitnaði um sjerstaka andagipt. Meðal þeirra spámanna, sem vjer höfum engin rit eptir eru þeir Elías og Elísa kunnugastir sökum verka sinna. Elías lifði á dögum Akabs, og varð að flýja fyrir Jesabel til Feníkalands; þar hafðist hann við eitt ár í hallæri miklu hjá ekkju einni í Sarepta; „því svo lengi sem spámaðurinn var þar, þraut mjölið aldrei í mjölílátinu nje viðsmjörið í krúsinni“. Og þegar sonur hennar andaðist, þá gaf spámaðurinn honum með aðstoð guðs lífið aptur. Þegar Elías síðan með fórn einni var búinn að sýna Akab konungi, að Jehóva væri hinn eini sanni guð, og varð þó að flýja fyrir ofsókn Jesabelar, þá varð hann svo angraður, að hann bað sjer dauða. En á

meðan hann svaf, sendi Jehóva engil sinn til hans með brauð og vatn, svo hann hressti sig, og gekk um eyðimörkina til fjallsins Hóreb. Þar fór hann inn í helli einn, og þegar drottinn spurði í næturkyrðinni, hvað hann hefði þar að starfa, þá svaraði hann: „Jeg hef einatt verið dyggur þjónn drottins Sebaots, en nú eru þeir búnir að rífa ölturu þín niður, og drepa spámenn þína með sverði; jeg er orðinn einn eptir, og þeir sitja um mig, til þess að taka mig af lífi“. — Þá skipaði Jehóva honum, að fara út úr hellinum og litast um. Elías sá þá, hvar Jehóva gekk, og bálvindur mikill fór fyrir honum, sem velti um fjöllunum og muldi sundur klettana; en Jehóva var ekki í storminum. Þar næst kom jarðskjálfti, og hristi landið, en Jehóva var ekki í jarðskjálftanum, nje í eldinum, sem á eptir honum kom. Loksins heyrði spámaðurinn hægt hljóð, svipað hægum vindi; þá byrgði hann fyrir andlit sjer, og heyrði rödd Jehóva, sem mælti, að hann skyldi einhvern tíma smyrja Hasael fyrir konung yfir Sýrlandi, en Jehú fyrir konung yfir Ísraelsríki, og Elísa til spámannsembættisins eptir sig. Jehóva sagði honum og, að enn væru 7000 Ísraelinga, sem ekki hefðu kropið fyrir Baal (1. Kgb. 17.—19. kap.). Frá æfilokum Elíasar er það sagt í 2. Kgb. 2. kap., að hann hafi verið numinn upp til himins á skínandi hestum og vagni í hvirfilvindi, að tveir hlutir af anda hans hafi hvílt yfir lærisveini hans, Elísa, sem einnig fyllti viðsmjörskrús ekkju nokkurrar, lífgaði son hennar, og læknaði Sýrlendinginn Naaman af holdsveiki. Elísa starfaði landi og lýð til margs konar þarfa á dögum Jórams; hann gjörði Jehú að konungi, og hjalpaði hinum unga Jóasi til þess, að sigrast á Sýrlendingum. Vjer þurfum því ekki að undrast yfir því, þó að konungarnir leituðu ráða hjá þessum mönnum, og kölluðu þá feður, eða þó að þjóðin tæki það fyrir rödd guðs, sem þeir töluðu. Þannig sundraðist her Rehabeams eptir boði Sjemaju, og þegar Feka á dögum Akabs var búinn að ræna lönd Júdaríkis, og fór

með fjölda hertekinna manna og ærið herfang til Samaríu, þá kom fram spámaðurinn Óbadía, og skipaði honum, að senda bræður sína heim aptur, og var það tafarlaust gjört með ráði allra herforingjanna.

Samt sem áður ber þó sagan það með sjer, hversu lítið spámennirnir gátu með ræðum sínum og starfa á orkað, til þess að hjálpa við hinum þverbrotna lýð. Þegar hin löngu fyrirfram boðaða óhamingja var í fullum mæli komin fram á lýðnum, og fyrirheitin um að Jehóva vildi aptur miskuna sig yfir þjóð sína, sem hann hafði að eins um tíma tekið af hendina, höfðu rætzt, þá er það virtist hvað ólíklegast fyrir manna sjónum, þá fyrst rótfestist sannfæringin um guðdómleika trúarbragðanna og hinna heilögu rita til fulls og alls í hjörtum þjóðarinnar. Og þó að ávextir hennar væru mjög strjálir og litlir, þá gat nú hvorki meðlæti nje mótlæti öldungis kæft þá niður.

. . .

Í herleiðingunni til Babýlonar fór málinu þegar að hnigna. En þó urðu enn meiri brögð að því á dögum hinna persnesku landstjóra, og á endanum varð hin aramska mállýzka svo rík hjá Gyðingum, að lýðurinn skildi ekki hin fornu rit, nema þau væru þýdd fyrir honum, og í staðinn fyrir spámenn, sem ekki virðast að hafa verið til seinni en Maleakí, komu nú upp ritningfróðir menn, sem lásu upp og þýddu hinar heilögu bækur fyrir lýðnum í samkundunum (eins konar bænhús eða kirkjur hjá Gyðingum). Því meira sem álit hinna helgu bóka óx, og því meira sem á skorti, að alþýða skildi þær, því eðlilegra var, að þær aðgreindust frá öllum öðrum ritum og yrðu teknar í safn út af fyrir sig. Bækur þær, sem nú voru skráðar, voru sumpart ritaðar í Palestínu (Gyðingalandi) á ebresku, sumpart í Egyptalandi á grísku, og voru þá eins konar eptirmynd hinna fyrri bóka; flestallar báru þær á sjer keim af útlendri menntun. Jafnvel fyrir herleið-

inguna hefur verið til bókasafn í musterinu. Móses geymdi lögin í sáttmálsörkinni; Jósúa ljet leggja ræðu sína í tjaldbúðina til vitnisburðar fyrir eptirkomendurna, og þar lagði Samúel konungalögin. Oss er ekki kunnugt um, hvað í bókasafni þessu hefur verið, og að líkindum hefur það týnzt og farizt, þegar óvinirnir brenndu upp musterið, jafnvel þó það sje í frásögum haft, að Jeremías hafi bjargað bókunum á yfirnáttúrlegan hátt. Það er því eðlilegt, að hinn ritningfróði Esras og Nehemías hafi aptur farið að safna í hið nýja musteri öllum þeim leifum, sem þeir fundu eptir af hinum heilögu ritum (2. Makkab. 2. k., 13. v.). En safn þetta gat ekki orðið fullkomið, eins og það var eða hefði mátt vera fyrir herleiðinguna. Þess vegna eru nú og að eins til ágrip af sögu Gyðinga; þar að auki getur og sumt hafa farizt á dögum Epífanesar, þegar þjóðin átti í sem mestum bágindum. Ekki getum vjer heldur sagt það með vissu, nær safninu hafi verið álitið lokið; þó hefur það án alls efa ekki verið seinna en hálfri annari öld (150) fyrir fæðingu Krists. Bækur þær, er seinna voru skráðar, voru helzt teknar upp í safn það á grísku, sem kallað var sjötíumannaþýðing (Septuaginta), af því 70 menn hefðu átt að vinna að útleggingunni. Þó voru hinar eldri og yngri bækur aðgreindar með því, að hinar eldri voru kallaðar kanóniskar (κανών, regla, löggilt registur yfir bækur þær, sem lesa mátti í samkundunum og á samkomum kristinna manna), en hinar yngri apokrýfiskar (ἀποκρύπτω, jeg skýli, leyni; ἀπόκρυφος var fyrst haft um þær bækur, sem þóttu of óskiljanlegar til þess, að mega vera lesnar í samkundunum, t. a. m. eins og Lofkvæðið, en seinna og um þær bækur, sem ekki mátti lesa á mannfundum, vegna þess að þær þóttu ekki vera heilagar). Í vorri biflíuútleggingu eru og sumar apokrýfisku bækurnar, og eru þessar hinar helztu þeirra, sem vegna efnis síns ættu að vera hverjum manni kunnar:

Tobíubók segir frá guðhræddu og góðu heimili nokkru,

sem átti að hafa verið á dögum þeirra Salmanassars og Sankeribs. Tobías var af Naftalíætt, segir sagan, og tók ekki þátt í skurðgoðadýrkan Ísraelinga, en gætti vandlega Mósislaga. Ásamt öðrum löndum sínum var hann fluttur til Assýralands. Þar komst hann í vináttu við Salmanassar, gjörðist kaupmaður, og græddi fje mikið. Þá fjekk hann einu sinni vini sínum einum í Medalandi 10 talenta til geymslu. Nú kom Sankerib til ríkis, og eptir það hann hafði farið sneypuförina til Júdeu, hefndist hann opt á Gyðingum þeim, er hann náði til, og ljet þá drepa þá niður eins og fjenað. Tobías varð og fyrir heipt hans og grimmd. Hann hafði sumsje tekið sjer þá reglu, að jarða lík landa sinna, er hann gat komizt yfir. Konungur frjetti það, og ætlar þegar að láta drepa Tobíu, en hann komst undan á flótta, og tók þá konungur undir sig allt fje hans. Skömmu seinna var Sankerib drepinn, og var þá Tobíu gefið leyfi til þess, að fara heim til sín aptur, en þar beið hans enn þyngri mæða.

Það var á hvítasunnu, að Tobías bjóst til, að halda veizlu, og sendi son sinn til þess, að bjóða þurfandi bræðrum, er vera kynni að ekki hefðu nægilega björg fyrir sig. En í staðinn fyrir boðsmenn kemur hinn ungi Tobías heim aptur með þá fregn, að Ísraelingur nokkur liggi myrtur á torginu. „Þá fór jeg þegar á stað“, segir Tobías, „áður en jeg hafði neytt nokkurs, og hafði líkið á burtu með mjer, til þess að jarða það undir eins og sólsetur væri komið. Síðan neytti jeg matar míns sorgbitinn, og minntist þess, er Amos spámaður hafði mælt:

„Yðar hátíðir skulu breytast í sorg, og yðar gleði í grát“.

Tobías jarðaði síðan líkið, og gjörðu nágrannar hans gis að honum fyrir það. Varð hann þá óhreinn eptir lögum Mósis, og svaf því um nóttina fyrir utan hús sitt á bersvæði. En þá fjell eitthvað í augu honum sofandi, og varð hann blindur af því. Fátækur og hjálparlaus varð nú Tobías að lifa af því, er kona hans gat unnið sjer inn, og því, er frænd-

ur hans gáfu honum. Hann bað því guð á endanum um, að ljetta af sjer byrði lífs þess, er væri honum og öðrum til þyngsla og mæðu. Um sama leyti bað og Gyðingakona ein í Medalandi, Sara að nafni, að guð vildi gjöra enda á þrautum sínum. Hún hafði sumsje 7 sinnum verið manni lofuð, en vondur andi, sem Asmódeus hjet, hafði drepið alla unnusta hennar brúðkaupskveldið. Bænir þessara tveggja raunamanna stigu nú upp fyrir hásæti guðs, og hann sendi Rafael engil til þess, að hjálpa þeim. Skömmu seinna rjeð hinn gamli Tobías það af, að senda son sinn til að sækja peninga þá, sem hann átti geymda hjá vini sínum á Medalandi. Rafael kom þá eins og sveitamaður til Tobíasar hins yngra, og tókst á hendur eptir bón hans, að fara með honum fyrir víst kaup. Móðir Tobíasar varð mjög sorgbitinn yfir för hans, og óskaði, að maðurinn sinn hefði aldrei átt fje þetta, sem nú svipti þau ellistoð þeirra, ef til vildi, að fullu og öllu. Hinn gamli Tobías huggaði hana, og bað hana að vera óhrædda; því sonur þeirra mundi koma heim aptur heill og hraustur; því honum fylgdi góður engill".

Nú víkur sögunni til ferðamannanna, þar sem þeir eru á leiðinni til Ekbatönu í Medalandi. Þá bar svo til eitt kveld, þegar Tobías ætlaði að baða sig í fljótinu Tígris, að þar kemur upp fiskur einn, sem ætlar að granda honum. Engillinn, samferðamaður hans, býður honum, að taka fiskinn og kasta honum á land upp. Þar næst lætur hann hann taka hjarta, lifur og gall fiskjarins, og hafa það með sjer. Engillinn fór síðan með Tobíasi á heimili Söru, og fjekk hann ást á henni og bað hennar, og er hann hafði fengið samþykki foreldra hennar, var andinn rekinn á burtu frá henni með því, að hjarta og lifur fiskjarins var lagt á glæður og brennt eins og reykelsi. Engillinn batt nú Asmódeus, og leyfði honum að hverfa burtu til Egyptalands, en sjálfur fór hann, og sótti fje Tobíasar, hin 10 talenta, til mannsins á Medalandi. Þegar hann kom aptur, hjelt Tobías brúðkaup sitt. Foreldrar hans væntu hans

með áhyggju og ótta heim aptur. Hinn aldraði Tobías hjelt, að hann mundi ekki fá peningana, og Anna móðir hans óttaðist fyrir, að hann mundi vera dauður; hún gekk á hverjum degi út á veginn, til þess að vita, hvort hún sæi ekki til hans, og hún var svo sorgbitin, að hún neytti hvorki svefns nje matar. En nú fór hinn ungi Tobías á stað frá tengdaforeldrum sínum, og hafði með sjer konu sína, margt fólk og mikinn flutning; því þau voru auðug, og gáfu honum helming af öllu, sem þau áttu. En þegar hann nálgaðist Nínívéborg, þá fór hann og samferðamaður hans, Rafael, á undan, og höfðu með sjer hund einn, sem einatt hafði fylgt þeim. Anna sat að vana sínum úti á veginum, og þegar hún sjer son sinn koma, hleypur hún til manns síns, til þess að gleðja hann með fregninni um það; því næst hleypur hún á móti syni sínum og fellur grátandi um háls honum. Hinn aldraði faðir vildi og hlaupa á móti honum, en hann rasar um eitthvað, og dettur í faðm sonarins, sem eptir boði engilsins tafarlaust smyr augu hans með galli fiskjarins. Er þá eins og hreystur falli af augum hins blinda, og eptir 8 ára myrkur sjer hinn guðhræddi maður nú aptur konu sína og son. Var þá brúðkaup Tobíu aptur haldið í föðurgarði hans með miklum fögnuði í sjö daga. Hinum góða samferðamanni er nú boðin að launum allur helmingur af eignum þeirra, en hann segir þeim þá, „að hann sje Rafael, einn af hinum 7 heilögu englum guðs, sem beri fram bænir hinna rjettlátu og standi fyrir hásæti hins heilaga“. Engillinn bauð þeim, að rita upp sögu þessa, og hvarf síðan á burtu. Eptir þetta lifði Tobías enn í 92 ár, og varð þannig alls 158 ára gamall. En Tobías hinn yngri fór búferlum til Medalands, og lifði um það leyti, sem Nebúkaðnesar konungur tók Babýlon og eyðilagði hana.

Saga þessi, er virðist að vera byggð á einhverjum sönnum viðburði, ber auðsjáanlega með sjer hugmyndir síðari alda og skáldskap þeirra. Vjer vitum hvorki, hver hana hefur skráð nje hve nær

hún er rituð. En frásagan er svo blátt áfram og viðkvæm, efnið svo blítt og guðræknislegt, að Tobíasbók getur ekki annað en þótt merkileg og mikils-virði.

Júditsbók, sem þá er næst í röðinni, er að vísu miklu minna virði en Tobíasbók. Hún segir frá herferð Nebúkaðnesar, Assýrakonungs, til Meðalands, og þegar Gyðingar veittu honum ekki lið eptir bón hans, eins og nágrannar þeirra, þá sendi hann síðan Hólófernes herforingja sinn á móti þeim með óvígan her. Hólófernes kom, og allt landið gekk á hönd honum, nema Júdea, en lið sigurvegarans óx einatt, eins og skriðan á för sinni.

Gyðingaborgin Betúlía rjeðst í, að standa á móti Hólófernesi. Sezt hann þá um borgina, og er hungrið þrýsti mjög að borgarbúum, heimta þeir, að hliðunum sje lokið upp fyrir óvinahernum, en þá kemur hin guðhrædda ekkja Júdit til sögunnar og frelsar þá. Ókvíðin gengur hún á fund Hólófernesar, og með fegurð sinni og skynsamlegum fortölum fær hún hann til þess, að bíða með herhlaup á borgina, þangað til að synd ein, er hún sagði að borgarmenn þegar mundu drýgja, vissaði hann enn betur um hjálp Jehóva, til að sigra þá. En um þetta leyti fær hún tækifæri til þess, að myrða Hólófernes í ölæði, og komst með launung inn í borgina aptur. Síðan eggjar hún borgarmenn til áhlaups á óvinina, sem nú voru höfðingjalausir; trufluðust þeir þegar, tóku á flótta, og biðu mikinn ósigur. Það er óvíst, hversu mikill sögulegur sannleiki hjer er fólginn í, og það því heldur, sem menn vita ekki, hve nær, hvar eða hver bókina hefur ritað.

Spekinnarbók er heimspekilegt guðræknisrit, sem eptir fyrirmynd Salómonar segir mjög fagurlega frá kostum spekinnar og eiginlegleikum, tekur fyrir og yfirvegar ýms trúarsannindi, og lýsir þau og skýrir með bendingum til Gyðingasögu. Bók þessi hefur á sjer seinni alda keim og útlent menntunarsnið, og er að öllum líkindum rituð af ein-

hverjum Gyðingi í Alexandersborg, sem vel hefur þekkt til grískra og austurlenzkra vísinda.

Síraksbók- (Jesú-Síraksssonar-bók) er þá næsta ritið, sem einnig er heimspekilegt guðræknisrit, og af því hún er eins konar safn af málsgreinum og stuttum kjarnagreinum, er hún og mjög áþekk orðskviðum Salómonar, og geymir hún í sjer mörg fögur og djúp sannindi. Jesús Síraksson reit bók þessa á ebresku, hjer um bil 180 árum f. Kr., en sonarsonur hans á Egyptalandi sneri henni síðan á grísku, og það er útlegging hans, sem vjer höfum enn til.

Makkabeabækurnar 2 hafa í sjer ágæta kafla úr sögu þeirrar aldar, sem þær eru ritaðar á. Síðari bókin dvelur helzt við frásöguna um grimmd Epífanesar, og lýsir hún henni með mikilli viðhöfn í málinu, og afreksverkum Júdasar Makkabea. Fyrri bókin er aptur sögulegar rituð, og segir hún frá frá frelsun Gyðinga frá yfirráðum Sýrlendinga, og frá Makkabeum allt fram á daga Hyrkanusar. Bækur þessar eru án efa sín eptir hvorn mann, sem báðir eru oss ókunnir. Að líkindum hafa þeir verið uppi skömmu fyrir fæðingu Krists.

Baruksbók er þá hið næsta rit í vorri biflíu. Hún á að vera eptir Baruk, sem fylgdi Jeremía spámanni, og skrásetti orð hans og athafnir, en það er líklega ekki satt. Sama er og að segja um greinir viðvíkjandi Danjel, þar sem auk annars er sagt frá því, hvernig spámaðurinn hafi sýnt Sýrusi konungi brögð prestanna í fórninni, sem skurðgoðinu Bel var fram borin. Prestarnir tóku sumsje alla fórnina frá goðinu á næturnar. Enn fremur segja greinir þessar frá því, að spámaðurinn hafi átt að drepa höggorm þann með fáeinum kökum, sem Babýlonar dýrkuðu, og frá því, hvernig honum á unga aldri tókst, að frelsa hina saklausu Súsönnu, sem 2 af höfðingjum lýðsins ákærðu, með því að hann spurði þá hvern út af fyrir sig um ýms atvik í málinu, og urðu þeir þá öldungis tvísaga.

þegar fræðimennirnir voru farnir að þýða hin helgu rit, og útlendar hugmyndir, persneskar og grískar, tóku að blandast saman við hinar eldri, þjóðlegu, þá var ekki að undra, þó ýmsir flokkar kæmu upp, sem með tímanum fjrrð-ust allt af meira og meira hverjir aðra. Á dögum Hyrkanusar voru þegar uppi tveir slíkir flokkar: Farísear og Saddúsear. Farísear hjengu mjög bókstaflega við lögmál Mósis, og voru eins og fráskildir og hafnir upp yfir alþýðu manna; þess vegna voru þeir og kallaðir Farísear (ɔ: hinir fráskildu). Þeir voru svo óvandir í strangleika sínum, að þeir báru eins mikla lotningu fyrir smáviðbótum þeim við lögmálið, sem að eins lifðu í munnmælum, eins og hinu ritaða lögmáli. Þó gengu þeir harðast að uppfyllingu hinna ytri siða, t. a. m. að fasta og biðja á vissum tímum, hreinsa sig og ganga ekki nema vissan skrefafjölda á sabbatsdegi. Þar á móti virðist siðafræði þeirra að hafa verið bæði hárug og óvönd; þannig mátti t. a. m. brjóta þann eið, sem menn sóru við musterið, en ekki þann, er svarinn var við gull þess. Ef sonurinn gaf musterinu gjöf nokkra, þá mátti hann gjarna láta foreldra sína svelta í hel, því þá álitu Farísear að hann hefði gefið musterinu það, sem þau hefðu annars átt að hafa til viðurværis, o s. frv. Samt sem áður voru þó Farísear í ærnum metum hjá alþýðunni sökum bókvísi þeirra og skynhelgi; flokkur þeirra var og fjölmennur mjög og voldugur. Það, sem þá greindi helzt á í við Saddúsea, var trúin á óbreytanlegum forlögum og upprisu líkamans á efsta degi, þá er góðir menn skyldu fá laun fyrir dyggð sína í skauti Abrahams, en vondir menn þola hegningu fyrir lesti sína í Gehenna; svo og greindi þá á í kenningunni um góða og vonda anda. Hinir vondu andar áttu að vera orsök allra líkamlegra og andlegra meina, einkum allra sjúkleika, t. a. m. visnunar, æðis, o. s. frv., sem voru álitnir eins og afleiðing af færri eða fleiri óhreinum (ɔ: illum) öndum, sem í manni væru.

Saðdúsear virðast að hafa neitað öllu þessu, og sömuleiðis munnmælunum (sögusögninni = tradition); þeir brýndu einkum fyrir mönnum siðafræðina. En vegna þess þeir trúðu ekki á laun nje hegningu í öðru lífi, og, ef til vill, ekki á forsjón, þá lítur svo út, eins og að siðafræði þeirra hafi annaðhvort verið eins konar kænleg stjórnarhyggindi, eða þeir hafi krafizt þess, að menn stunduðu dyggðina sjálfrar hennar vegna, sem þeir hafa þó tæplega sýnt í verkinu. Nafn þeirra draga menn annars af ebresku orði, sem þýðir: hann er rjettlátur, vegna þess að dyggð eða rjettlæti var aðalkrafa þeirra.

Essear voru og flokkur út af fyrir sig, en miklu fámennari en hvor hinna. Einkenni þeirra var ráðvendni og siðgæði, byggt á innbyrðis-kærleika á guði og mönnum, sem hvervetna átti að lýsa sjer í verkum þeirra. Þar á móti voru þeir mjög hneigðir til ýmsra óskiljanlegra og dularfullra ímyndana, og höfðust einkum við á óbyggðum úti, þar sem ekkert gat truflað þá. Þeir áttu allt í sameign, og kvæntust ekki, og reglum sínum fylgdu þeir nákvæmlega. Þerapeiftarnir á Egyptalandi, sem seinna urðu fyrirmynd hinna kristnu manna, voru í mörgu svipaðir Esseum.

Það er óvíst, hve nær flokkar þessir hafi fyrst hafizt eða komið fram, eins og aðgreindir flokkar. Að öllum líkindum hafa þeir ekki myndazt mjög skjótlega, heldur að eins smátt og smátt, og í fyrstunni hafa þeir líklega verið að eins misstrangir í þýðingu laganna, misfrjálsir í hugsunum, og mismiklir siðafræðingar eða siðavandlætarar. En að lokunum urðu þeir að mestu leyti skinhelgir hræsnarar, taumlausir í ímyndunum sínum, og trúarvinglsmenn.

En þrátt fyrir allan þennan mismun virðast þó flokkarnir, eins og þjóðin öll, að hafa verið hver öðrum líkir í eptirvæntingu Messías, og geta menn með tillití til uppruna og útbreiðslu þeirrar vonar sjeð það eins og í öðru,

„að vegir guðs eru órannsakanlegir“. Þegar fyrir daga Mósis er það orðið að vissu í huga þjóðarinnar, „að af Gyðingum eigi allar þjóðir jarðarinnar að hljóta blessun“, og löggjafinn styrkir þá vissu þráfaldlega, sem einnig kemur optar en einu sinni fram í sálmum Davíðs. Hin síðasta ræða Mósis var fyrirmynd spámannanna, og boða þeir ekki einungis hegninguna, sem vofi yfir lýðnum, og flutning hennar til annara landa, heldur og að þjóð Jehóva muni ekki verða kastað burtu með öllu, því hún eigi eptir reynslu sína og hreinsun að rísa upp aptur í meiri dýrð, en nokkurn tíma áður, þegar allar þjóðir sameinist í guðsríki á jörðunni, og tigni Jehóva á hinum heilaga stað. Guð ljet Natan birta það loforð sitt, að Davíðsætt skyldi ríkja að eilífu, og að konungssonur einn frá Betlehem af ætt Davíðs skyldi stofna hið komanda ríki guðs. „Uppruni hans skyldi vera frá eilífð“ (Mikk. 5., 1.), og veldi hans verða sem guðs. Þetta heit ítrekaði Jehóva opt, og ásamt þessum hugmyndum koma fyrir mörg einstök orðatiltæki og líkingar, sem gátu og áttu að heimfærast til þessa frelsara. Er hann þar sumpart skoðaður eins og sameinaður guði, sumpart eins og líðandi, og eptir margar hörmungar sigrandi. Af þessu má sjá, hversu ætlanir manna og ímyndanir um hinn komandi Messías gátu verið eins sundurleitar og þær voru. Eptir herleiðinguna til Babýlonar höfðu Gyðingar þá stöðugu von, að eins og þrautirnar, sem spámennirnir hefðu sagt fyrir, væru komnar fram, eins yrðu og fagnaðarheit þeirra bráðum að uppfyllast. En hvorki var Serúbabel nje Nehemías hinn fyrirheitni frelsari, og því síður neinn hinna annara höfðingja lýðsins. Því meira sem Sýrlendingar og síðan Rómverjar krepptu að þjóðinni, því sterkari varð og löngun hennar og von um frelsunina, og það því heldur, sem hún var bæði drambsöm og hefndarfús.

Eptir að Gyðingar komu heim aptur úr herleiðingunni, fjellu þeir ekki framar til skurðgoðatignunar, og þóttust því þeim mun vissari um, að ósk sín mundi bráðum rætast. En

vegna þess að margir lestir drottnuðu þó enn á meðal þeirra. hjeldu þeir að einhver hinna fornu spámanna, t. a. m. Elías eða Jeremías, mundu koma og búa þjóðina undir komu Messías. þessa ætlun sína byggðu Gyðingar á ýmsum orðatiltækjum hinna helgu rita sinna. Gyðingar vonuðu nú allir eptir Messías, og sú von breiddist jafnvel út á meðal heiðingja. En þeir voru án efa mjög fáir, sem höfðu rjettan skilning á fyrirsögn spámannanna um son guðs, er koma skyldi, til þess að losa mannkynið frá yfirráðum syndar og villu, og gefa því aptur frið við guð og sjálft sig, sem það hafði misst. Allur múgurinn vonaði eptir jarðneskum konungi af ætt Davíðs, sem mundi reisa við veldi Davíðs, leggja öll ríki jarðarinnar undir sig, refsa fjandmönnum Jehóva, og neyða allar þjóðir til þess, að koma og tigna hinn eina sanna guð í Jórsölum. Hjá þeim, sem lengra voru komnir í þekkingu og menntun, blandaðist þjóðarhugmynd þessi saman við ímyndanina um heim andanna, eða andaríkið, og því vesalli sem þeim fannst þjóðin vera og aflminni, en óvinurinn voldugri, því skrautlegri gjörði ímyndunaraflið hina tignarlegu komu hins eptirvænta Messías; með óteljandi fjölda engla átti hann að stíga niður frá skýjunum, til þess að dæma þjóðirnar, stofna eilíft ríki á jörðunni, o. s. frv. þannig varð þessi von, sem var jafnheillarík frá upphafi til enda, eins og hver önnur gjöf guðs, þjóðinni sjálfri til fordjörfunar vegna óstýrilætis hennar; því nú ól hún upp í henni þjóðardramb, hefndarfýsi og hatur, og vonin bar enga kærleiksávöxtu hjá Gyðingum.

# IV. kafli.

## Saga hins nýja testamentis.

---

### I. Æfisaga Jesú.

#### 1. tímabil.

*Fæðing Jesú, æska hans, og undirbúningur Jóhannesar.*

Allt það, sem hjer að framan hefur verið sagt frá um mörg hundruð ára, er undirbúningur undir þá viðburði, sem vjer snúum nú að; *því í fyllingu tímans sendi guð son sinn, fæddan af konu.*

Á dögum Heródesar hins mikla var uppi prestur einn í Júdeu, sem hjet Sakkarías; *kona hans hjet Elísabet.* Þau óttuðust bæði guð, og væntu bráðum hins fyrirheitna frelsara. En þau voru nú hnigin á efra aldur, og áttu ekkert barn. Einu sinni ber Sakkaríasi að gegna prestsþjónustunni í Jórsölum, og gengur hann þá inn í helgidóminn, til þess að færa drottni

hina daglegu reykelsisfórn, en lýðurinn baðst fyrir á meðan í forgarðinum. Hann sá þá engil guðs, sem boðaði honum, að kona hans skyldi fæða son þann, er heita skyldi *Jóhannes*, og sem andi guðs skyldi hvíla yfir þegar frá móðurkviði; hann skyldi vera *Nazírei*, og ganga í anda og krapti Elías, til þess að greiða hinum komandi Messías veginn. Sakkarías efaðist um, að engillinn færi með sannindi, og þess vegna boðaði hann honum, að hann skyldi vera mállaus þaðan í frá, og þangað til að spá sín rættist, og það varð og.

Á hinum 6. mánuði, frá því þetta varð, sendi guð engil sinn til *Maríu*, sem var af ætt Davíðs, og lofuð timbursmiðnum *Jósef*, sem einnig var af ætt Davíðs. Engillinn boðaði henni, að hún ætti að fæða son, sem hún skyldi kalla *Jesú* (frelsara); *„hann skyldi vera sonur hins æðsta, og eilíflega sitja á veldisstóli Davíðs“*.

Með fagnaði skundar nú María á fund Elísabetar, frændkonu sinnar, til þess að birta henni þá hamingju, er henni og öllum lýðnum var boðuð. Elísabet tekur með lotningu og gleði á móti móður drottins, og þær lofuðu báðar miskunsemi Jehóva með spámannlegum orðum. En þegar tíminn kom, fæddi Elísabet son, sem hún kallaði Jóhannes. Þá fjekk Sakkarías aptur málið, og hann vegsamaði guð, „sem nú ætlaði

að frelsa lýðinn úr höndum óvina sinna, úr höndum allra þeirra, sem hötuðu hann".

Eptir boði Águstusar Rómverjakeisara ljet Heródes um þessar mundir rita Gyðinga í skatt, og fóru þeir þá hver til síns ættbæjar, til þess að þeir yrðu ritaðir upp eptir ættum. Þessa erindis fóru þau Jósef og María frá *Nazaret* í *Galíleu*, þar sem þau áttu heima, til fæðingarstaðar Davíðs, sem var *Betlehem* í Júdeu nálægt Jórsölum. En af því að bærinn var lítill, urðu þau að gista í útihúsi einu. Eins og spámennirnir höfðu áður sagt fyrir, var það hjer, sem lausnari heimsins fæddist eina nóttina, og var vafinn í fátæklega reifa, og lagður í jötuna í húsinu. En hirðar nokkrir, sem þar gættu hjarða sinna umhverfis, sáu hersveitir Jehóva koma frá himnum ofan, sem lofuðu guð og sögðu:

„Dýrð sje guði á hæðum, og friður á jörðu; því hann er mönnunum náðugur".

Umkringdir af himneskum ljóma tóku hirðarnir þannig við fagnaðartíðindum englanna um það, að þeim væri fæddur lausnari í borg Davíðs. Þeir skunduðu þá tafarlaust til ungbarnsins, til þess að skoða það, og lofa miskunsemi drottins.

María undraðist sögu hirðanna, og yfirvegaði nákvæmlega orð þeirra. En þegar sonur hennar var orðinn 50 daga gamall, fór hún með

hann upp í musterið, eins og boðið var í lögmáli Mósis, til þess að hann yrði tekinn upp í tölu guðs barna. Þá gaf hún honum og nafnið *Jesús,* og fórnaði 2 turtildúfum, eins og fátæklingum var boðið. Um þetta leyti var í Jórsölum aldraður maður einn guðhræddur, sem hjet Símon. Eptir hvöt æðri anda kom hann þennan dag í musterið, og þegar hann sá barnið, tók hann það á handlegg sjer, lofaði guð og sagði: „Drottinn, láttu nú þjón þinn fara heim í friði, eins og þú hefur lofað; því augu mín hafa sjeð hjálpræði þitt, sem þú hefur búið öllum mönnum, ljós heiðingjanna, og dýrð þinnar þjóðar, Ísraelinga!“ „Sjá“, mælti hann enn fremur við Maríu, „þetta barn er fætt til *falls* mörgum Ísraelingum, og mörgum til *viðreisnar;* hann mun verða fyrir *mótmælum, og hjarta þitt mun verða lagt sverði í gegn um*“. Eins viðurkenndi og spákonan *Anna,* að Jesús væri hinn fyrirheitni Messías, og þau fagnaðartíðindi kynnti hún öllum þeim, sem vonuðu eptir frelsinu (Lúk. 1.—2. k.).

Um sama leyti komu þrír spekingar frá austurlöndum til Jórsala, og spurðu um hinn nýfædda Messías; því þeir kváðust hafa sjeð fæðingarstjörnu hans á himninum. Þegar hinn tortryggni Heródes heyrði þetta, varð hann öldungis frá sjer numinn af ótta og undran, og lætur þegar spyrja hina ritningfróðu menn að

því, hvar Messías eigi að fæðast. Í Betlehem, svöruðu þeir (Mikk. 5., 1.). Heródes lætur þegar segja það spekingunum, og biður þá, að láta sig vita, ef þeir finni barnið, svo hann geti og vottað hinum himinborna lotningu sína. Spekingarnir fóru eptir leiðsögu stjörnunnar, og komu [redacted] Betlehem; þar fundu þeir Jesú, og færðu honum [redacted] dýrðlegar gjafir til viðurkenningar um, að hann væri konungur þeirra. Þá birtir guð þeim vilja sinn í draumi, svo þeir fara annan veg heim til sín aptur og finna ekki Heródes. Á líkan hátt fá þau Jósef og María einnig bendingu frá guði til þess, að *flýja burtu til Egyptalands*. En undir eins og Heródes vissi, að spekingarnir höfðu prettað sig, lætur hann drepa öll börn í Betlehem, [redacted] voru 2 ára og þar fyrir innan, en þá var Jesús kominn þaðan eptir bendingu guðs, svo Heródes fjekk ekki ráðið hann af dögum. Jósef og María sneru ekki heim aptur frá Egyptalandi, fyr en Heródes var dauður, og þá voru þau svo hrædd við Arkelás, að þau þorðu ekki að taka sjer bólfestu í Betlehem, heldur fóru til *Nazaret*, [redacted] Antípas hafði völd yfir (Matt. 2.).

Þau Jósef og María fóru á ári hverju til Jórsala, til þess að halda þar páskana, og þegar Jesús var 12 ára gamall, höfðu þau hann þangað með sjer. Þegar þau fóru [redacted] stað aptur, söknuðu þau sveinsins, en hjeldu þá, að

hann myndi vera farinn á undan sjer með einhverjum af kunningjunum. En þegar allir samferðamennirnir voru komnir saman fyrir utan Jórsali, þá vantaði hann einan. Þau sneru nú áhyggjufull aptur til borgarinnar, leituðu hans í 3 daga, og fundu hann þá loksins í musterinu. Þar sat hann hjá hinum ritningfróðu Gyðingum, spurði þá og leysti úr spurningum þeirra, svo að þeir undruðust yfir þekkingu hans og gáfum. „Því gjörðir þú þetta?“ segir María áhyggjufull. „Við faðir þinn höfum leitað að þjer hrædd og angurvær“. Þá spurði Jesús hana aptur: „Hví leituðuð þið að mjer? Vissuð þið þá ekki, að mjer bar að reka erindi föður míns?“ Þau skildu ekki, hvað í þessum orðum lá, og hann fór burtu með þeim, var þeim hlýðinn og auðsveipur, og með árafjöldanum óx hann í vizku og náð hjá guði og mönnum (Lúk. 2.).

Að því, sem ráða má, hefur Jóhannes verið alinn upp samkvæmt hinni tignarlegu köllun sinni, og opt hafðist hann við í óbyggðum, þangað til hann var orðinn þrítugur. En það var á 15. stjórnarári Tíberíusar keisara, þegar Pílatus var landstjóri í Júdeu og Samverjalandi; þá kom hann fram eins og kennari guðs, er sendur væri til þess, að greiða veg Messías. Í anda hinna fornu spámanna refsaði hann djarflega fyrir lesti þjóðarinnar, og hirti alls ekki um, hver í hlut átti. Aðalatriði kenningar hans var þetta:

„*Snúið yður, því ríki guðs* (ɔ: hið nýja fyrirkomulag og stefna, sem Messías mun koma öllu í) *er nálægt*. Öxin er þegar reidd að rótum trjánna; hvert það trje, sem ekki ber góðan ávöxt, á að verða upp rætt, og varpað í eldinn. Segið ekki: Vjer eigum Abraham fyrir föður; því jeg segi yður, að guð er megnugur til þess, að vekja Abraham niðja upp af steinum þessum“. Við þessa nýstárlegu kenningu sameinaði hann *skírnina*, er vera skyldi líkingarfull athöfn í anda spámannanna. Hann ljet sumsje hvern þann, er játaðist undir kenningu sína, vaða út í Jórdan og dýfa sjer niður í vatnið, til þess að sýna með því, að hann tryði á komu guðsríkis, kannaðist við syndir sínar og vildi betrast.

Lýðurinn bar djúpa lotningu fyrir þessum eptirkomanda Elías, sem og ávann sjer virðingu hans með hinum ströngu lífernisreglum, sem hann fylgdi. Hann var klæddur í stórgjörðan stakk úr úlfaldahári, og hafði um sig leðurbelti. Engisprettur og himnabrauð (*manna*) hafði hann sjer til viðurværis. Gyðingar streymdu til hans í hópum, og ljetu hann skíra sig; sumir þeirra hjeldu, að hann væri Messías, en Jóhannes sagði: „*Jeg skíri yður með vatni, en sá mun koma, sem mjer er máttugri*, og sem jeg er ekki verður að leysa af skóna; *hann mun skíra yður með heilögum anda og eldi*“. Fórnir,

föstur og hreinsanir voru ekki þeir iðrunarávextir, sem Jóhannes krafðist. Þegar menn spurðu hann, hvað þeir ættu að gjöra, þá svaraði hann: „Hver, sem á tvo kyrtla, skipti jafnt á milli sín og þess, sem engan kyrtil á, og hver, sem á nægtir matar, fari eins að“. Við *tollheimtumennina* sagði hann: „Krefjist ekki meira, en yður er skipað“; við *hermennina:* „Fjeflettið engan með ofríki, og gjörið ekki á hluta neins með prettum, heldur látið þjer yður nægja mála yðvarn“. Þegar hann þar á móti sá Farísea og Saddúsea, sem stundum komu til hans, til þess að láta hann skíra sig, þá mælti hann: „Hver hefur kennt yður, þjer nöðrukyn, að flýja hina yfirvofandi refsingu?“ (Lúk. 3. Mt. 3,).

Svona nýstárlegur og frábrugðinn kennari hlaut bráðum að vekja á sjer eptirtekt ráðherraþingsins (synedrium). Það sendi og til hans bæði presta og Levísniðja, til þess að spyrja hann að, hvort hann væri Kristur, og þegar hann neitaði því, spurðu þeir, hvort hann væri Elías, eða nokkur annar af spámönnunum. En Jóhannes neitaði því einnig, og þegar þeir spurðu hann, hver hann væri þá, þá svaraði hann með orðum Esaja: „Jeg er hin kallandi rödd á eyðimörkunni. Búið drottni til vegu, og ryðjið göturnar fyrir hann. Dalirnir eiga að fyllast, en hæðirnar að jafnast út. Hið krók-

ótta á að verða beint, og hið ósljetta sljett, og allir dauðlegir menn skulu sjá frelsið frá drottni". Ráðherraþingið var of ráðríkt, sjerdrægt og lastaríkt til þess, að því gæti geðjast að slíkum manni, sem Jóhannes var, en það þorði þó ekki að leggja hendur á hann, af því hann var í svo miklum metum og kærleikum hjá öllum lýðnum.

---

## 2. tímabil.

### *Æfi Jesú frá því nokkrum mánuðum fyrir hina fyrstu páska, eptir að hann hóf prjedikunar- og kennslu-embætti sitt, og þangað til á öðrum páskum þar eptir.*

---

Til þess að byrja hinn opinbera starfa sinn á hátíðlegan hátt, og helga tákn það, sem Jóhannes hafði notað við játendur kenningar sinnar, fór Jesús einnig til hans, til þess að láta hann skíra sig. Jóhannes vildi í fyrstunni ekki gjöra það; því hann sagði: „Jeg þyrfti, að þú skírðir mig, og nú kemur þú til mín". Þá svaraði Jesús: „Láttu það vera svo; því þannig ber

okkur að gjöra það, sem rjett er". Þá skírði Jóhannes hann, og sjá, *þegar Jesús kom upp úr ánni og gjörði bæn sína, þá lukust himnarnir upp fyrir honum* (ɔ: Jóhannesi), *og hann sá anda guðs í dúfu-líki koma niður frá himnum, og hvíla yfir honum* (ɔ: Jesú). Og rödd af himni sagði: „*Þetta er minn elskulegur sonur, sem jeg hef velþóknan á*". Þar eptir fór andinn með Jesú út á eyðimörku, og þar dvaldi hann í 40 daga og 40 nætur fastandi, og virðist að hafa verið að yfirvega erindi sitt í þennan heim. En þegar hungrið tók að þrýsta að honum, kom freistarinn til hans, og mælti: „Ef þú ert sonur guðs, þá bjóð steinum þessum, að verða að brauði". En *líkamleg þröng* var þess ekki megnug, að tæla hinn heilaga til syndar, og Jesús svaraði freistaranum, og sagði: „Maðurinn lifir ekki af brauði einu, heldur og af sjerhverju orði guðs" (5. Mb. 8., 3.). Þá tók freistarinn hann með sjer, og setti hann upp á mæninn á musterinu, og mælti: „Ef þú ert sonur guðs, þá varpa sjálfum þjer hjer ofan af; því ritað er: „Hann mun bjóða englum sínum, að vera með þjer, að geyma þín, svo að þú steytir ekki fót þinn við steini". En Jesús vildi ekki *fara drambsamlega með guðdómskrapt sinn*, heldur svaraði hann: „Á öðrum stað er það ritað: þú skalt ekki freista drottins guðs þíns". Þá tók freistarinn hann að lyktum, og fór með

hann upp á afarhátt fjall, sýndi honum öll ríki heimsins og dýrð þeirra, og mælti: „Allt þetta skal eg gefa þjer, ef þú krýpur fyrir mjer og sýnir mjer lotningu“. En *jarðnesk vegsemd* og *veldi* gátu ekki heldur leitt Jesú afvega. „Vík frá mjer, Satan!“ sagði hann; „því ritað er: Þú skalt tigna drottinn guð þinn, og dýrka hann einan“. Þá hvarf hinn vondi andi burtu frá honum, en englar drottins komu til hans og þjónuðu honum; því *sonur mannsins* hafði nú *sigrazt á freistingunni* (Mt. 3., 13.; 4., 1.).

Eptir þetta virðist Jesús fyrst að hafa *komið fram, eins og hinn fyrirheitni Messías*, í sveitinni umhverfis Jórdan, þar sem Jóhannes kenndi, og boðaði, að Messías, „*lamb guðs, sem bæri allar syndir heimsins*“, væri kominn; því þegar hann skírði Jesú, þá gekk hann úr skugga um, að hann væri hinn fyrirheitni lausnari allra manna. Hjer valdi Jesús sjer nú hina fyrstu lærisveina sína úr áhangandaflokki Jóhannesar: *Jóhannes, Andreas, Símon* (Pjetur), *Filippus* og *Natanael*, sem játuðu, að hann væri Kristur. Frá þessum stöðvum fór Jesús því næst, að öllum líkindum, aptur til Galíleu. Þar vakti hann fyrst eptirtekt manna á sjer og kenningu sinni með því, að gjöra ýms kraptaverk og lækna sjúklinga þeirra. „Snúið yður“, sagði hann, „því ríki guðs er komið“. Að lyktum kom hann fram eins og kennari í fæðingarborg sinni Nazaret.

Það var á sabbatsdegi, og honum var fenginn spámaðurinn Esajas til þess að útþýða. Þegar hann lauk bókinni upp, urðu þessi orð fyrir honum: *„Andi Jehóva er yfir mjer, því hann hefur smurt mig; hann hefur sent mig, til þess að flytja hinum litilmótlegu fagnaðartíðindi, og til þess, að lækna hin særðu hjörtu, til þess, að kunngjöra hinum herteknu lausn, hinum blindu sýn, og hinum fjötruðu frelsi“* (Es. 61., 1.). Þessi orð *þýddi Jesús um sjálfan sig.* En jafnvel þó að ræða hans vekti undran tilheyrandanna, hneyksluðust þó hinir drambsömu Gyðingar á því, hvað hann var af lágum stigum og fátækum, og á því, að hann skyldi ekki *fyrst* hafa sýnt það hjá sjer með *kraptaverkum*, að hann væri sá Messías, sem guð hafði sent þeim. Þegar Jesús tók nú Elía til dæmis, er hann hafði gjört slíkt kraptaverk hjá konu einni í Fenikalandi, sem ekki hefði komið fram við neina konu á meðal Gyðinga, þá urðu þeir svo æfir, að þeir færðu hann út úr *samkundunni*, og ætluðu að hrinda honum niður af fjallinu, sem bærinn stóð á, en hann gekk burt úr höndum þeirra.

Það var skylda hvers Gyðings, sem ekki var á ferð, eða sjúkur, að koma til Jórsala, til þess að halda þar páskana. Um það leyti fjekk Jesús þess vegna í höfuðborginni bæði óhultara og meira starfsvæði, en ella, enda fór hann og

á páskunum upp til Jórsala. Það er alllíklegt, að það hafi verið í þessari ferð, [redacted] hann rak þá út úr musterinu, [redacted] seldu og keyptu fórnardýr, og verzluðu peningum þeim, er musteristollurinn var borgaður í á ári hverju. Ráðherraþingið hafði án efa af sjerplægni gefið mönnum þessum, sem ekki hugsuðu um annað en ábatann, leyfi til þess, að hafa búðir sínar í forgarði musterisins, svo að sá staður, [redacted] ætlaður var til *bænagjörðar handa guðhræddum mönnum*, varð með þessum hætti rjettnefnt ræningjabæli, þar sem ábatasýki, deilur og stríð þróuðust. Gyðingar urðu forviða við þessa dirfsku Jesú, og spurðu, með *hvaða tákni* hann sannaði rjett sinn til þessa stórræðis. Jesús svaraði þeim einungis þessu: *„Jeg ætla að brjóta þetta musteri niður, og reisa það upp aptur á þremur dögum“*. Það datt engum í hug, að hann talaði um líkama sinn; en lýðurinn hæddist að því, að slíkt musteri, sem starfað hefði verið að í 46 ár, yrði byggt upp aptur á þremur dögum. Margir tóku nú að trúa því, að Jesús væri hinn fyrirheitni Messías, þegar þeir sáu þau merki guðs aðstoðar, sem hann ljet þá einatt þreifa á [redacted] verkum sínum og athöfnum. En vegna þess að Jesús þekkti gjörla hviklyndi lýðsins, og vonzku og veldi höfðingjanna, þá gjörði hann það ekki beinlínis heyrum kunnugt [redacted] þetta skipti, hver hann væri. Hann leitaðist

þess vegna einungis við, að búa menn undir það, að geta *seinna meir* tekið á móti kenningu sinni. Þannig kom til hans einn af ráðherraþinginu, til að fræðast af honum. Sá hjet *Nikódemus* og var Farísei; hann fór með launung á náttarþeli á fund Krists; því hann viðurkenndi, „að Jesús væri sendur frá guði, af því enginn gæti gjört þau verk, sem Jesús gjörði, nema guð væri með honum“. Jesús sagði honum, að enginn gæti komizt í ríki guðs, nema hann fæddist að nýju; *því það, sem fætt er af holdi, er hold, en það eitt er andi, sem endurfæðist af anda*“. Nikódemus tók þetta blátt áfram eptir orðunum, undraðist það, og spurði, hvernig slík endurfæðing gæti átt sjer stað. Jesús mælti: „Ertu einn af kennurum Ísraelinga, og veizt það ekki? Sannarlega tölum vjer það, sem vjer vitum, og berum vitni um það, sem vjer höfum sjeð, en þjer takið ekki vitnisburð vorn gildan. Ef þjer trúið mjer ekki, þegar jeg fræði yður um jarðneska hluti, þá er engin von á, að þjer trúið mjer, ef jeg segi yður frá því, sem himneskt er. Eins og Móses hóf orminn upp á eyðimörkinni, eins á og sonur mannsins að verða upp hafinn, til þess að enginn sá tortýnist, sem á hann trúir, heldur fái eilíft líf. Því svo elskaði guð heiminn, að hann gaf sinn eingetinn son út fyrir hann, og hann sendi hann ekki til þess, að áfella eða fyrir-

dæma heiminn, heldur til þess, að hann gjörði hann sælan. Enginn, sem á hann trúir, verður fyrirdæmdur, þar á móti er hver sá þegar dæmdur, sem ekki trúir á hann. En dómurinn er sá, að ljósið er komið í heiminn, og mennirnir elskuðu meir myrkrið en ljósið; því verk þeirra voru vond. Sá einn kemur til ljóssins, sem iðkar sannleikann, til þess að athafnir hans verði öllum kunnar; því þær eru gjörðar í guði".

Eptir páskana hefur Jesús efalaust dvalið um hríð í Júdeu, skammt frá þeim stað, sem Jóhannes skírði á. Lærisveinar Jesú skírðu og marga af löndum sínum, sem könnuðust við, að Jesús væri Messías. Lærisveinar Jóhannesar öfunduðust yfir þessu, og komu til hans og kvörtuðu yfir því, að fleiri þyrptust til Jesú, til þess að láta lærisveina hans skíra sig, heldur en til Jóhannesar. Með hógværð svaraði Jóhannes: „Enginn maður getur tekið neitt, sem honum er ekki gefið af himnum, og þjer eruð sjálfir vitni um það, að jeg hef ekki þótzt vera Kristur. Honum ber að vaxa, en mjer að minnka; því sá er af jörðu, sem frá jörðu kemur, og hann talar það, sem jörðunni heyrir; en *sá er öllum æðri, sem steig niður frá himnum*". En Jóhannes hafði ekki þyrmt *Heródesi Antipas*, fjórðungsstjóra í Galileu, heldur einarðlega ávítað hann fyrir það, er hann, gagnstætt öllum lögum, hafði gengið að eiga *Heró-*

*díu*, konu bróður síns, [redacted] þá var enn á lífi, og hann hafði neytt til að skilja sig við konuna. Antipas virti Jóhannes mikils, og hlýddi fúslega á ræður hans, en af því hann var duglaus sælkeri, ljet hann hina drambsömu drottningu koma sjer til þess, að varpa honum [redacted] dýflissu. *Þegar hjer var komið*, og Jesús tók eptir því, að Farísear tóku að hafa ýmigust og gætur á, hvílíkur fjöldi manna það var, sem gengu í flokk hans í Júdeu, þá virðist hann að hafa farið þaðan burtu aptur til Galíleu, til þess að láta óvini sína *ekki geta fengið fang á sjer* fyrir fyllingu tímans.

Leið Jesú lá í gegn um Samverjaland. Hjá bænum *Síkar*, nálægt Garizim, settist hann niður við brunn einn, til að hvíla sig, en lærisveinarnir fóru inn í bæinn á meðan, til þess að kaupa matvæli handa sjer. Þá kom að brunninum kona ein samversk, að sækja vatn. Jesús bað hana, að gefa sjer að drekka. Konan ljet í ljósi undran sína yfir þessari bón hans, þar sem enginn Gyðingur vildi annars þiggja, hvað þá heldur biðja nokkurs af Samverjum, er þeir hötuðu svo mjög. Þegar Jesús sá nú, að það var í raun og veru hún, sem þurfti sinna gjafa með, þá líkti hann kenningu sinni saman við uppsprettu hins eilífa lífs, sem aldrei gæti þornað, eins og sá *Jakobsbrunnur* gæti, sem hjer væri. Þegar Jesús enn fremur segir

henni nokkur atvik úr lífi hennar, sem hún ætlaði að enginn vissi, sízt ókunnugur maður, þá viðurkennir hún, að hann sje spámaður, og spyr hann, hvort það væri á *Garizim*, eins og feður hennar hefðu sagt, eða í *Jórsölum*, sem menn ættu að tigna Jehóva. „Trú þú mjer", segir Jesús þá, „að sá tími kemur, er þjer skuluð hvorki tigna föðurinn á fjalli þessu nje í Jórsölum. *En sá tími kemur, og hann er þegar kominn, þegar þeir, sem dýrka guð, skulu dýrka hann í anda og sannleika;* því slíkir dýrkendur einir þóknast honum. Guð er andi, og þeir, sem hann tigna, eiga að tigna hann í anda og sannleika". „Já", segir konan, „þegar Messías kemur, þá mun hann fræða oss eins um þetta og annað". Hjá konu þessari fann Jesús ljósari hugmyndir samfara aðdáanlegri fróðleikslöngun, heldur en, ef til vill, hjá nokkrum Gyðingi áður, og því segir hann henni nú þegar og skýlaust, að hann sje *hinn eptirvænti fræðari.* Á meðan konan hljóp inn í hinn lítils-virta bæ, til þess að segja innbúunum frá þangaðkomu Messías, komu lærisveinarnir með fæðuna, sem þeir höfðu keypt. Þeir báðu Jesú að setjast með sjer að borðum, en hann svaraði: „Jeg hef fæðu, sem þjer vitið ekki af". Þeir undruðust þessi orð hans, og vissu ekki, hverju þeir áttu að svara. Þá segir Jesús aptur: „Mín fæða er, að gjöra vilja hans, sem sendi mig,

og að reka erindi hans. Þjer segið: Fjórir mánuðir enn, þá kemur uppskerutíminn. Lítið augum yðar upp og rennið þeim yfir akrana; þeir eru þegar farnir að hvítna, og hver, sem að uppskerunni starfar, safnar handa sjer ávöxtum til hins eilífa lífs. Jeg hef sent yður út, til þess að skera þar upp, sem þjer sáðuð ekki. Þjer komið í annara manna stað, sem hafa erviðað". Eptir sögu konunnar streymdu nú Samverjar út úr bænum, til þess að sjá Messías, og þegar þeir heyrðu kenningu hans, þá trúðu margir á hann, eins og þann, sem sendur væri frá guði. Jesús dvaldi þess vegna hjá þeim í tvo daga, og fór síðan til Galíleu. Þar var hann lengi og ferðaðist um landið, og boðaði apturhvarf og guðsríki á jörðunni. En fregnin um *kraptaverk* hans og *lækningar* breiddist út um allt Sýrland og Palestínu, svo að allir sjúklingar þustu á fund hans, og enginn, sem trúði, fór jafnnær í burtu aptur.

Vjer skulum nú yfirvega nokkur af þessum kraptaverkum, sem Jesús ávann sjer hylli lýðsins með. Öll hafa þau á sjer blæ mannástar hans og lítillætis. Þegar hann kom til *Kana*, kom þangað einn af embættismönnum Heródesar, og bað hann að koma og lækna son sinn, sem væri að kominn dauða. Jesús svaraði: *„Þjer trúið ekki, nema þjer sjáið undur og tákn"*. Faðirinn ítrekaði bæn sína, að hann

kæmi áður en sveinninn dæi. Þá svaraði Jesús: „*Far þú heim, sonur þinn lifir*“. Maðurinn trúði því, sem Jesús sagði, og á heimleiðinni mætti hann þjóni sínum, er kom í móti honum, og sagði honum, að daginn áður [redacted] 7. stundu hefði syni hans batnað. En það var um sama leyti, og Jesús hafði sagt föðurnum, að sonur hans lifði. Hann tók nú trú og allt hyski hans með honum.

Á ferðum sínum um Galíleu kom Jesús einu sinni að vatninu *Genezaret*. Símon og Andrjes voru þar þá hjá skipum sínum; því það lítur svo út, eins og þeir hafi að minnsta kosti um tíma tekið til fiskiveiðanna, [redacted] áður hafði verið starfi þeirra, þegar þeir komu aptur til Galíleu. Jesús gekk þá út á skip Símonar, til þess að eiga hægra með að tala við lýðinn, sem hafði þyrpzt saman í fjörunni. Eptir að hann hafði lokið tölu sinni, bauð hann Pjetri (Símoni), að varpa út neti sínu, og gjörði hann það eptir boði Jesú, jafnvel þó hann væri áður búinn að reyna alla nóttina, án þess að verða var. En er hann ætlaði að draga netið upp aptur, var það svo fullt af fiski, að hann varð að kalla Jakob og Jóhannes, lagsmenn sína, sjer til aðstoðar, og hlóðu þeir bæði skipin. Pjetur varð svo frá sjer numinn af þessu, að hann varpar sjer fyrir fætur Jesú, og segir: „Far þú frá mjer, herra! því jeg er maður synd-

ugur". Með blíðu segir þá lausnarinn við hann: „*Óttast þú ekki; hjeðan í frá skalt þú veiða menn*". Enn meira þróaðist lotning lærisveinanna fyrir það, er þeir urðu fyrir stórviðri miklu á vatninu Genezaret. Urðu þeir þá hræddir og hlupu til Jesú, sem svaf, vöktu hann og mæltu: „Herra, frelsa þú oss; vjer förumst." Jesús ávítaði þá fyrir trúarleysi og hræðslu, en skipaði vatni og vindi að lægja, og hlýddu þau honum á augabragði. Þetta undruðust lærisveinarnir mjög, og virðast þeir 4 að hafa verið með honum þaðan í frá.

Rómurinn um góðverk Jesú flaug, eins og áður er frá sagt, út um allt landið, svo að allir sjúklingar streymdu til hans, og ætíð var með honum flokkur af athugasömum tilheyrendum. Einu sinni þegar Jesús sat og kenndi miklum grúa af lýðnum, og þar á meðal voru einnig nokkrir Farísear og ritningfróðir menn, jafnvel frá Jórsölum, þá var komið með mann einn *limafallssjúkan* til hans. En þar eð ekki varð komizt í gegn um mannþröngina, fóru þeir, er sjúklinginn báru, með hann upp á húsþakið, og ljetu hann síga þaðan niður fyrir fætur Jesú. Þegar hann sá trú þeirra, mælti hann við sjúklinginn: „Þínar syndir eru þjer fyrirgefnar". Á þessum orðum hneyksluðust hinir ritningfróðu menn. „Hvílíkur guðlastari"! hugsuðu þeir með sjer. „Hver getur fyrirgefið syndirnar, nema guð

einn?“ En Jesú voru ekki huldar hugsanir þeirra, og hann mælti við þá: „Hvers vegna hugsið þjer svona illt með sjálfum yður? Hvort er hægra, að segja: Þínar syndir eru þjer fyrirgefnar, eða: Stattu upp og farðu. En til þess að þjer vitið, að sonur mannsins hefur hjer á jörðu vald, til að fyrirgefa syndir, þá býð jeg þjer (segir hann við sjúklinginn): Stattu upp, tak sæng þína og far heim til þín“. Og sjúklingurinn reis á fætur, tók sængina, er hann hafði verið borinn á, gekk heim til sín og lofaði guð. En allir þeir, sem við voru staddir, undruðust þennan viðburð og sögðu: „Í dag höfum vjer sjeð ótrúlega hluti“.

En kenning Jesú var of frjáls og skorinorð til þess, að hún kæmist ekki í bága við skinhelgi hinna ritningfróðu, einkum Faríseanna. Þannig álösuðu þeir honum til að mynda fyrir það, er hann hafði þegið heimboð af tollheimtumanni einum, og setið á meðal vina hans. Þá svaraði Jesús: „Heilir þurfa ekki læknis við, heldur þeir, sem sjúkir eru. *Jeg er ekki kominn til þess, að kalla rjettláta, heldur rangláta* (ɔ: synduga) *menn til iðrunar*“. Farísearnir álösuðu og Jesú fyrir það, að lærisveinar hans föstuðu ekki nje bæðu, eins og lærisveinar Jóhannesar, og eins og Farísearnir. Þá svaraði Jesús: Brúðkaupsgestirnir fasta ekki, á meðan brúðguminn er hjá þeim; þeir dagar koma, *að hann*

*verður tekinn frá þeim*, og þá munu þeir fasta. Þar að auki leggur enginn nýja bót á forn klæði; því með því skemmdist það enn meira. *Nýtt og gamalt á ekki saman.* Enginn lætur nýtt vín á gamla belgi; því hið nýja vín sprengdi þá, vínið spilltist niður og belgirnir skemmdust. En þar á móti er nýtt vín látið á nýja belgi, og geymist þá hvorttveggja vel“.

Áður en Jesús hafði lokið tölu sinni, kom einn af samkundustjórunum, að nafni *Jairus*, gekk fyrir hann og mælti: „Dóttir mín er að komin dauða; kom þú, legg þínar hendur yfir hana, og kalla hana aptur til lífsins“. Jesús stóð upp þegar, og fór með honum með alla lærisveina sína. En kona ein, sem hafði verið sjúk í 12 ár, gekk að Jesú og snart klæðafald hans í þeirri von, að þá mundi sjer batna. Jesús sneri sjer þá við, og er hann sá konuna, mælti hann: „Dóttir, vert þú hughraust; *trú þín hefur frelsað þig*“. Á sömu stundu fjekk konan aptur heilbrigði sína. En þegar Jesús kom á heimili Jaírusar, hitti hann þar fjölda manna, sem syrgdu meyna, sem þá var önduð. Jesús sagði þeim, að fara frá sjer; „því mærin er ekki dauð, heldur, sefur hún“. Margir urðu til þess, að hlægja að þessum orðum Jesú, því þeir voru vissir um, að mærin var dáin. En þegar manngrúinn var farinn frá, gekk Jesús þar að, sem mærin lá, tók í hönd henni, og reisti hana á

fætur. Jesús bauð, að gefa henni að borða. Fregnin um þetta verk barst út um landið.

Jesús gjörði og mörg undur á vesalingum þeim, sem haldið var að vondir andar hefðu fengið vald yfir. Hann fór inn í hugsun þessara manna, skipaði, og lauk þannig með einu orði upp hjörtum þeirra fyrir hinum skýra og sigursæla anda kenningar sinnar. En öll þess konar undur vöktu og efldu lotningu lýðsins „fyrir hinum mikla spámanni, sem nú var kominn upp á meðal hans“. Menn tóku fagnandi við honum á ferðum sínum um Galíleu; hann kenndi í samkundunum og boðaði fagnaðartíðindin um guðsríki. En hann varð þó hjartanlega að aumkast yfir lýðinn, sem var villuráfandi hjörð án hirðis. Meðaumkunarfullur sagði hann því við lærisveinana: „*Uppskeran er mikil, en vinnumennirnir fáir*“. Hann var þá einsamall á bæn heila nótt, og valdi síðan handa sjer 12 postula (sendimenn), sem hann ætlaði að fræða og búa undir, að halda þeim starfa áfram, sem hann ætlaði að gefa líf sitt út fyrir. Þessir menn voru þeir: *Símon*, og *Andrjes* bróðir hans, *Jóhannes* og *Jakob* Sebedeusarsynir, *Filippus, Bartólómeus, Tómas, Matteus* (sem verið hafði tollheimtumaður), *Jakob* Alfeusarson, *Júdas Taddeus, Símon Selótes* og *Júdas frá Kariot* (Iskariot).

Þegar Jesús var búinn að velja postulana,

gekk hann niður af fjallinu. Við rætur þess hjelt hann *fjallræðuna*, sem kölluð er (Mt. 5.—7. k.), fyrir [redacted] grúa manna og hinum nývöldu postulum. Ræðan byrjar á því, hversu sælir þeir sjeu, sem taki við kenningu Jesú og fylgi henni: „Sælir eru hinir andlegu fátæklingar (ɔ: þeir, sem kannast við hina andlegu fátækt sína); því þeirra er guðsríki. Sælir eru þeir, sem þola ofsóknir fyrir rjettlæti sitt; því þeirra er guðsríki“. Þar næst víkur ræðunni til hinna nývöldu postula, og er þeim sýnt, hvers þeir megi vænta, og hvað af þeim sje heimtað: „Já, sælir eruð þjer, þegar menn hæða yður og ofsækja yður; fagnið og verið glaðir; yðar laun á himnum skulu verða mikil. Þannig voru og spámennirnir ofsóttir fyrir yðar daga. Þjer eruð salt heimsins; ef saltið missir afl sitt, með hverju á þá að salta? Þjer eruð ljós heimsins. Þjer getið ekki dulizt, heldur en borgin á fjallsbrúninni. Menn kveykja og ekki ljósið á kertinu til þess, að setja það í felur, heldur til þess, að setja það í ljósapípuna, svo það geti lýst öllum í herberginu. *Látið því ljós yðar skína fyrir mönnum, svo að þeir sjái góðverk yðar, og lofi föður yðar, sem á himnum er*“. Því næst skýrir Jesús frá, að það hafi aldrei verið ætlan sín, að *kollvarpa* lögum Mósis, heldur einungis að *auka* þau og *hreinsa* þau frá viðaukum Fariseanna. Hið fyrra atriðið sannar

hann og skýrir með kenningunni um *morð, saurlifnað, hjónaskilnað, eiðrof, endurgjaldsrjett* og *náunganskærleika,* en hið síðara með því, sem hann kennir um *ölmusur* (þurfamannagjafir), *bænir* og *föstur.* „Ímyndið yður ekki, að jeg sje kominn til þess, að afmá lögin og spámennina; því jeg er þvert á móti kominn til þess, að gjöra þau *fullkomnari* (yfirgripsmeiri og auðugri). Jeg segi yður og það fyrir víst, að fyrri mun himinn og jörð tortýnast, en einn depill af lögunum týnist. En það segi jeg yður einnig, að ef rjettlæti yðar verður ekki meira, heldur en Faríseanna og hinna ritningfróðu manna, þá komið þjer aldrei í guðsríki. Þjer vitið, að feðrunum var sagt: *Þú skalt ekki mann vega;* hver sem vegur mann, er sekur fyrir dómaranum. En jeg segi yður, að hver, sem reiðist bróður sínum af engu, er *hegningarverður,* og það jafnvel þó hann *gjöri* ekki nema *gis* að honum. Þegar þú ber þess vegna fórn þína til altaris, og þú minnist þess, að bróðir þinn hafi eitthvert óánægjuefni við þig, þá legg þú fórn þína niður, og farðu og sæztu við hann; að því búnu skaltu koma og fórna fórn þinni. Þjer hafið heyrt, að feðrunum er boðið: *Þú skalt ekki drýgja hór;* en jeg segi yður, að hver sá, sem lítur nokkra konu girndaraugum, hann hefur þegar í hjarta sínu gjört sig sekan í glæp þessum. Ef hið hægra auga þitt freistar

þín, þá sting það út og snara því frá þjer. Og þó það væri hin hægri hönd þín, þá skaltu samt sníða hana af og varpa henni burtu; því betra er þjer, að missa nokkra af limum þínum, en að tortýnast í helvíti. Þjer hafið heyrt, að feðurnir hafa sagt: *Hver, sem skilur sig við konu sína, skal gefa henni skilnaðarskrá.* En jeg segi yður, að hver, sem skilur sig við konu sína, án þess að hún hafi reynzt honum ótrygg, hann gjörir sig sekan í hjónabandsrofi, og sömuleiðis sá, sem gengur að eiga konu, sem skilið hefur við mann sinn. Þjer hafið enn fremur heyrt, að feðurnir sögðu: *þú skalt ekki vinna rangan eið, heldur halda drottni guði þínum alla þína eiða.* Jeg þar á móti býð yður, að vinna alls enga eiða. Ræða yðar skal vera *já,* þegar játa skal, og *nei,* þegar neita skal; hvað sem þar er um fram, er illt (ɔ: lýsir spillingu hugarfarsins). Ritað er: *Auga fyrir auga, tönn fyrir tönn*". Jeg þar á móti býð yður (ɔ: kristnum mönnum, sem eru meðal annara manna, sem ekki eru kristnir), að ef gjört er á hluta yðvarn, þá verjist þjer alls ekki. Ef nokkur slær þig á hægri kinnina, þá bjóð honum einnig hina vinstri. Vilji nokkur með dómi neyða þig til, að láta af hendi við sig kyrtil þinn, þá fá þú honum einnig skikkjuna. Gef þeim, sem þig biður, og snú ekki baki við þeim, sem vill fá hjá þjer lán. Ritað er og: *þú skalt elska ná-*

*unga þinn, en hata óvin þinn.* Jeg þar á móti býð: *Elskið óvini yðar*, blessið þá, sem bölva yður, gjörið þeim gott, sem hata yður, og biðjið fyrir þeim, sem gjöra yður illt og ofsækja yður, svo að þjer megið verða börn föður yðar á himnum; því hann lætur sól sína [redacted] upp yfir illa menn og góða, og hann lætur rigna yfir rjettláta menn og rangláta. Ef að þjer sumsje elskið þá eina, sem yður elska, hvaða hag hafið þjer af því? gjöra ekki heiðingjarnir það einnig? Nei, verið algjörðir, eins og yðar himneski faðir er algjörður. Varizt að gefa ölmusur í því skyni, að menn dáist að yður fyrir það. Þess vegna, þegar þú gefur ölmusu, þá lát ekki þeyta lúðra fyrir það, eins og augnaþjónarnir gjöra við samkundur og á strætum úti, til þess að lýðurinn viti af því og heiðri sig fyrir það. Jeg segi yður það satt, að þeir hafa misst laun sín. *En þegar þú gefur ölmusu, þá láttu ekki hina vinstri hönd þína vita, hvað hin hægri vinnur,* til þess að ölmusugjöf þín megi fara fram í leyni, og faðir þinn, sá er í leynum sjer, megi launa þjer opinberlega. Og þegar þú gjörir bæn þína, skaltu ekki vera eins og hræsnararnir; því þeir standa optast nær í samkundum og á gatnamótum, á meðan þeir gjöra bæn sína. Þjer skuluð og ekki hafa við þarflausa orðamælgi, eins og heiðingjarnir, sem ætla, að þeir verði bænheyrðir fyrir mælgi sína og orðafjölda.

Þjer skuluð því alls ekki líkjast þeim í því; því yðar himneski faðir veit, hvers þjer þurfið, áður en þjer biðjið hann um það. Þjer skuluð þar á móti biðja þannig: *Faðir vor, þú sem ert á himnum! helgist þitt nafn; til komi þitt ríki; verði þinn vilji, svo á jörðu, sem á himnum; gef oss í dag vort daglegt brauð. Fyrirgef oss vorar skuldir, svo sem vjer og fyrirgefum vorum skuldanautum; eigi leið þú oss í freistni, heldur frelsa oss frá illu; því að þitt er ríkið, mátturinn og dýrðin að eilífu. Amen!* Þegar þjer fastið, skuluð þjer og ekki bera yður, eins og þjer þjáizt af nokkru, eins og augnaþjónarnir, sem gefa sjer það útlit í andlitinu, er sýni, að þeir fasti. Þegar þú fastar, skaltu þar á móti smyrja höfuð þitt og þvo andlit þitt, til þess að mönnum sýnist ekki, að þú fastir, heldur einungis guði“.

Aðalatriðið í þessari ræðu Jesú var án efa, *að sýna, hvers erindis hann var kominn í heiminn, og hvernig hann ætlaði sjer að reka það erindi.* Síðan bætir Matteus ýmsum öðrum kenningum þar aptan við, sem að vísu hafa ekki allar komið fram í þetta sinn, eða við þetta tækifæri. En þessar greinir hafa allar í sjer fólginn þann anda, að þær *eiga annaðhvort að skýra eðli hinnar uppyngdu trúar,* eða *vekja þá andlegu starfsemi hjá tilheyrendunum, þær tilfinningar og áform,* sem Jesús vildi kveykja

í brjósti sjerhvers þegns í guðsríki, og eru því sumar eins konar snillyrði eða kjarngreinir.

„Safnið yður ekki jarðneskra auðæfa, sem mölur og ryð getur grandað, og þjófar komizt að og stolið. Þar á móti skuluð þjer safna yður fjár á himnum, þess sem hvorki mölur nje ryð fær eytt, og þjófshendur geta ekki komizt að; því þar sem fje yðar er, þar [redacted] og hjarta yðar vera. Enginn getur [redacted] senn þjónað tveimur húsbændum dyggilega; því annaðhvort hatar hann þá annan og elskar hinn, eða hann aðhyllist [redacted] þeirra, en gefur hinum engan gaum. Þannig getið þjer ekki heldur þjónað bæði guði og mammóni (ɔ: auðnum) undir eins. Verið því ekki kvíðafullir [redacted] líf yðar, hvað þjer eigið að borða, eða hvað þjer eigið að drekka, eða hverju þjer eigið að klæðast. Gætið að fuglum himinsins; þeir sá ekki, skera ekki upp, og safna ekki í hlöður, og þó fæðir yðar himneski faðir þá; eruð þjer ekki meira verðir en þeir? Hver yðar er þar að auki megnugur um, að lengja æfi sína um eitt augnabragð, hversu áhyggjufullur sem hann er? Og hví skylduð þjer vera áhyggjufullir [redacted] klæðnað yðvarn? Lítið á grösin á enginu; þau spinna ekki nje vefa, og þó segi jeg yður það satt, að Salómon var [redacted] allri sinni dýrð ekki eins skrautbúinn og þau eru. Ef guð skreytir þannig grasið á enginu, sem í dag stendur [redacted] blóma, [redacted] á morgun

verður tekið [redacted] eldinn, hví mundi hann þá ekki miklu fremur klæða yður, þjer trúardaufu? Eptir öllu þessu sækjast heiðingjarnir. En yðar himneski faðir veit, að þjer þarfnizt alls þessa; leitið því fyrst guðsríkis og rjettlætis guðs, þá munu yður og veitast allir þessir hlutir".

„Dæmið ekki, svo þjer verðið ekki dæmdir; því með þeim dómi, sem þjer dæmið aðra menn, munuð þjer og verða dæmdir sjálfir, og með þeim mæli, sem þjer mælið öðrum, mun yður aptur verða mælt. Hvers vegna sjer þú flísina [redacted] auga bróður þíns, en tekur ekki eptir bjálkanum í auga sjálfs þín? Og hvers vegna segir þú þá við bróður þinn: Bíddu við, á meðan jeg dreg ögnina úr þínu auga. Þú augnaþjón, drag þú fyrst bjálkann úr auga sjálfs þín, og reyndu svo að ná ögninni úr auga bróður þíns."

„Varpið ekki fórninni fyrir hunda, og kastið ekki perlum fyrir svín, því þau munu troða þær undir fótum sjer, snúast í móti yður, og rífa yður í sig".

„Biðjið, þá mun yður gefast; leitið, þá munuð þjer finna; knýið á, þá mun verða lokið upp fyrir yður. Eða mun sá nokkur vera á meðal yðar, [redacted] vildi gefa syni sínum stein, þegar hann bæði [redacted] brauð, eða höggorm, þegar hann bæði um fisk? Ef að nú þjer, sem eruð vondir, hafið vit á, að gefa börnum yðar

góðar gjafir, hversu miklu fremur mun þá faðir yðar, sem er á himnum, gefa þeim góðar gjafir, sem biðja hann um það?“

„*Eins og þjer viljið að aðrir breyti við yður, svo skuluð þjer breyta við þá;* því með því er bæði spámönnunum og lögunum fullnægt“.

„Gangið inn um hið þrönga hlið; því það hlið er vítt, og sá vegur er breiður, sem veit til glötunar, og þeir eru margir, sem þar fara um. En það hlið er þröngt og sá vegur mjór, sem til sælunnar leiðir, og þeir fáir, sem finna hann“.

„Varið yður við falsspámönnum (ɔ: þeim, sem þykjast vera spámenn, en eru það þó ekki), sem koma til yðar í sauðaklæðum, en eru glepsandi úlfar hið innra. Af ávöxtunum skuluð þjer þekkja þá. Geta menn lesið saman vínber af þyrnum eða fíkjur af þistlum? Hið góða trje ber góða ávexti, og hið eitraða trje ber banvæna ávexti; þess vegna skuluð þjer þekkja þá af ávöxtum þeirra. Ekki mun hver sá komast inn í himnaríki, sem kallar mig *herra,* heldur sá, sem gjörir vilja míns föður, sem á himnum er. Á þeim degi munu margir segja við mig: Herra, höfum vjer ekki spáð í þínu nafni, rekið út vonda anda, og *gjört mörg og stór undur?* En jeg mun svara þeim: Aldrei þekkti jeg yður; farið þjer burtu frá mjer, *þjer, sem stunduðuð það, sem ekki var rjett.* Jeg

vil því líkja hverjum þeim, sem heyrir orð mín og breytir eptir þeim, við hygginn mann, sem byggði hús sitt á kletti. Regnið streymdi niður, bárurnar æstust og vindurinn ólmaðist á húsinu, en það datt ekki, af því það var grundvallað á klettinum. *En þeim, sem heyrir orð mín, en hlýðir þeim ekki,* honum líki jeg við heimskingjann, sem byggði hús sitt á sandi. Regnið streymdi niður, bárurnar æstust og vindurinn ólmaðist á húsinu, það hrundi, og hrun þess var mikið".

Á þessum tveimur samlíkingum, sem eiga að sýna, að *trúin fáist einungis með hlýðni,* endar hin frábæra ræða Jesú. „Lýðurinn undraðist mjög yfir kenningu hans", segir Matteus; „því hann talaði eins og *sá, er vald hefur,* en ekki eins og hinir ritningfróðu menn".

Þegar Jesús eptir þetta kom til *Kapernaum,* þá gekk í móti honum *hundraðshöfðingi* nokkur, og mælti: „Herra, þjónn minn liggur veikur í limafallssýki, og þjáist mjög". „Jeg skal koma þegar og lækna hann", svaraði Jesús. En hundraðshöfðinginn mælti: „Herra, jeg er ekki verðugur þess, að þú komir inn í hús mín. Mæl þú að eins eitt orð, þá mun þjóni mínum batna. Jeg er einungis maður, æðra yfirvaldi undirgefinn, en hef þó hermenn yfir að ráða, og þegar jeg segi einum að fara, þá fer hann, og öðrum að koma, þá kemur hann, og þegar

jeg skipa þjóni mínum: Gjör þetta! þá gjörir hann það“. Þegar Jesús heyrði þetta, undraðist hann og mælti við þá, sem við voru: „Jeg segi yður það satt, að slíka trú hef jeg ekki hitt á meðal Ísraelinga. Þess vegna segi jeg yður, að *margir munu koma frá austri og vestri og sitja til borðs með Abraham, Ísak og Jakob í himnaríki*, þar sem börnum ríkisins verður varpað út í hin yztu myrkur, þar sem er óp og tannagnístur“. En við hundraðshöfðingjann mælti hann: „Far þú, og verði þjer eins og þú vilt“, og á sömu stundu varð þjónn hans heilbrigður (Mt. 8.).

Páskarnir nálguðust nú aptur. Jesús fór því til Jórsala, og kom á leiðinni í borgina *Nain*. En þegar hann kom að borgarhliðinu, þá var hafið út lík ungmennis nokkurs, sem var einkasonur ekkju einnar. Þegar Jesús sá hina sorgbitnu móður, aumkaðist hann yfir hana, gekk að henni og mælti: „Gráttu ekki!“ Síðan gekk hann að líkbörunum og mælti: „Rís þú upp, ungi maður; jeg skipa þjer það“. Þá reis hinn andaði upp og tók að mæla, en þeir, sem við voru staddir, undruðust þennan atburð, lofuðu guð og sögðu: „Mikill spámaður er fram kominn á meðal vor; guð hefur litið í náð á þjóð sína“. Um þetta leyti hefur það án efa verið, sem Jóhannes, er þá sat í varðhaldi, sendi tvo af lærisveinum sínum til Jesú, og ljet þá spyrja

hann: „*Ert þú sá, sem koma á* (ɔ: Messías), *eða eigum vjer að vænta annars?*“ Jesús svaraði þeim: „Farið og segið Jóhannesi það, sem þjer hafið sjeð og heyrt. Blindir sjá, haltir ganga, líkþráir verða hreinir, daufir heyra, dauðir rísa upp, og fagnaðartíðindin eru boðuð fátæklingum. En sælir eru þeir, sem ekki hneykslast á mjer“.

Þegar lærisveinar Jóhannesar voru burtu farnir, tók Jesús að tala um Jóhannes við lýðinn: „Hvað var það, sem þjer ætluðuð að skoða, þegar þjer genguð út á eyðimörkina? Strá, sem vindurinn beygði til ýmsra hliða? Eða fóruð þjer að sjá mann í skrautlegum klæðum? Þeir eru í sölum konunganna. Eða fóruð þjer til þess, að sjá spámann? Já, jeg segi yður, hann er meiri en nokkur spámaður. Hann er sá, [redacted] það er ritað um: *Sjá þú engil minn á undan þjer,* sem skal greiða veg þinn. Vissulega er enginn fæddur af konu, sem sje meiri [redacted] Jóhannes, [redacted] þó er hinn minnsti [redacted] himnaríki honum meiri. *Hver, sem hefur eyru til þess að heyra með, hann heyri.* Við hvað á jeg að líkja þessari kynslóð? Er hún ekki eins og börnin, sem sitja á torginu og kalla hver til annara: Vjer kváðum fyrir yður, og þjer vilduð ekki dansa; vjer sungum sorgarkvæði fyrir yður, og þjer vilduð ekki gráta. Jóhannes kom, og hvorki borðaði nje drakk, og þjer sögðuð,

að illur andi hefði vald yfir honum (ɔ: hann væri óður, eða trúarvinglsmaður). Sonur [redacted]ins er kominn, og borðar og drekkur, og þjer segið: Hvílíkt átvagl! hvílíkur vínsvelgur! vinur tollheimtumanna og syndara“ (ɔ: þeirra, sem voru berir að glæpum). En með fullri vissu um, að kenning sín mundi verða þjóðtrú, mælir þá Jesús: „Faðir, herra himins og jarðar! Lofaður vertu fyrir það, að þú hefur hulið þetta fyrir spekingum, en birt það smælingjum; faðir, þannig þóknaðist þjer að láta það vera. *Allt hefur faðirinn fengið mjer í hendur, og enginn þekkir föðurinn nema sonurinn,* og sá einn, sem hann vill birta það. Komið því hingað allir þjer, *sem mæddir eruð og þjáizt, því jeg vil veita yður hvíld. Takið ok mitt, og lærið af mjer; því jeg er hógvær og af hjarta lítillátur, og þjer munuð finna sálum yðrum frið;* því ok mitt er nytsamt, og byrði mín [redacted] ljett“.

---

## 3. tímabil.

### *Æfi Jesú frá öðrum til þriðju páska.*

---

Á páskunum var Jesús í Jórsölum. Um hátíðisdagana læknaði hann mann einn, sem hafði verið sjúkur í 38 ár, og sem lá við heilsubrunn einn í Jórsölum, sem á vissum tímum hafði læknandi afl. Jafnvel þó þá væri sabbatsdagur, bauð Jesús honum að rísa á fætur, taka sæng sína og fara burtu þaðan. En Gyðingar álitu það sabbatsrof, og urðu svo uppvægir, að þeir reyndu jafnvel til, að taka Jesú af lífi. Jesús sagði þá: „Faðir minn starfar allt til þessa, og jeg ætla einnig að starfa“. En þessi orð tóku Gyðingar fyrir guðlast, og æstust enn meira við það. Jesús sagði því aptur við þá: „Sonurinn getur ekki gjört neitt af sjálfsdáðum, nema það, sem hann sjer föðurinn gjöra, og eins og faðirinn vekur upp dauða menn, svo lífgar sonurinn einnig þá, sem hann vill. *Þess vegna eiga allir að tigna soninn, eins og þeir tigna föðurinn.* Hver, sem ekki tignar soninn, hann tignar ekki föðurinn, sem sendi hann. Jeg segi yður það satt, að sá tími mun koma, þegar allir þeir, sem í gröfunum hvíla, munu heyra rödd guðssonar, og þeir, sem hana heyra, munu lifa, og þeir, sem vel hafa breytt, munu þá rísa upp til lífsins, en hinir, sem illa hafa breytt,

til fyrirdæmingarinnar. Jeg leita ekki míns vilja, heldur föðursins, sem sendi mig. Þjer hafið spurt Jóhannes; *hann bar vitni* [redacted] *mig, og vitnisburður hans var sannur.* En jeg hef og æðra vitnisburð en hans; því þau *verk,* sem faðirinn hefur fengið mjer að gjöra, þau *vitna* það [redacted] mig, að faðirinn hafi sent mig. Þjer rannsakið ritningarnar; því þjer haldið, að þjer finnið hið eilífa líf í þeim; þær *vitna einnig um mig.* Jeg er kominn í nafni föður míns, en þjer kannizt ekki við mig. En ef einhver annar kæmi í nafni sjálfs sín, þá munduð þjer taka það gilt. En hvernig eigið þjer og að geta trúað? þjer, sem leitið virðingar hverjir af öðrum, [redacted] leitið ekki þeirrar virðingar, sem hjá guði gildir. Ef þjer tryðuð *Móses,* þá munduð þjer einnig trúa mjer; *því hann hefur ritað um mig*“ (Mt. 11. Lúk. 7. Jóh. 5.).

Það lítur svo út, eins og Jesús hafi skömmu eptir páskana farið burtu frá Jórsölum og til Galíleu. En nú var stríðið við Faríseana byrjað, og sendimenn þeirra ofsóttu Jesú hvervetna, og reyndu til eptir megni, að hamla öllu, sem Jesús gjörði lýðnum til uppfræðingar. Þeir urðu honum jafnvel samferða, og hneyksluðust á því, að lærisveinar hans skyldu á sabbatsdegi tína nokkur öx af akri einum, er þeir fóru fram hjá. „Líttu á“, sögðu þeir; „lærisveinar þínir vinna það, sem bannað er á sabbatsdegi“. „Hvað

þá"? svaraði Jesús; „hafið þjer þá ekki lesið, að Davíð og menn hans borðuðu skoðunarbrauð, sem þeim var þó ekki leyft? Vitið þjer ekki, að prestarnir vinna í musterinu á sabbatsdögunum, án þess að það sje álitið rangt af þeim; og sá, sem hjer er, er meiri og æðri en sabbatið; því sonur mannsins er drottinn sabbatsins. *Hafið þjer skilið ritninguna* (Hós. 6., 6.): *Jeg hef löngun eptir kærleika, en ekki eptir förnum?* Ef þjer hefðuð gjört það, þá hefðuð þjer ekki fellt áfellisdóm yfir hina saklausu". En það var til einkis, að ætla sjer að betra þessa sjálfbyrginga. Þegar þeir komu til Galíleu hinn næsta sabbatsdag, þá var þar í samkundunni maður nokkur handlama. Jesús spurði þá, er við voru, hvort það væri leyfilegt, að lækna á sabbatsdegi. Nú þögðu allir. Þá mælti Jesús: „Ef einhver missir sauð eða stórgrip niður í gryfju á sabbatsdegi, þá dregur hann gripinn upp úr engu að síður, þó það sje sabbat; en hversu miklu meira er þá maðurinn verður? Það er þess vegna leyfilegt, *að gjöra góðverk á sabbatsdegi*". Síðan læknaði Jesús hinn sjúka mann í augsýn allra, sem við voru staddir. En Farísear lögðu einatt meiri og meiri hug á, að *drepa* hann með einhverjum ráðum, eða að minnsta kosti að hamla áhrifum hans á lýðinn. Þeir sáu, að lýðurinn virti hann einkum mikils vegna kraptaverka hans, og vonar-

innar um, að hann væri hinn fyrirheitni Messías. Þeir leituðust því við, að sverta kraptaverkin með því, að segja, að Jesús ræki djöflana út með mætti erkidjöfulsins *Beelzebúls*. Þar að auki heimtuðu þeir og af honum, að *sanna til fulls*, að hann væri Messías, með því að koma á skýjunum frá himnum ofan með englaskara umhverfis, og þetta kölluðu þeir *tákn af himni*. Jesús sýndi, hversu ákæran um kraptaverkagjörðina var fjærri öllu lagi, með því að benda á, að hvert það fjelag, sem væri sjálfu sjer sundurþykkt, hlyti þegar að verða að engu. Ef hann því ræki hina illu anda út með aðstoð illra anda, þá hlyti veldi þeirra að líða undir lok, er þeir væru hverjir uppi á móti öðrum, og stríddu gegn sjálfum sjer. Við þetta tækifæri sagði Jesús, að sjerhvert brot yrði fyrirgefið, nema *synd á móti heilögum anda*, og að á dómsdegi ætti maðurinn að gjöra reikningskap fyrir sjerhvert óviðurkvæmilegt orð, sem hann hefði talað. Viðvíkjandi tákninu sagði hann, að hin spillta kynslóð ætti ekki að fá neitt annað tákn en Jónasar spámanns; því eins og hann hefði verið 3 daga og 3 nætur í kviði hvalfiskjarins, eins skyldi og sonur mannsins hvíla í 3 nætur og daga í skauti jarðarinnar (Mt. 12.). En þó að nú vjelræði Faríseanna yrði árangurslaust, mátti samt búast við því, að hinn blindi lýður mundi snúast að þeim, og

hverfa aptur að hinum fávísu leiðtogum sínum. Þess vegna hjelt Jesús og snjalla og fagra ræðu fyrir manngrúanum, [redacted] saman var kominn [redacted] flæðarmálinu, og sem svo var mikill, að Jesús steig á fiskiskip eitt, til þess að allir gætu heyrt til sín. Tilgangur þeirrar ræðu var einkum sá, að sýna, *að það væri ekki Jesú nje kenningu hans að kenna, þó að kenningin yrði tilheyrendunum ekki að notum; að guð vildi ekki, að jarðneskt veldi berðist hjer fyrir sannleikanum, því hann mundi þó að lokunum, þrátt fyrir allar mótspyrnur, sigrast á villunni til frelsis öllum mönnum.* „Sáðmaður nokkur gekk út á akur sinn, til þess að sá í hann góðu fræi. En er hann sáði, fjell nokkuð af fræinu á hinn harðtroðna veg, og tróðst það sumt niður af þeim, sem um veginn fóru, en sumt átu fuglar himins. Nokkuð af fræinu lenti [redacted] grýttri jörð, þar [redacted] jarðvegurinn var mjög grunnur; það spratt að vísu skjótt upp, en þegar sólin tók að skína, visnaði það, því það vantaði rót. Nokkuð fjell á meðal þyrna; en þyrnarnir spruttu upp, og kæfðu hið góða sæði niður. Hitt fjell þar á móti í góðan jarðveg, spratt upp og bar ávöxt, sumt hundraðfaldan, sumt sextugfaldan, [redacted] sumt að eins þrítugfaldan. Hver sem hefur eyru, til þess að heyra með, hann heyri". „Enn fremur má og líkja himnaríki við mann, sem hafði sáð góðu

sæði í akur sinn. En á meðan hann svaf og menn hans, kom óvinurinn og sáði illgresi innan um hveitið, og gekk síðan á burtu. Þegar kornið kom upp, spratt og illgresið upp með því. Þjónar húsbóndans gengu þá til hans og sögðu: „Herra, sáðir þú ekki góðu fræi í akur þinn? hvaðan er þá illgresið komið?" Hann svaraði: „Því hefur óvinurinn sáð". Þá spurðu þeir hann, hvort þeir ættu ekki að fara og upp ræta það. En hann svaraði: „Nei, því þá kynnuð þjer að upp ræta nokkuð af hveitinu ásamt illgresinu. Látið hvorttveggja vaxa, þangað til uppskerutíminn kemur, þá læt jeg uppskerumennina safna illgresinu í bindini sjer og brenna það, en bera hveitið inn í hlöður mínar". „Enn má og líkja himnaríki við mustarðskorn, sem maður sáði í akur sinn. Það var að vísu minna, en nokkurt annað fræ, en þegar það spratt upp, varð ávöxtur þess stærri en aðrar jurtir, og það varð að trje, og fuglar himins byggðu hreiður sín í greinum þess". „Það er og líkt súrdeigi, sem kona nokkur lagði í 3 mæla mjöls, og sem sýrði allt mjölið". Allar þessar líkingar skýrir Jesús seinna fyrir lærisveinum sínum, sem ekki höfðu skilið tvær hinar fyrstu af þeim. Þá bætir og Jesús enn nokkrum líkingum við til þess, að skerpa hugsunarafl þeirra og stækka skilningssvæði þeirra. Þannig líkir hann þá guðsríki við fjársjóð, fólg-

inn í akri nokkrum, sem maður einn finnur af tilviljun, svo að hann selur allt, [redacted] hann á, og kaupir aptur akurinn, og við kostulega perlu, sem kaupmaður einn, er safnaði að sjer dýrum og góðum perlum, keypti fyrir allar eigur sínar (Mt. 12.—13.).

Jesús batt sig ekki einungis við það, að sporna við áhrifum Faríseanna á lýðinn með þessum líkingaræðum sínum, heldur lýsir hann og bæði djarflega og áþreifanlega vonzku þeirri, sem búi í brjóstum þeirra. Einu sinni var hann til að mynda í heimboði hjá Farísea nokkrum, sem sat um, að fá átyllu á orðum hans eða verkum, en sem þó fann ekkert aðfinningarvert hjá honum, nema það, að hvorki hann nje lærisveinar hans hefðu þvegið sjer um hendurnar, áður [redacted] þeir fóru að borða, eins og Farísear og ritningfróðir [redacted] voru vanir að gjöra. Jesús svaraði honum, að þeir gættu vandlega mannaboða, [redacted] brytu hin heilögustu lög guðs. „Hjá yður á það heima“, segir hann, „sem Esajas segir: Þessi lýður nálægist mig með vörunum, og tignar mig með orðum, en hjarta hans er langt frá mjer; hann tignar mig árangurslaust“. Því næst lýsir Jesús hinni svívirðilegu skinhelgi Faríseanna, hvernig þeir fægi ker og bikara sína, en væru sjálfir fullir af ágirnd og ódáðum; hvernig þeir þykist af guðsótta sínum, [redacted] fjefletti þó í laumi ekkjur og föðurleysingja;

hvernig þeir hártogi lög Mósis og aflagi þau, [redacted] kollvarpi tímanlegri og eilífri velferð lýðsins með röngum kenningum (Mt. 15.).

Jafnvel þó að Jesús byði þannig illsku og veldi fjandmanna sinna byrginn með æðra fulltingi, vissi hann samt gjörla, að þeir áttu að sigra [redacted] hríð. Hann hafði hingað til reynt, að fræða og mennta lærisveina sína, og rýma út hjá þeim ýmislegri hjátrú og villu, sem við þá loddi. Um þessar mundir hefur það því efalaust verið, að hann sendi þá tvo og tvo saman frá sjer, til þess að temja sjer starfa þann, er þeir áttu síðar að hafa á hendi. Hann kallaði þá þess vegna fyrir sig, og mælti: „Farið ekki til heiðingja nje Samverja, heldur einungis til tapaðra sauða af Ísraelingum. Hvar sem þjer komið, skuluð þjer birta það, að guðsríki sje nálægt. Læknið hina sjúku, vekið upp dauða, og rekið út illa anda. Þjer hafið fengið það fyrir ekkert, og þjer skuluð gefa það út fyrir ekkert. Þjer skuluð ekki bera á yður gull, eða silfur, eða eir. Þjer skuluð og ekki hafa tvo kyrtla, eða skó eða staf; því verður er vinnumaðurinn fæðu sinnar. Sjáið, jeg sendi yður eins og sauði í bráðsólginn úlfahóp; verið því kænir eins og höggormar, og einfaldir eins og dúfur. Menn [redacted] flytja yður til ráðherraþingsins, og húðstrýkja yður í samkundunum; já, þjer munuð fyrir mínar sakir verða færðir

fyrir konunga og höfðingja, þeim og heiðingjum til vitnisburðar [redacted] mig. En þegar þjer komið fyrir þá, skuluð þjer ekki bera kvíðboga fyrir, hverju þjer eigið að svara þeim; því það skal yður veitast á sömu stundu; *því það eruð ekki þjer, sem talið, heldur andi yðar föður, sem í yður talar.* Verið þess vegna ekki hræddir við þá, [redacted] deyða líkamann, en geta ekki líflátið sálina. Þar á móti skuluð þjer óttast hann, sem getur tortýnt bæði sálu og líkama í helvíti. Eru ekki tveir titlingar seldir fyrir einn pening? Þó fellur enginn þeirra til jarðar án vilja föður yðar. Jafnvel höfuðhár yðar eru talin".

Postularnir hófu nú ferð sína, og komu aptur að nokkrum tíma liðnum. Voru þeir þá glaðir mjög yfir því, hversu mjög sjer hefði orðið ágengt hjá lýðnum; þeir hefðu læknað sjúka menn og rekið út illa anda í nafni Jesú. Jesús hafði og sjálfur ferðazt um landið, og rómurinn [redacted] hann var kominn fyrir Antípas. Hann hafði þá fyrir nokkru látið drepa Jóhannes skírara, eptir undirlagi og ráðum konu sinnar, hinnar harðbrjóstuðu Heródíu, og tældur til þess af drambi sjálfs sín, er hann þóttist ekki mega rjúfa loforð, sem hann hafði gefið í gáleysi. Svo stóð sumsje á, að *Salóme,* dóttir Heródíu og Filippusar fjórðungsstjóra, fyrra manns hennar, dansaði á afmælisdegi hans, og það svo vel, að hann hjet henni eptir sið austurlandakon-

unga, að veita henni, hvað sem hún bæði um, og þó það væri helmingur ríkis síns. Salóme ráðgaðist þá við móður sína, og bað um höfuð Jóhannesar á diski, og hinn dáðlitli Antípas sendi þegar menn til þess, að drepa hinn saklausa mann í dýflissunni, og það þrátt fyrir lotningu sína og þjóðarinnar fyrir sendimanni Jehóva. Honum þótti sumsje ekki konunglegt, að bregða heit sitt. Samt lítur það svo út, eins og samvizkan hafi bráðum tekið að refsa honum fyrir ódæðisverk þetta; því þegar hann heyrði talað um undur þau, sem Jesús gjörði, ímyndaði hann sjer, að það væri Jóhannes risinn upp aptur frá dauðum. Hann reyndi því til að ná honum, og gjörði jafnvel fávíslega tilraun til þess, að taka hann af lífi. Skömmu síðar beið Antípas ósigur í stríði við Arabahöfðingja einn; því hann hafði rekið frá sjer konu hans, þá er hann gekk að eiga Heródíu. Lýðurinn ímyndaði sjer, að þessi ósigur væri refsing fyrir dráp Jóhannesar (Mt. 10., 14. kk.).

Lærisveinar Jóhannesar grófu lík kennara síns, og fóru síðan á fund Jesú, og sögðu honum tíðindin. Það hefur því líklega verið til þess, að komast hjá ofsóknum harðstjórans, að Jesús fór nú yfir Genezaret, og dvaldi um hríð fyrir handan vatnið í óbyggðunum. En smátt og smátt söfnuðust menn þangað til hans þúsundunum saman (Mt. 14.). Jesús kenndi í brjósti sínu

menn þessa, læknaði sjúklinga þeirra, og talaði við þá um guðsríki. En er kvelda tók, báðu lærisveinarnir Jesú, að senda lýðinn burtu úr óbyggðum þessum, til þess að hann gæti fengið sjer húsaskjól og mat. Þá mælti Jesús: „Þeir eru nú búnir að vera hjer matarlausir í þrjá daga; ef jeg læt þá nú fara burtu fastandi, þá deyja án efa margir af þeim úr hungri“. Lærisveinarnir kváðust ekki hafa nema fimm brauð og tvo smáfiska. Jesús bauð þeim þá, að láta lýðinn setjast niður í grasið, tók brauðin og fiskana, hóf augu sín til himins og blessaði það. Síðan skipti hann því á milli þeirra, er sátu, og þeir borðuðu allir og urðu mettir. Síðan ljet hann taka upp leifarnar, og voru það 12 karfir fullar, en tala þeirra, sem matazt höfðu, voru 5000, auk kvenna og barna. Af þessu varð nú lýðurinn svo frá sjer numinn, að hann vildi þegar taka Jesú fyrir konung yfir sig. En Jesús leyndist á burtu, og gekk upp á fjall nokkurt, til að gjöra bæn sína. En þegar manngrúinn var farinn á burtu, ljet Jesús lærisveinana stíga á skip og halda yfir um vatnið; en sjálfur kom hann með morgninum gangandi á vatninu. Lærisveinarnir voru skammt komnir áleiðis; því þeir höfðu fengið andviðri, og er þeir sáu hann, urðu þeir skelkaðir. Hann sagði þeim þá til sín, og Pjetur bað um, að mega ganga á móti honum á vatninu. En er hann

kom útbyrðis og fór að sökkva, þá gekk Jesús í móti honum, og hjálpaði honum; síðan fór hann sjóveg til Kapernaum (Mt. 14.).

Þegar Jesús var kominn til Kapernaum, flykktust þegar að honum margir af þeim, sem hann hafði mettað í óbyggðinni. Jesús vissi hugarfar þeirra, og mælti því við þá: „Jeg segi yður það satt, að þjer leitið ekki að mjer einungis vegna undurs þess, sem þjer sáuð, heldur meðfram vegna þess, að þjer snædduð og urðuð saddir“. Með tilliti til kraptaverks þessa líkti Jesús sjer nú í ræðu sinni við lýðinn við himnabrauðið *(manna)*, sem guð fæddi Ísraelinga með í eyðimörkinni á dögum Mósis. „Jeg er brauð lífsins; hver sem til mín kemur, hann skal aldrei hungra, og hver sem á mig trúir, hann skal aldrei þyrsta. Jeg er kominn frá himnum, ekki til þess, að gjöra minn vilja, heldur hans vilja, sem sendi mig. En það er vilji hans, sem sendi mig, að hver sem trúir á mig, hann skuli öðlast hið eilífa líf. Það brauð, sem jeg gef, er hold mitt, sem jeg legg í sölurnar fyrir líf heimsins“. Þegar Gyðingar heyrðu þetta, mögluðu þeir og mæltu: „Hvernig getur hann gefið oss hold sitt að jeta?“ Jesú rann slíkt skilningsleysi til rifja, og mælti: „Ef þjer drekkið ekki blóð mannsins sonar, og jetið ekki hold hans, þá öðlizt þjer ekki lífið. En hver sem jetur hold mitt og drekkur blóð mitt, hann

er í mjer og jeg er í honum, og hann hefur öðlazt hið eilífa líf". Þessi orð voru of óskiljanleg, jafnvel lærisveinunum, sem hneyksluðust á þeim. Jesús vissi það, og spurði þá: „Hneykslizt þjer á þessu? en ef þjer sæjuð nú mannsins son fara upp þangað, sem hann var áður? *Andinn er það, sem lífgar;* holdið (ɔ: hið ytra, jarðneska) er til einkis. *Þau orð, sem jeg tala við yður, eru líf og andi.* Samt sem áður eru þeir margir af yður, sem ekki trúa". Jóhannes segir, að margir af lærisveinum Jesú hafi farið frá honum við þetta tækifæri. Lausnarinn spurði þess vegna hina 12, hvort þeir ætluðu einnig að yfirgefa sig. Pjetur varð fyrstur til að svara honum og mælti; „Herra, til hvers ættum vjer þá að fara? Þú hefur orð hins eilífa lífs. Vjer höfum trúað og viðurkennt, að þú ert Kristur, sonur guðs hins lifanda". „Hef jeg ekki sjálfur valið yður?" svaraði Jesús, „og þó er einn af yður djöfull" (Jóh. 6.).

Í októbermánuði var laufskálahátíðin haldin í Jórsölum í 8 daga, og hafa þá óvinir Jesú án efa lagt sig því meira fram um, að ofsækja hann, sem nær kom hátíðinni, þar sem þeir væntu víst, að Jesús mundi þá koma fram í höfuðborginni. Það lítur því svo út, eins og Jesús hafi um hríð reynt til, að láta minna bera á sjer, þar sem hann nú hafðist við í löndum Týrusar og Sídónar á landamærum Galíleu. En hjer

gat hann þó ekki dulizt. Feníkakona ein rann eptir honum, þar sem hann var á gangi. Dóttir hennar var þjáð af illum anda, og hún kallaði og bað hann, son Davíðs, að aumkast yfir sig. Jesús svaraði henni engu. Loksins leiddist lærisveinunum nauðan hennar og kall, og báðu hann, að losa sig við hana. Þá mælti Jesús: „Jeg er ekki sendur nema til týndra sauða af húsi Ísraels“ (ɔ: starfsemi mín hjer á jörðu er bundin við Gyðingaþjóð). En nú var konan komin til hans; hún fleygði sjer niður fyrir fætur honum, og bað hann að hjálpa sjer. Jesús svaraði þá: „Það er ekki fallegt, að taka brauðið frá börnunum og kasta því fyrir hunda“. „Satt er það að vísu“, mælti hin skynsama kona með auðmýkt; „en þó jeta hvolparnir mola þá, sem detta af borðum drottna þeirra“. Raunin var nú á enda, og lærisveinarnir máttu jafnvel fyrirverða sig, er þeir sáu, hvílíkt traust *hin heiðna kona* bar til lausnarans. Þess vegna sagði Jesús og: „Kona, mikil er trú þín; verði þjer eins og þú vilt“. Á sömu stundu varð dóttir hennar heilbrigð (Mt. 15., 21.).

Eptir þetta fór Jesús burtu aptur úr þessum hjeruðum áleiðis til Jórsala undir hátíðina. Faríseaarnir komu þá til hans og vara hann við Heródesi, sem sitji um líf hans. Aðvörun þessi virtist einkum stefna að því, að koma honum burtu úr Galíleu, ef til vildi, eptir undir-

lagi Heródesar sjálfs, sem gjarnan vildi losa sig við hann, án þess að þurfa að taka til nokkurra ógeðfelldra ráða. Þess vegna svaraði og Jesús: *„Segið refnum Heródesi, að jeg vinn í dag og á morgun* (ɔ: svo lengi sem guð hefur til ætlað), *og að það er þar að auki í Jórsölum, sem mínu blóði á að verða hellt út, eins og margra af spámönnunum“* (Lk. 13., 31.). Frændur Jesú trúðu því ekki, að hann væri Messías, og þess vegna eggjuðu þeir hann nú á, að fara til Jórsala, og afla sjer þar frægðar; því þar hefði hann svo gott tækifæri til þess. Þá svaraði Jesús: „Minn tími er enn ekki kominn. Heimurinn getur ekki hatað yður, en hann hatar mig, vegna þess að jeg sýni það og sanna, að verk hans eru vond“. Þeir fóru því upp til Jórsala, en Jesús varð eptir. Hátíðin var þegar byrjuð, og ógurlegur fjöldi manna streymdi að úr öllum áttum. Þar á meðal voru margir, sem trúðu því, að Jesús væri hinn eptirvænti Messías heimsins, og reiddu sig á aðstoð hins almáttuga guðs, sem honum fylgdi svo undrunarlega. Með einni bendingu hefði Jesús nú getað hleypt öllum manngrúanum á stað; því uppreisnarandinn lifði enn í huga þjóðarinnar. Þess meira undruðust menn og yfir því, að hann kom ekki til hátíðarinnar, og ýmsar gátur voru um orsökina til þess. Sumir hjeldu, að það væri sökum ótta, og menn fóru óðum að missa

traust á honum. En þegar fögnuður óvina Jesú yfir þessu var sem mestur, þá kom hann til Jórsala, svo ekki bar á. Á hinum 4. eða 5. degi hátíðarinnar, kemur hann fram í musterinu, og hrífur þegar hugi allra áheyrandanna með hinni sælu mælsku sinni og andagipt. „Hvernig þekkir hann ritningarnar, ólærður maðurinn?“ spurðu þá sumir. En Jesús svaraði: „Mín kenning er ekki frá sjálfum mjer, heldur frá þeim, sem sendi mig. *Ef nokkur gjörir vilja hans, þá skal hann komast að raun um, hvort kenningin er frá guði, eða jeg tala af sjálfum mjer*“. Lýðurinn þrætti um Jesúm. Sumir sögðu, að verk hans sýndu, að hann væri Messías. Aptur komu þá aðrir með þá mótbáru gegn því, að menn vissu, *hvaðan* hann væri, en það ætti enginn að vita um Messías. Sumir færðu það til, að Messías ætti að fæðast í Betlehem, borg Davíðs, en ekki koma frá hinni fyrirlitnu, hálfheiðnu Galíleu, eins og Jesús. Sumir ætluðu, að ráðherraþingið og hinir ritningfróðu menn í Jórsölum mundu hafa viðurkennt, að hann væri Messías, fyrst þeir ljetu hann kenna í næði. Jesús þekkti allar þessar röngu ályktanir og mælti: „Einungis stuttan tíma verð jeg enn hjá yður, og svo fer jeg burtu til þess, sem sendi mig. Þjer munuð leita að mjer, og ekki finna mig; því þangað, sem jeg er, getið þjer ekki

komizt“. En flestum af tilheyrendum Jesú voru þessi orð einnig óskiljanleg og myrk.

Bráðum urðu Farísear áskynja um komu Jesú til hátíðarinnar, og sendu nú þjóna sína til þess, að handtaka hann. En er sendimenn heyrðu tölu hans, þá fjekk hún svo mikið á þá, að þeir þorðu ekki að leggja á hann hendur, og sneru heim aptur við svo búið. „Hvers vegna komið þjer ekki með hann?“ spurðu ráðherrarnir óðir og uppvægir. Þeir svöruðu: „Þannig hefur enginn maður talað nokkurn tíma fyrri“. „Þjer eruð þá einnig búnir að láta snúa yður“, mæltu ráðherrarnir. „Trúir nokkur hinna æðstu eða nokkur Farísei á hann? Það er hægt að telja hinn einfalda lýð á allt, sem ekki þekkir lögmálið“. Að vísu rjeðst Nikódemus þá í að spyrja, hvort lögin leyfðu að fyrirdæma nokkurn, áður en búið væri að heyra ástæður hans, og rannsaka verk hans. Hinir ráðherrarnir gjörðu gis að honum og mæltu: „Ert þú einnig Galílei? Rannsakaðu ritningarnar, og þá muntu verða þess vísari, að enginn spámaður er nokkurn tíma kominn frá Galíleu“.

Daginn eptir gekk Jesús snemma í musterið. Farísear komu þá til hans konu nokkurri, sem var ber orðin að hjónabandsrofi, og báðu hann, að kveða upp yfir henni dóm sinn, eins og spámaður. „Móses hefur að vísu skipað, að grýta þá í hel, sem verði berir að þessum glæp“,

sögðu þeir, „en hvað segir þú um það?“ Jesús svaraði engu, en reit eitthvað með fingrinum á sandinn á gólfinu. Hræsnararnir þóttust þeim mun vissari [redacted] sigurinn, ruddust að Jesú, og báðu hann um álit sitt. Hann reis þá upp og mælti: „Sá yðar, sem enga synd hefur drýgt, kasti hinum fyrsta steini á hana“. Þar eptir laut hann niður, eins og áður, og horfði á gólfið. Eptir nokkra þögn reis hann upp aptur, og litaðist um, en þá voru allir Farísearnir komnir á burtu; því orð hins alltvitanda höfðu hæft þá. Konan ein stóð hjá honum. „Far þú burtu, og syndga ekki framar“, mælti frelsarinn blíðlega við hana. Jesús gekk því næst fram í musterið, sem morgunsólin lýsti, og mælti: „Jeg er ljós þessa heims; hver sem mjer fylgir, hann gengur ekki í myrkrinu“. Því næst leitaðist hann við, að sannfæra þá um, að hann væri sendur frá guði, og mælti: „*Þegar þjer hefjið son mannsins upp, þá skuluð þjer ganga úr skugga um, hver jeg er.* Ef þjer fylgið orðum mínum, þá skuluð þjer skilja sannleikann, og hann skal gjöra yður frjálsa“. „Vjer [redacted] afkomendur Abrahams“, svöruðu Gyðingar, „og höfum aldrei verið ófrjálsir þrælar“. „Jeg segi yður satt“, mælti Jesús, „að *hver sem syndina drýgir, hann er þræll syndarinnar.* Jeg veit, að þjer eruð niðjar Abrahams, en þjer sitjið um líf mitt fyrir þá sök, að jeg

segi yður sannleikann, sem jeg hef heyrt hjá guði; það hefði Abraham ekki gjört. Þjer breytið eptir feðrum yðar; en ef þjer væruð börn Abrahams, þá breyttuð þjer eins og hann". Gyðingar urðu uppvægir af þessu og mæltu: „Vjer eigum einn föður, og það er guð". Þá mælti Jesús: „Ef guð væri faðir yðar, þá elskuðuð þjer mig; því jeg er kominn frá föðurnum. Nei, þjer eruð komnir frá föðurnum fjanda, og þess föður vilja gjörið þjer; því hann var frá upphafi morðingi, og skeytti ekki um sannleikann; því í honum er ekki sannleikur. Þegar hann talar lygi, þá talar hann af sínu eigin; því hann er lygari og faðir lýginnar. Hver yðar getur sannað nokkra synd á mig? En jeg tala sannleika, og hvers vegna trúið þjer mjer þá ekki?" Af þessum djarfmælum urðu Gyðingar svo uppvægir, að þeir kölluðu Jesú í smánarskyni *Samverja* og *djöfulóðan mann*. „Jeg leita ekki sjálfum mjer virðingar", mælti Jesús; „en hver, sem heldur mín orð, skal ekki sjá dauðann að eilífu". „Hvernig þá?" mæltu Gyðingar; „Abraham og spámennirnir eru dánir; ert þú þá meiri en Abraham, faðir vor?" „Ef jeg lofa mig sjálfur", svaraði Jesús, „þá er mín dýrð engin. En faðir minn, sem þjer segið vera yðvarn guð, hann lofar mig. Og Abraham, ættfaðir yðar, fagnaði yfir, að sjá minn dag; hann sá hann, og gladdist yfir því". Óvinir Jesú

spurðu hann þá í háði, og ljetust verða frá sjer numdir af undrun: „Þú ert enn ekki fimmtugur, og hefur þó sjeð Abraham?“ „Já“, svaraði Jesús, „jeg segi yður það satt, að jeg var til á undan Abraham“. Þetta þótti hinum fávísu mönnum vera guðlast; þeir tóku upp steina, og ætluðu að grýta hann í hel. En tíminn var enn ekki kominn, og Jesús gekk burtu á meðal þeirra, og sakaði alls ekki. Á seinasta sabbatsdeginum í hátíðinni gekk Jesús og lærisveinar hans fram hjá manni nokkrum, sem var fæddur blindur. Lærisveinarnir spurðu þá Jesú, hvort það væri fyrir hans syndir eða foreldra hans, að hann þyldi slíka refsingu. Jesús svaraði, að það væri hvorki vegna hans synda nje foreldra hans, heldur til þess, að almætti guðs skyldi birtast á honum. Að því mæltu gaf hann manninum sjónina. Þeir, sem manninn þekktu, undruðust mjög yfir því, er hann var orðinn heilbrigður, og þó enn meira yfir þeim hætti, sem hann var læknaður á. Að lyktum var hann færður á ráðherraþingið, og sögðu þá sumir, að það gæti ekki verið, að Jesús hefði mátt sinn frá guði, þar eð hann hefði læknað mann þennan á sabbatsdegi. Aðrir hjeldu þar á móti, að hann mundi þó ekki hafa getað læknað hann, ef guð styrkti hann ekki, og maðurinn, sem sjónina hafði fengið, sagði hann vera spámann. Hinir sögðu þá, að mað-

urinn mundi aldrei hafa verið blindur, og sóttu foreldra hans, til þess að vita, hvort svo væri. Foreldrarnir sögðu, að maðurinn væri sonur þeirra, sem hefði verið blindur frá fæðingu sinni, en þau þorðu ekki annað [redacted] að segja, að þau vissu ekki, hvernig hann hefði fengið sjónina. Þegar Farísear gátu nú ekki neitað því, sem þeir ætluðu að ónýta, þá kölluðu þeir manninn fyrir sig að nýju, og sögðu, eins og rjettvísir dómarar og óhlutdrægir: „Gef þú guði dýrðina (ɔ: þakka þú guði) fyrir það, sem orðið er. Vjer vitum, að sá, sem læknaði þig, er syndari“. En maðurinn svaraði þeim hispurslaust, og mælti: „Ekki veit jeg það, að hann sje syndari, en það veit jeg, að jeg, sem var blindur, hef nú fulla sjón“. Farísear spyrja hann þá aptur í gremju sinni, hvernig hann hafi fengið sjónina. „Jeg sagði yður frá því nýlega“, mælti hann, „og þjer hafið þá ekki tekið eptir því. Eða hví spyrjið þjer að því að nýju? Ætlið þjer að gjörast lærisveinar hans?“ „Nei“, segja þeir; „það ert þú, sem ert lærisveinn hans, en vjer erum lærisveinar Mósis; um hinn vitum vjer alls ekki, hvaðan hann er“. Maðurinn svaraði þá aptur: „Það kynjar mig, að þjer skuluð ekki vita það um hann, sem hefur lokið upp augum mínum; því vjer vitum, að guð bænheyrir ekki syndarann. En þann, sem óttast guð og breytir eptir hans vilja, bænheyrir

hann. Væri hann ekki frá guði, þá gæti hann ekki heldur gjört slík undur". „Þú ert fæddur í syndinni, og ætlar þó að fara að fræða oss", sögðu Farísearnir, og hrundu manninum út úr þingsalnum í bræði. Jesús mætti honum, þegar hann kom þaðan, og spyr hann, hvort hann trúi á guðsson (ɔ: Messías). Maðurinn svaraði honum með því að spyrja, hver þessi guðssonur væri, til þess að hann gæti vottað honum trú sína. Jesús segist þá vera sá hinn fyrirheitni, og hinn ungi maður viðurkennir nú með lotningu, að hann sje mynd guðs í heiminum. „Já", segir Jesús, „jeg er kominn til þess, að þeir verði sjáandi, sem áður voru blindir, en þeir aptur blindir, sem áður voru sjóngóðir". „Erum vjer þá blindir?" spurðu Farísear nokkrir, sem þar voru viðstaddir, og sem einatt virðast að hafa verið hjá Jesú, þegar hann kom fram opinberlega. „Ef þjer væruð í raun og veru blindir, þá hefðuð þjer enga synd; en þjer þykizt sjá, og þess vegna syndgið þjer", mælti Jesús. Að því búnu hjelt hann snjalla ræðu og fagra; þar líkir hann sjer við góðan hirði, sem leggur lífið í sölurnar fyrir hjörð sína, þar sem leiguliðinn, sem ekki á hjörðina, renni þegar á flótta, til þess að forða sjálfum sjer, þegar hann sjái úlfinn koma. „Jeg hef einnig aðra sauði", segir Jesús, „sem ekki eru af þessari hjörð. Þeim ber mjer og að koma hingað, og

þeir munu heyra röddu mína, *og það mun verða ein hjörð og einn hirðir*. Þess vegna elskar faðirinn mig fyrir það, að *jeg legg líf mitt í sölurnar, til þess að taka það aptur seinna*. Enginn tekur það af mjer, heldur legg jeg það sjálfur frá mjer. Jeg hef vald til þess, að gefa það út, og vald til þess, að taka það aptur; því þá skipan hef jeg fengið frá föður mínum“ (Jóh. 7.—10. k.).

Þessi ræða varð jafnárangurslítil hjá lýðnum og aðrar tölur Jesú, og ráðherraþingið var búið að útilykja sjerhvern áhanganda hans frá trúarfjelagi Gyðinga og samkundum þeirra. Eptir hátíðina fer Jesús því burtu úr Jórsölum með lærisveina sína til Sesarsborgar Filippusar (*Caesarea Philippi*). Þar spurði Jesús lærisveinana að, hvern menn ætluðu sig vera. Þeir svöruðu, að sumir hjeldu hann vera Jóhannes skírara, aðrir Elías, og enn aðrir Jeremías, eða þá einhvern hinna fornu spámanna. „Og hvern segið þjer mig?“ spurði Jesús þá postulana. „Þú ert Kristur, sonur guðs hins lifanda“, svaraði Pjetur. „Sæll ert þú, Símon Jónasson“, segir Jesús, „því þetta hefur hold og blóð (ɔ: mannlegt hyggjuvit) ekki birt þjer, heldur faðir minn, sem er á himnum. Þess vegna heitir þú og *Pjetur*, og á þeim *kletti* ætla jeg að reisa söfnuð, sem hlið (ɔ: máttur) helvítis skal engu á orka. Og jeg ætla að fá þjer lykla himnaríkis, svo

að hvað sem þú bindur hjer á jörðu, það skal vera bundið á himnum, og hvað sem þú leysir hjer, það skal verða laust á himnum". Samt sem áður voru þó ekki hugmyndir Pjeturs nje hinna postulanna svo skýrar um Messías, eins og Jesús vildi; þess vegna bannaði hann þeim ekki einungis, að segja nokkrum frá því, að hann væri Messías, heldur reyndi hann og til þess, að opna augu þeirra, með því að segja þeim, að bráðum ætti sonur mannsins að fara til Jórsala, og þola þar þungar píslir af völdum hinna æðstu presta, höfðingjanna og hinna ritningfróðu manna, *og jafnvel verða tekinn af lífi, til þess að rísa upp aptur frá dauðum á hinum þriðja degi*". Pjetur varð hræddur af þessu, og ávítar Jesú í einrúmi fyrir slík orð: „Herra", segir hann, „þyrm þú sjálfum þjer. Guð láti þetta aldrei verða". „Far þú frá mjer satan" (ɔ: freistari), mælti Jesús; „þú ert mjer til hneykslunar; því þú skilur einungis hið mannlega, en ekki hið guðlega". Enn fremur sagði hann við lærisveinana: „Hver sem mjer vill fylgja, hann taki sinn kross og afneiti sjálfum sjer; því hver sem vill bjarga lífinu, hann skal missa það, en hver sem missir það mín vegna, hann skal finna það aptur. En hvaða gagn væri það fyrir manninn, þó hann ynni allan heiminn, en biði tjón á sálu sinni? Hvaða skaðabætur gæti maðurinn fengið fyrir missi sálar sinnar? Já, sonur

mannsins á að koma í dýrð föður síns með engla sína, og þá mun hann gjalda sjerhverjum eptir verðleikum. Hver sem ekki vill kannast við mig nje orð mín, við hann skal sonur mannsins ekki kannast, þegar hann kemur í dýrð sinni“.

Sex dögum eptir þetta tók Jesús þá Pjetur, Jakob og Jóhannes með sjer upp á fjall eitt; þar var hann ásamt þeim heila nótt á bæn. Pjetur og hinir báðir lærisveinarnir voru syfjaðir mjög, og máttu ekki vaka. En er þeir vöknuðu, sáu þeir Jesú í dýrð sinni og himneskum ljóma. Andlit hans var bjart eins og sólin, klæði hans hvít eins og dagsbirtan, og tveir menn töluðu við hann. Þá mælti Pjetur og, í því mennirnir fóru frá Jesú: „Meistari, hjer er gott að vera. Vjer skulum reisa oss hjer þrjá bústaði, einn handa þjer, annan handa Elía, og hinn þriðja handa Móses“. En áður en hann hafði sleppt seinasta orðinu, steyptist skýflóki yfir báða hina ókunnugu menn, og rödd úr skýinu mælti: „Þetta er elskulegur sonur minn, sem mjer þykir vænt um. Honum skuluð þjer hlýða“. Skýflókinn sveif í lopt upp, og nú kom Jesús til lærisveinanna, sagði þeim að vera óhrædd-um og segja engum frá sjón þessari, fyrri en sonur mannsins væri risinn upp aptur frá hin-um dauðu.

Sögn Jesú um píslir sínar og dauða í Jór-sölum hafði fyllt huga lærisveinanna með kvíða;

því hugur þeirra var einatt mjög fastur við jarðneskt veldi og tign. En það lítur svo út, eins og þessi atburður á fjallinu hafi aptur vakið von þeirra um tign Messías, sem skömmu seinna lýsti sjer í hjegómlegri keppni. Þegar Jesús kom aptur þangað, sem hinir lærisveinarnir voru, þá var þar múgur og margmenni með sjúkling einn, sem lærisveinarnir höfðu ekki getað læknað. Jesús talaði eitt orð, og maðurinn var þegar heill heilsu; hinn vondi andi yfirgaf hann. Lærisveinarnir undruðust þetta, og spurðu, hvers vegna sjer hefði ekki tekizt, að lækna hann. „Vegna vantrúar yðar", segir Jesús; *„því ef þjer væruð eins trúarsterkir og mustarðskornið, þá gætuð þjer fært fjöll úr stað;* þá væri yður ekkert um megn". Á leiðinni frá Sesareu kom hinn gyðinglegi andi lærisveinanna fram í þrætu um það, hver þeirra mundi verða æðstur í himnaríki. Jesús vildi rýma þessu drembilega hugarfari út hjá þeim. Þegar hann kom til Kapernaum, tók hann þess vegna ungbarn nokkurt, setti það á meðal þeirra, og mælti: „Án þess að þjer snúið yður, og verðið eins og börn, getið þjer ekki komizt í guðsríki; því sá, sem lítillækkar sjálfan sig, eins og barnið gjörir, hann er æðstur í ríki himinsins". Þá spurði Pjetur, hversu opt manni bæri að fyrirgefa náunga sínum, þegar hann hefði orðið brotlegur við mann; hvort það ætti að vera 7 sinnum.

Jesús svaraði: „Ekki 7, heldur 70 sinnum 7 sinnum ber manni að fyrirgefa náunganum yfirsjón sína". Þetta tók hann enn glöggar fram í *dæmisögunni um hinn skulduga þjón* (Mt. 16., 13., 17. og 18. kk.).

Jesús hafði varað lærisveina sína við hinu eigingjarna drambi, sem olli sundurlyndis á milli þeirra, og gjörði þá óhæfilega til starfa þess, sem hann ætlaði þeim; því hann varð ekki framkvæmdur, nema einungis með eindrægni og auðmjúkri sjálfsafneitun. Jesús hefur nú án efa um nokkurn tíma haldið áfram að kenna í Galíleu, og *einkum postulunum*. Hann sendi þá og frá sjer hina 70 lærisveina, til þess að venja þá við að kenna. „Uppskeran er mikil, en vinnumennirnir fáir. Biðjið herra uppskerunnar, að senda vinnumenn til hennar". Með þessum ávarpsorðum sendi Jesús þá frá sjer, til þess að boða guðsríki, eptir það hann hafði gefið þeim sömu reglur, og hann gaf áður hinum 12 postulum. Smátt og smátt komu þeir aptur, og voru glaðir af því, hvað sjer hefði gengið vel. „Jafnvel hinir illu andar hlýddu oss", sögðu þeir við Jesú. En hann, sem vissi, hvað í ókomna tímanum bjó, mælti þá: „Jeg sá höfðingja hinna illu anda falla niður af himnum, eins og eldingu. Jeg gef yður megn til þess, að ganga á höggormum og sporðdrekum; ekkert skal gjöra yður mein (fyrirstöðu).

En þjer skuluð samt ekki hælast um það, að andarnir eru yður undirgefnir, heldur gleðjast af því, að nöfn yðar eru rituð á himnum“.

Þessar kenningar gátu ekki verið hinum *ritningfróðu mönnum* geðfelldar, sem þóttust svo mjög af vizku sinni og lærdómi. Einn þeirra, sem líklega hefur heldur verið af flokki hinna þóttafullu *Saddúsea*, en hinna vonzkufullu *Farísea*, ætlaði því að reyna sig við Jesú, og spurði hann að, hvert væri hið æðsta boðorð í lögmálinu. Jesús spurði hann aptur: „Hvað er ritað [redacted] það [redacted] lögmálinu sjálfu?“ „Elska skaltu drottinn, guð þinn, af öllu hjarta þínu, af allri sálu þinni, af öllum mætti þínum, og náunga þinn eins og sjálfan þig“, svaraði hinn ritningfróði. „Þú svaraðir öldungis rjett“, mælti Jesús; *„gjör þú þetta og muntu lifa“*. En það lítur svo út, eins og að hinum ritningfróða manni hafi verið annara um orð en verk; því nú spyr hann: „Hver er þá náungi minn?“ Þá svaraði Jesús: „Maður nokkur fór frá Jórsölum ofan til Jeríkóar, og lenti í ræningjahöndum. Ræningjarnir börðu hann, flettu hann klæðum, og gengu síðan burtu frá honum hálfdauðum. Þá vildi svo til, að prestur nokkur fór um þennan hinn sama veg, sá manninn og hjelt áfram. Á sömu leið fór og fyrir Levísniðja einum, sem einnig fór um veginn. Loks fór þar um maður nokkur samverskur; hann sá

manninn, og kenndi innilega [redacted] brjósti [redacted] hann. Hann fór þess vegna til hans, batt sár hans, og þvoði þau upp úr viðsmjöri og víni, lagði hann því næst upp á eyk sinn, flutti hann til næsta bæjar og annaðist um, að honum væri hjúkrað. Þegar hann fór á stað daginn eptir, tók hann upp hjá sjer peninga, fjekk húsbóndanum þá og mælti: Annast þú [redacted] manninn, og það, sem þú kostar meiru til, en þetta er, skal jeg borga þjer, þegar jeg kem aptur. Hver þessara [redacted] sýnist þjer vera náungi mannsins, sem fyrir óhappinu varð?" spurði Jesús. „Sá sem gjörði á honum miskunarverkið", svaraði hinn ritningfróði. „*Far þú og gjör slíkt hið sama*", sagði Jesús (Lúk. 9.—10. kk.).

Jesús hafði einnig ásett sjer, að vera í Jórsölum á *musterisvígsluhátíðinni,* sem var haldin [redacted] desembermánuði í minningu þess, [redacted] musterið var hreinsað á dögum Júdasar Makkabea. Á leiðinni sendi hann lærisveina sína til bæjar nokkurs [redacted] Samverjalandi, til þess að fá sjer náttstað. En af því ferðinni var heitið til Jórsala, vildu ekki bæjarmenn hýsa þá. Urðu nú lærisveinarnir æfir af þessu, og er þeir komu aptur til Jesú, spurðu þeir *Jóhannes* og *Jakob,* hvort þeir mættu ekki kalla eld af himnum niður, til þess að eyðileggja bæinn. Jesús ávítaði þá harðlega fyrir þennan nýja vott [redacted] gyðinglegt umburðarleysi þeirra og hörku. „Þjer vitið

ekki“, sagði hann, „af hvaða anda þjer talið. Sonur mannsins er ekki kominn til þess, að tortýna mönnunum, heldur til þess, að frelsa þá“. Jesús fór þá aðra leið, og þar kom til hans maður, sem bað um, að mega fylgja honum, hvert sem hann færi. „Refar hafa holur“, svaraði Jesús, „og fuglar himinsins eiga sjer hreiður, en sonur mannsins á ekkert hæli fyrir höfuð sitt“. Þannig svaraði hann og öðrum manni, sem hann hafði skorað á að fylgja sjer, og sem var fús á að gjöra það, þegar hann væri búinn að grafa föður sinn: „Láttu hina dauðu grafa sína dauðu, en far þú sjálfur og boðaðu guðsríki“. Loksins kom Jesús til Betaníu, skammt frá Jórsölum; þar dvaldi hann hjá *Lazarusi* og systrum hans 2, *Mörtu* og *Maríu;* því það var vinafólk hans. Þegar Jesús var kominn, settist María við fætur hans og hlýddi á ræður hans, en Marta gekk um beina, og gjörði sjer ærinn ómaka fyrir. Loksins bað hún Jesú, að segja systur sinni að hjálpa sjer. Jesús svaraði: „Marta, Marta, þú mæðir þig á svo mörgu, sem truflar huga þinn. Eitt er nauðsynlegt, og María hefur valið sjer hinn betra hluta, sem hún skal ekki verða svipt“ (Lk. 9., 51.—56. 10., 38.).

Á musterisvígsluhátíðinni kom Jesús aptur fram í musterinu. Og er Gyðingar skoruðu nú á hann að segja, hvort hann væri Messías, þá mælti hann: „*Jeg og faðirinn erum eitt*“.

Þetta kölluðu Gyðingar guðlast, og í bræði sinni yfir því, að hann, maðurinn, vildi gjöra sig jafnan guði, hófu þeir upp steina, og ætluðu að berja hann með þeim til bana. „Hvað þá?“ spyr Jesús. „Í heilagri ritningu (2. Mb. 22. Sálm. 82.) eru dómarar lýðsins kallaðir *guðir*. Ef að þeir voru kallaðir guðir, sem guðsorð var boðað, og ritningunni getur ekki skeikað, hvernig getið þjer þá sagt, að hann, sem faðirinn hefur helgað og sent í heiminn, tali óhæfu í gegn guði, þó hann segist vera sonur guðs?“ (Jóh. 10., 22.).

Jafnvel þó Gyðingar gætu ekki hrundið því, sem ekki varð hrakið, leituðust þeir samt við, að handtaka Jesú, og þess vegna fór hann á braut aptur úr Jórsölum. Þá lítur svo út, eins og hann hafi ekki snúið aptur til Galíleu, heldur virðist hann að hafa dvalið í *Pereu* (austan Jórdanar), þar sem margir trúðu á hann, vegna þess að þeir mundu eptir orðum Jóhannesar skírara. En sendimenn Faríseanna fóru og með honum þangað. Þeir spurðu Jesú, hvort það væri leyfilegt, að skilja sig við konu sína, og virðast þeir hafa ætlað til, að svar Jesú skyldi æsa Antípas á móti honum. Jesús svaraði, að það, sem guð hefði saman tengt, mættu menn ekki að skilja, og sagði, að hjónaskilnaður væri hjónabandsrof, nema skilnaðurinn væri byggður á hjónabandsrofi. Þegar þeir báru nú fyrir sig Móses gegn þessu, þá svaraði Jesús, að hann

hefði leyft hjónaskilnað einungis vegna vonzku þeirra og spillingar. Eins og vonzka Faríseanna mátti ekki tálma Jesú frá, að segja skýlaust sannleikann, eins virðast þeir hjer ekki heldur að hafa getað hamlað lýðnum frá, að undrast hann og hníga að honum. Mæðurnar komu jafnvel með ungbörn sín til hans, til þess hann legði blessan sína yfir þau. Lærisveinunum þótti það ekki samsvara tign hans, og ætluðu að reka þær burtu með valdi, en Jesús mælti: „Látið ungbörnin í friði, og bægið þeim ekki frá; því slíkum heyrir guðsríki. *Hver sem ekki tekur við guðsríki eins og ungbarn, hann kemur þangað aldrei*“.

En það voru ekki einungis hinar guðhræddu mæður, sem komu til Jesú, heldur kom og einn af landstjórunum til hans, og spurði: „Meistari góður, hvað á jeg að gjöra til þess, að jeg fái eilíft líf?“ „Hví kallar þú mig *góðan?*“ svaraði Jesús. „Enginn er góður, nema guð einn. En viljir þú öðlast hið eilífa líf, þá haltu boðorðin í lögum Mósis“. Maðurinn svaraði: „Þau hef jeg nákvæmlega haldið, síðan jeg var barn; hvers er mjer þá enn ávant?“ „Ef þú vilt vera algjörður“, mælti Jesús, „þá seldu allt, sem þú átt, og gef það fátækum; þá eignast þú fjársjóð á himnum. Kom þú síðan og fylg mjer“. Þegar maðurinn heyrði þetta, gekk hann angurvær á burtu; því hann var vellauðugur. Þá

mælti Jesús við lærisveinana: „Jeg segi yður satt, að það er hægra fyrir úlfaldann, að fara í gegn um nálarauga, en fyrir ríkan mann að komast inn í himnaríki“. Þá urðu lærisveinarnir hissa, og mæltu: „Hver getur þá orðið hólpinn?“ Jesús leit á þá og mælti: „Fyrir manna-sjónum er þetta að vísu ekki unnt, en guði er ekkert ómegnugt“. „Já“, mælti Pjetur, „vjer höfum yfirgefið allt, til þess að fylgja þjer, og hvað fáum vjer þá í staðinn?“ Jesús svaraði honum: „Jeg segi yður satt, að þjer, sem hafið fylgt mjer, skuluð á síðan sitja á tólf stólum, og dæma hinar tólf ættir Ísraelinga, þegar tími endurfæðingarinnar er kominn, og sonur mannsins situr í hásæti dýrðarinnar“. En til þess, að efla ekki *ímyndanir* þeirra um jarðneskt veldi og virðingu, þá sagði hann þeim *dæmisöguna um manninn, sem leigði vinnumenn í víngarð sinn.* Sömuleiðis sýndi hann og með *dæmisögunni um hinn ríka mann og fátæklinginn,* hversu gæði þessa heims eru fjarri því, að geta vissað manninn um eilífa sælu (Mt. 19. og 20. kk. Lk. 16., 19.).

Það lítur svo út, eins og Jesús hafi dvalið í Pereu fram undir hina síðustu páska. Þá fjekk hann boð frá Betaníu um, að Lazarus vinur hans lægi sjúkur, og væri mjög þungt haldinn. Samt sem áður dvaldi hann þá enn 2 daga í Pereu, áður hann fór á stað til Betaníu;

„því þessi sjúkleiki er ekki banvænn“, sagði hann, „heldur á hann að birta dýrð guðssonar“. En á leiðinni til Júdeu segir hann við lærisveinana: „Lazarus, vinur vor, *sefur;* jeg ætla að fara og vekja hann“. „Já“, segja þeir; „ef hann sefur, þá verður hann bráðum heilbrigður aptur“. Þá segir Jesús aptur: „*Lazarus er dáinn*“. Þegar Jesús kom til Betaníu, var Lazarus dáinn fyrir 4 dögum, og búið að jarða hann. Marta, systir hans, gekk á móti Jesú og mælti: „Hefðir þú komið fyrri, herra, þá væri bróðir minn ekki dáinn. Jeg veit reyndar, að hvað sem þú biður guð um, það veitir hann þjer“. Jesús sagði: „Bróðir þinn á að rísa upp aptur“. „Það veit jeg“, segir Marta, „að á efsta degi mun hann rísa upp úr gröf sinni“. „Jeg er upprisan og lífið“, svaraði Jesús; „hver sem trúir á mig, hann skal lifa til eilífðar, þótt hann deyi. — Trúir þú því?“ „Já, herra!“ segir Marta. „Jeg trúi því, að þú ert Kristur, sonur guðs, sem kominn ert í heiminn“. Síðan gekk Marta til systur sinnar, og sagði henni, að *meistarinn* væri kominn. María gekk þá til hans, og með henni mikill fjöldi Gyðinga, sem komnir voru frá Jórsölum, til þess að hugga hana. María fjell Jesú til fóta og mælti: „Herra, ef þú hefðir verið hjer, þá væri bróðir minn ekki dáinn“. Þá tárfelldi Jesús af meðaumkvun yfir hinni grátandi systur og syrgjandi vinum, og spyr:

„Hvar hafið þjer lagt hann?“ Honum var þá fylgt til grafarinnar, og bauð hann, að velta steininum frá grafarmunnanum. Marta sagði, að það væri án efa þegar komin rotnunarlykt af líkinu, þar eð það væri búið að liggja þar í 4 daga. Þá spyr Jesús: „Sagði jeg þjer ekki, að ef þú tryðir, skyldir þú sjá dýrð guðs?“ Síðan hóf hann augu sín til himins og mælti: „Faðir, jeg þakka þjer fyrir, að þú hefur bænheyrt mig. Jeg veit, að þú bænheyrir mig ætíð, en jeg þakka þjer vegna lýðsins, til þess hann geti sjeð, að þú hefur sent mig“. Að svo mæltu kallaði hann með hárri röddu: „Lazarus! kom þú út úr gröfinni“. Þá kom hinn andaði fram í líkklæðum, *og þeir, sem sáu það, trúðu á Jesú* (Jóh. 11.).

Gyðingar undruðust það mjög, er þeir vissu, að Jesús hafði vakið Lazarus frá dauðum. Menn þustu hópum saman til Betaníu, til þess að sjá hinn endurlífgaða mann, og furða sig á honum, sem hafði kallað hann til lífsins að nýju. Atburður þessi varð svo skammt frá Jórsölum, að hann hlaut að hafa mikil áhrif á alla; vinir Jesú ímynduðu sjer, að hann mundi nú bráðum koma fram í allri þeirri jarðnesku dýrð, sem þeim fannst vera samboðin frelsara og hefni þjóðarinnar; óvinir hans voru þar á móti óðir af bræði. Ráðherrarnir komu á fund. „Hvað eigum vjer að taka til bragðs?“ spyrja þeir hverjir aðra. „Þessi

maður gjörir svo mörg furðuverk. Ef vjer nú látum hann halda þannig áfram, þá fara allir að trúa á hann, og þegar Rómverjar síðan koma, þá eyðileggja þeir bæði land og þjóð". Saddúseinn *Kajafas* var mjög æfur við Jesú, og tók nú til máls þannig: „Þjer vitið ekkert. Þjer hugsið ekki eptir því, *að það er oss betra, að einn deyi fyrir lýðinn, en að allir tortýnist*". Með þessum orðum sagði hann því fyrir *friðþægjandi dauða* Jesú, og það óafvitandi. Það var nú afráðið, að ráða Jesú af dögum, með hverjum hætti sem bezt gengi, og jafnvel einnig Lazarus. En tíminn var ekki kominn, og Jesús fór í óbyggð eina skammt frá Jórsölum; þar dvaldi hann fram að hinum seinustu páskum í þorpi nokkru, sem hjet *Efraím* (Jóh. 11., 45.).

Það hefur, ef til vill, verið þessa hina síðustu daga Jesú, sem Samverji nokkur gjörði hinum dramblátu Gyðingum kinnroða með breytni sinni, og með því að hugmyndir hans voru fegri og hreinni. Svo stóð sumsje á, að Jesús læknaði einu sinni tíu menn líkþráa. En þegar prestarnir höfðu gefið þeim vissu fyrir, að þeir væru hreinir orðnir, sneri þó ekki nema einn af þeim heim aptur til Jesú, til þess að þakka honum fyrir, og þessi eini maður var Samverji, en hinir 9 Gyðingar (Lk. 17., 11.).

Samræður Jesú við lærisveinana voru nú

helzt um píslir hans og dauða, sem fyrir honum lægi. Þeir voru því daprir mjög í huga, er þeir byrjuðu ferðina til Jórsala. Samt vakti þó í hjörtum þeirra von um sigur yfir óvinum Jesú, og um sælli daga í ríki því, er síðar mundi upp koma. Móðir þeirra *Jakobs* og *Jóhannesar* kom jafnvel til Jesú, til þess að biðja hann um, að leyfa sonum sínum að sitja hið næsta sjer í guðsríki. „Þið vitið ekki, hvers þið biðjið“, svaraði Jesús þeim með blíðu. „Eða getið þið drukkið þann bikar, sem jeg á að drekka, og skírzt þeirri skírn, sem jeg á að skírast?“ „Jú, það getum við“, svöruðu þeir. „Það er gott!“ mælti Jesús; „þið skuluð einnig fá að tæma þennan bikar. En að skipa nokkrum til sætis á hægri eða vinstri hönd mjer, það gjöri jeg ekki nema eptir því, sem faðir minn ákveður“. Hinir lærisveinarnir reiddust yfir þessari bón hinna tveggja. Þá mælti Jesús: „Hver yðar, sem vill vera æðstur, hann þjóni hinum, en ekki eins og jarðneskir höfðingjar, sem drottna yfir þegnum sínum, heldur eins og sonur mannsins, sem ekki er kominn til þess, að láta aðra þjóna sjer, heldur til þess, að þjóna sjálfur, og gefa líf sitt til lausnar fyrir marga“. Páskarnir nálguðust, og menn fóru þegar að flykkjast til Jórsala. Sumir hjeldu því, að Jesús mundi ekki þora að koma fram í höfuðborginni, og bjóða þannig óvinamergð sinni

byrginn. Í trausti þessa virðist og ráðherraþingið að hafa skipað hverjum, sem vissi, hvar hann væri, að segja til hans, til þess hann yrði tekinn höndum (Mt. 20., 17. Jóh. 11., 54.). En hinn rjettláti leyndi sjer ekki, þegar hans tími var kominn. Hann var þegar kominn á ferðina til Jórsala. En þegar hann fór um Jeríkó, var þar ríkur tollheimtumaður einn, sem langaði til að sjá hann. Hann hjet *Sakkeus,* og af því hann var lítill vexti, steig hann upp í *mórberjatrje* nokkurt, til þess að geta sjeð Jesú í mannþrönginni, þegar hann færi fram hjá. Jesús varð var við hann í trjenu, og bað hann koma ofan; „því í dag á jeg að heimsækja þig“, sagði hann. Frá sjer numinn af gleði steig Sakkeus þegar niður úr eikinni. Og er hinir skinhelgu Gyðingar álösuðu Jesú fyrir það, hversu mjög hann auðvirti sig með því, að virða tollheimtumanninn viðtals og heimsóknar, þá gekk hann að Jesú og mælti: „Sjá, herra! helming af öllum eigum mínum gef jeg fátækum, og hafi jeg ásælzt nokkurn mann ranglega, þá skal jeg gjalda honum það ferfalt aptur“. „Já“, sagði Jesús, „sonur mannsins er kominn til þess, að leita eptir hinu týnda og helga það“. Síðan sagði hann dæmisöguna um vaxtafjeð, sem eptir frásögn Lúkasar (19., 11.) átti að lúta að þeim, sem væntu þá þegar eptir birtingu guðsríkis.

Sex dögum fyrir páska kom Jesús til Betaníu, og sat þar á sabbatsdeginum til borðs ásamt Lazarusi og ýmsum mönnum öðrum. Meðan á máltíðinni stóð, kom María, systir Lazarusar, og smurði fætur Jesú með einu pundi af hinum dýrustu smyrslum, og þerrði þá síðan með hári sínu. Þá mælti hinn sjerplægni Júdas frá Karíot: „Hví voru ekki smyrsl þessi seld fyrir 300 *denaría*, og gefin *fátækum?*“ Júdas átti sumsje að annast um gjafir til fátækra, og ljet hann þá margan pening renna í sinn eiginn sjóð. Jesús svaraði honum, og mælti með blíðri alvöru: „*Láttu hana vera í friði; því þessi smyrsl hefur hún geymt mínum greptrunardegi* (ɔ: hún hefur smurt líkama minn fyrir fram, eins og hana grunaði, hvað skammt jeg á eptir ólifað). *Fátæklinga hafið þjer jafnan hjá yður, en mig ekki*“ (Jóh. 12.).

---

## 4. tímabil.

### *Píslir Jesú, dauði, upprisa og himnaför.*

---

Sunnudaginn fyrir páska fór Jesús frá Betaníu til Jórsala, og með honum mikill fjöldi manna,

sem komnir voru til Betaníu, og af öðrum, sem hvervetna streymdu að um langar leiðir, til þess að vera í Jórsölum á hátíðinni. Við þetta tækifæri vildi Jesús koma fram opinberlega fyrir lýðnum, eins og hinn fyrirheitni Messías. Hann sendi því tvo af lærisveinum sínum, til þess að sækja ösnu eina og fola hennar, og heimfærði þá til sín orð Sakaría spámanns (9., 9.): „Segið dóttur Síonar (ɔ: borginni á Síon = Jórsölum): Sjá! konungur þinn kemur til þín, hógvær og friðsamur; hann kemur ríðandi á ösnu; á ösnufola kemur hann“. Þannig hjelt Jesús tignarlega innreið í Jórsali. Margir þustu út úr borginni, þegar þeir heyrðu getið um komu hans, og frá sjer numdir heilsuðu þeir honum nú, eins og hinum eptirvænta Messías. Lýðurinn breiddi klæði sín á veginn, og pálmaviðarblöðum var stráð undir fætur ösnunnar, en manngrúinn kallaði upp af fögnuði og mælti: „*Hósíanna! sonur Davíðs! blessaður sje sá, sem kemur í nafni Jehóva; hósíanna í hæstum hæðum!*“ Með lifandi gleði tóku lærisveinarnir þátt í atburði þessum, sem þeir höfðu svo lengi vænzt eptir og þráð. Þeir lofuðu guð með hárri röddu, og dáðust að öllum þeim góðu verkum Jesú, sem þeir höfðu verið sjónarvottar að, og mæltu: „*Blessaður sje sá, sem kemur eins og konungur í nafni Jehóva. Friður á himnum og dýrð í upphæðum!*“ Að vísu báðu nokkrir Farísear, sem líklega hafa

verið njósnarmenn, Jesú, að þagga niður í lærisveinunum. „Jeg segi yður það satt“, mælti hann, „að ef þeir þegðu, þá mundu steinarnir mæla“. En er Jesús nálgaðist Jórsali, grjet hann yfir borginni, og mælti: „Ef að þú vissir, og það jafnvel í dag fyrst, hvað þjer er fyrir beztu! En, æ, það er þjer hulið. Þess vegna eiga og þeir dagar að koma yfir þig, þegar óvinir þínir munu byggja um þig hervirki, og herja á þig öllu megin, og kreppa að þjer hvervetna. Og þeir munu eyðileggja þig gjörsamlega, rýma út börnum þínum, og ekki láta neinn stein í þjer vera óhaggaðan, vegna þess þú þekktir ekki lausnartíma þinn“. Eptir því sem ráða má, hefur flokkurinn haldið áfram til musterisins, og rak Jesús þá í annað sinn verzlunarmenn út úr forgarði þess. „Ritað er: *Mitt hús er bænahús*, en þjer hafið gjört það að ræningjabæli“, sagði Jesús, og Farísearnir urðu að horfa á allt þetta, og gátu ekkert að gjört, hversu mjög sem þeim gramdist það með sjálfum sjer. En þegar ungbörnin fóru að kalla „Hósíanna! sonur Davíðs!“ þá gátu þeir ekki þagað lengur, heldur spurðu þá Jesú: „Heyrir þú, hvað þessir segja?“ „Já“, svaraði Jesús. „Hafið þjer aldrei lesið þessi orð: Af munni hinna ómyndugu og brjóstmylkinganna muntu afla þjer lofkvæðis?“ Þegar Jesús var búinn að lækna sjúklingana, sem hjer komu til hans, fór hann

um kveldið á leið til Betaníu. Þar var hann um nóttina, líklega til þess, að komast hjá því, að verða myrtur á laun.

Á mánudagsmorguninn, þegar Jesús kenndi í musterinu, komu Faríseár og ritningfróðir menn, sem ráðherraþingið hafði sent, og spurðu hann, hver honum hefði gefið vald til þess, að reka verzlunarmennina út úr musterinu, eða hvaða vald hann hefði haft til þess. Jesús svaraði þeim með því að spyrja, hvort skírn Jóhannesar væri frá guði, eða einungis fundin upp af mönnum. Þeir þorðu ekki að neita hinu fyrra atriði spurningarinnar vegna lýðsins, [redacted] þeir sáu og, að ef þeir játuðu því, þá yrði vitnisburður Jóhannesar um Jesú einnig að álítast gildur. Þess vegna svöruðu þeir: „Vjer vitum það ekki“. „Þá það!“ svaraði Jesús; „þá þarf jeg ekki heldur að gjöra grein fyrir því, með hvaða valdi jeg gjöri þetta. Enn hvað virðist yður? Maður nokkur átti tvo sonu, og sagði hinum eldra, að vinna í víngarði sínum. Þá svaraði sonurinn: Nei, jeg vil það ekki. En hann iðraðist þó eptir það, og fór seinna. Hið sama mælti og faðirinn við yngri soninn, [redacted] sagði: Herra, jeg skal gjöra það, en fór þó hvergi. Hver þessara tveggja bræðra gjörði nú vilja föður síns?“ Þeir svörðu: „Hinn eldri“. „Já“, mælti Jesús, „vissulega koma tollheimtumenn og syndarar fyrri í guðsríki, [redacted] þjer; því Jóhannes sýndi yður veg rjettlætisins, en þjer

fylgduð honum ekki. Aptur á móti trúðu á hann bæði tollheimtumenn og syndarar, og það angraði yður ekki, þó þjer sæjuð allt þetta. Heyrið því aðra dæmisögu. Maður nokkur hafði látið gróðursetja víngarð, byggt um hann garð, og grafið við hann vínþrúgu. En nú ferðaðist hann einu sinni utanlands, og þá leigði hann öðrum garðinn. Þegar tími kom til, að gjalda ársleiguna, sendi hann þjóna sína eptir henni. En víngarðsmennirnir drápu þá alla. Hann sendi þá hverja að öðrum, og fór það allt á sömu leið. Loksins sendi garðeigandinn einkason sinn; því hann hjelt, að þeir mundu hlífa honum, og ekki þora að drepa hann. En er mennirnir, sem víngarðinn höfðu leigt, sáu soninn koma, sögðu þeir: Þarna kemur erfinginn; hann skulum vjer drepa; því þá verður garðurinn vor eign. Síðan tóku þeir hann, hrundu honum út úr víngarðinum og drápu hann. Hvað mun nú eigandi garðsins gjöra við menn þessa?“ Þá svöruðu óvinir Jesú með frekjulegum orðum, og mæltu: „Hann tekur sig til, refsar morðingjunum, og leigir víngarðinn öðrum mönnum, sem greiða honum leiguna á rjettum tíma“. Þá spurði Jesús hræsnara þessa: „Hafið þjer aldrei lesið þessi orð í heilagri ritningu:“ „Steinninn, sem vinnumennirnir köstuðu burtu, er orðinn helzti hornsteinninn; það hefur Jehóva gjört, og virðist það furðanlegt fyrir vorum augum?“

„Þess vegna segi jeg yður, að guðsríki mun verða tekið frá yður, og gefið þeim lýð, sem ber ávexti þess“.

Faríseararnir skildu dável, hvað lá í orðum Jesú, og hefðu án efa látið taka hann höndum, ef þeir hefðu þorað það sökum manngrúans, sem þar var við staddur, og hrifinn af undran yfir Jesú. Þvert á móti lítur svo út, eins og að þeir hafi haft sig á burtu, með nýjan ósigur fyrir spámanninum frá Galileu.

Þegar Faríseararnir voru farnir, bætti Jesús enn einni dæmisögu við ræðu sína, til þess að sýna lýðnum, að tóm játning kenningar sinnar væri eins höfnunarverð og hinn ósvífni mótþrói Faríseanna, og að auk þess, sem menn játuðu, að Jesús væri Messías, yrðu þeir og að lifa í dyggð og guðsótta. „Konungur nokkur“, sagði Jesús, „ætlaði að halda syni sínum brúðkaupsveizlu. Hann sendi því þjóna sína til þess, að bjóða hinum heldri mönnum til veizlunnar. En þeir afsökuðu sig með annríki sínu, og sumir svívirtu jafnvel þjónana og drápu þá. Þá reiddist konungur, og sendi her sinn, til þess að drepa níðingana og brenna hús þeirra. Síðan bauð hann þjónum sínum, að fara út á vegi og stræti, og safna saman öllum, sem þeir gætu, æðri og lægri, þurfamönnum og aumingjum; því veizlan væri til búin, en boðsmenn ekki verðir hennar. Þegar þessi lýður var setztur

til borðs, kom konungurinn inn til þeirra, til þess að virða þá fyrir sjer. Sá hann þá einn mann, sem ekki var í veizluklæðunum (því höfðingjar á austurlöndum gáfu þeim, sem ekki áttu slík klæði, á sig tignarklæði það, er við átti, og þeir áttu þá að bera í veizlunni til virðingar þeim, sem hjelt hana). Konungur spurði hann því, og mælti: Vinur, hví komst þú inn hingað, án þess að taka á þig veizluklæðin? Þegar nú maðurinn þagði, skipaði konungurinn, að binda hendur hans og fætur, og varpa honum út í hið svarta myrkur, þar sem væri grátur og tannagnístur. *Margir eru kallaðir, en hinir útvöldu eru fáir*".

Um kveldið fór Jesús aptur til Betaníu eða Getsemane, sem hann kom frá daginn eptir *(þriðjudaginn)* í seinasta sinni til musterisins. Farísear voru þá búnir að taka saman ráð sín um það, hvernig þeir skyldu veiða hann í orðum, til þess þeir gætu ákært hann fyrir upphlaup. Með vjelafullum virðingarlátum komu sendimenn þeirra um morguninn til Jesú í musterið og spurðu hann: „Meistari! vjer vitum, að þú ert sannsögull, og hirðir ekki um álit manna. Seg oss þess vegna, hvort þjer virðist það rjett, að gjalda keisaranum skatt?" En Jesús vissi gjörla, hvað undir þessu bjó, og mælti: „Þjer hræsnarar, hvers vegna freistið þjer mín (ɔ: leggið þjer snörur fyrir mig)? Sýnið mjer skatt-

peninginn“. Þeir rjettu honum rómverskan pening, sem skatturinn var greiddur í. „Hvers mynd og letur er þetta?“ spurði Jesús. Þeir svöruðu: „Hins rómverska keisara“. „Þá það!“ svaraði Jesús, „*gefið þá keisaranum það, sem keisaranum ber, og guði það, sem guði ber*“. Sendimenn undruðust vizku Jesú, og gátu nú engu svarað. Þá komu Saððúsear, og ætluðu með findnu háði að ónýta kenningu hans um ódauðleikann. „Meistari!“ sögðu þeir, „Móses hefur skipað, að þegar einhver deyi barnlaus, þá skuli hinn næsti ættingi ganga að eiga ekkjuna. Nú hefur ein kona með þessum hætti verið gipt sjö mönnum, hverjum eptir annan, og þó ekkert barn átt. Hver þessara 7 manna ætla verði maður hennar í öðru lífi?“ Jesús svaraði þeim: „Þjer villist, og þekkið hvorki ritningarnar nje almætti guðs. Í öðru lífi giptast menn hvorki nje kvænast, *heldur verða eins og englar guðs, sem á himnum eru*“. Það virðist eins og Farísear hafi þegar látið í ljósi gleði sína yfir því, að Jesús hafði rekið Saððúsea í vörðurnar, og þess vegna lækkaði hann einnig í þeim rostann, með því að spyrja þá, hvernig Davíð hefði getað kallað Messías bæði son sinn og drottinn. Þeir gátu eða vildu ekki leysa úr spurningu þessari, og þorðu nú ekki að reyna til, að veiða Jesú framar í orðum. Hjeðan af hugsuðu þeir ekki um annað, en vjelafullt of-

ríki (Mt. 21.—22.). Jesús vissi gjörla, hvað þeir höfðu fyrir stafni. Og í seinasta sinni brýnir hann nú rödd þá, sem svo opt hafði hljómað í musterinu til aðvörunar, og í óttalegri ræðu (Mt. 23.) lýsir hann þessum hræsnurum fyrir lýðnum með voðalegustu litum. „Á stóli Mósis sitja Farísear og ritningfróðir menn. Boðum þeirra megið þjer hlýða, en breytið ekki eptir verkum þeirra; því þeir kenna það, sem rjett er, en breyta ekki eptir því. Þeir binda þungar byrðar, sem ervitt er að bera, og leggja þær öðrum á herðar; sjálfir snerta þeir þær ekki með einum fingri. Þeir gjöra allt til þess eins, að verða virtir af mönnum. Þess vegna prýða þeir klæði sín með því, að rita á þau ýmisleg snillyrði, keppast eptir virðingarsætunum í samkvæmum og í samkundum, og vilja láta heilsa sjer eins og meisturum (rabbí). En hver, sem upphefur sjálfan sig, verður niðurlægður, og hver, sem litillækkar sjálfan sig, verður upphafinn. En vei yður, Farísear og ritningfróðir, því þjer lokið dyrum himnaríkis fyrir mönnum. Sjálfir farið þjer ekki inn þangað, en þjer standið og öðrum í vegi, sem vilja komast þangað inn. Vei yður, augnaþjónar, því þjer jetið upp hús ekknanna, og haldið langar bænagjörðir fyrir siðasakir, og til þess að láta aðra sjá það; því þyngri mun og refsingin verða á yður. Vei yður, því þjer farið um láð og lög til þess,

að fá menn í flokk með yður, og þegar einhver er þangað kominn, þá getið þjer hæglega gjört hann að barni helvítis, hálfu verri en þjer eruð sjálfir. Vei yður, þjer blindu leiðtogar, [redacted] segið: Ef nokkur sver við musterið, þá er sá eiður ógildur, en sá eiður er gildur, sem er unninn við gull musterisins. Þjer blindu heimskingjar, hvort er æðra gullið eða musterið, sem helgar gullið? Vei yður, þjer hræsnarar, sem leggið skatt á myntu og kúmen, en vanrækið það, sem æðra er í lögunum: rjettvísi, miskunsemi og trú. Þessir hlutir ættu að vera gjörðir, og hitt ekki vanrækt. Þjer blindu leiðtogar, þjer síið mýfluguna frá, en gleypið úlfaldann. Vei yður, þjer skinhelgu menn, [redacted] fægið ílát og bikara, en eruð hið innra fullir af ránum og rangsleitni. Vei yður; því þjer eruð eins og kalkaðar grafir, sem eru fagrar að utan, en hið innra fullar af beinum dauðra manna og rotnun. Þannig sýnist þjer og hið ytra rjettvísir fyrir mönnum, en hið innra eruð þjer fullir af hræsni og vonzku. Vei yður, sem hlaðið upp grafir spámannanna og skreytið minningartákn hinna rjettlátu, og segið: Ef vjer hefðum verið í sporum feðra vorra, þá hefðum vjer ekki tekið þátt í morði spámannanna, eins og þeir gjörðu. Þjer berið sjálfir vitni gegn yður. Þjer höggormar! þjer nöðrukyn! Því sjá, jeg sendi til yðar spámenn, vitringa og ritningfróða menn, og suma

þeirra munuð þjer taka af lífi, krossfesta og húðstrýkja, suma munuð þjer húðstrýkja í samkundum yðar, og ofsækja þá úr einni borg í aðra, til þess að allt saklaust blóð komi yfir yður, sem út hefur verið hellt á jörðinni, frá elztu tímum og þangað til nú. Jeg segi yður satt, að það kemur yfir þessa kynslóð. Jórsalir! Jórsalir! þjer sem drepið spámennina, og grýtið þá í hel, sem yður eru sendir! hversu opt hef jeg reynt að safna saman börnum yðar, eins og hænan safnar ungum sínum undir vængi sjer; en þjer vilduð það ekki. Sjáið, yðar hús munu verða látin í eyði; því jeg segi yður: Þjer skuluð ekki sjá mig frá þessari stundu fyr en þjer kallið: Blessaður sje sá, sem kemur í nafni Jehóva!“

Þegar Jesús gekk síðan burt úr musterinu með lærisveinum sínum, sá hann, hvernig auðmennirnir gáfu stórgjafir í þarfir musterisins, og lögðu þær í kistur, sem þar til voru ætlaðar. Hann sá og fátæka ekkju leggja fram sinn skerf. Þá mælti Jesús: „Vissulega gaf þessi hin fátæka kona meira en auðmennirnir; því hún gaf aleigu sína, en þeir tóku af allsnægtum“.

Að öllum líkindum hafa lærisveinar Jesú verið hugsjúkir vegna harðyrða þeirra, er hann gaf Faríseunum í niðurlagi ræðu sinnar. Með drambsfullri undran benda þeir honum á hið skrautlega musteri, sem kveldsólin hefur þá, ef

til vill, skinið á, svo að gull þess og marmari sýndist allt í tindrandi ljóma. Þá mælti Jesús: „Enginn steinn skal hjer verða látinn óbrotinn nje óhaggaður“. Á leiðinni hvíldi hann sig á viðsmjörsfjallinu, og þá spurðu lærisveinarnir hann, nær þetta ætti að verða; hvaða tákn bentu á komu hans, eins og Messías, og á enda heimsins. Jesús svaraði: „Gætið yðar, að þjer verðið ekki dregnir á tálar. Margur mun koma í mínu nafni, og látast vera Messías, og margur mun þá verða tældur. Þjer munuð heyra stríð, og fregnir um stríð, en þjer skuluð ekki skelfast fyrir það; því það hlýtur allt saman að koma fram, og endirinn er þó þá enn ókominn. Þeir munu selja yður í nauðir og bágindi, og ofsækja yður, og margir munu hata yður fyrir sakir nafns míns. En hver, sem er stöðugur til endans, mun verða hólpinn. Fagnaðartíðindin um guðsríki munu þá einnig verða boðuð um allan heim, til vitnisburðar fyrir öllum mönnum, og þá mun endirinn koma. Þegar þjer sjáið þá Jórsali öllu megin umkringda af hermönnum, þá skuluð þjer vita, að eyðilegging þeirra er fyrir höndum; þeir, sem þá eru í Júdeu, skulu flýja á fjöll upp, og þeir, sem eru í Jórsölum, hraði sjer þaðan á burtu, og þeir, sem eru utanlands, hverfi þá hingað ekki aptur; því það eru dagar hefndarinnar, til þess að það komi fram, sem ritað er. Vei þeim konum, sem þá eru

þungaðar, eða sem hafa börn á brjósti; því þá mun verða ærin nauð í landinu, og þung refsing yfir lýðnum. Landsmenn munu falla fyrir beittu sverði, og verða færðir heiðingjum í ánauð. Jórsalir munu verða fóttroðnir af heiðnum mönnum, þangað til að tími þeirra er einnig kominn. Þá mun og verða tákn á sólu og tungli og stjörnum, og þjóðirnar munu skelfast, þegar öfl himnanna taka að hreifa sjer. Þá munu menn sjá son mannsins koma í skýjum með mætti og mikilli dýrð. Jeg segi yður satt, að þessi kynslóð skal ekki líða undir lok, fyr en allt þetta kemur fram. Himinn og jörð munu tortýnast, en mín orð skulu ekki týnast. Þó veit enginn þann tíma, er sonur mannsins mun koma á, og jafnvel ekki englar himins, heldur einungis faðirinn einn. Vakið því; því þjer vitið ekki, á hverri stundu húsbóndi yðar muni koma (dæmisagan um hinar 5 forsjálu og hinar 5 óforsjálu meyjar). En þegar sonur mannsins kemur í dýrð sinni, og allir englarnir með honum, þá [redacted] hann setjast á veldisstól sinn, og allir menn munu safnast þar umhverfis hann; hann [redacted] þá að greina þá, eins og smalinn skilur sauðina frá geitfjenu, og hann mun skipa sauðunum til hægri, en geitunum til vinstri handar sjer. Því næst mun konungurinn segja við þá, sem til hægri handar eru: Komið hingað, þjer hinir blessuðu föður míns! erfið það

ríki, sem yður er búið frá upphafi heimsins; því jeg var hungraður, og þjer gáfuð mjer að borða; jeg var þyrstur, og þjer gáfuð mjer að drekka; jeg var ókunnugur, og þjer tókuð mig að yður; jeg var nakinn, og þjer klædduð mig; jeg var sjúkur, og þjer heimsóttuð mig; jeg var í dýflissu, og þjer komuð til mín. Þá munu þeir segja: Herra, nær gjörðum vjer þetta við þig? En konungurinn mun svara þeim: Jeg segi yður satt, að það, sem þjer hafið gjört við nokkurn af hinum lítilmótlegustu af bræðrum mínum, það hafið þjer og gjört við mig. En við þá á vinstri hönd mun hann segja: Farið burt, þjer hinir fyrirdæmdu! í hinn eilífa eld, sem búinn er djöflinum, og árum hans; því jeg var svangur, og þjer gáfuð mjer ekki að jeta; þyrstur, o. s. frv. Að vísu munu þeir þá segja: Herra, nær sáum vjer þig svangan eða þyrstan, ókunnugan eða nakinn, sjúkan eða í dýflissu, án þess að gjöra þjer greiða? En hann mun svara: Það sem þjer gjörðuð nokkrum hinum lítilmótlegasta þessara, það hafið þjer gjört mjer. Og þeir munu fara burtu í eilífa pínu, en hinir rjettlátu til eilífs lífs“.

Þegar Jesús hafði lokið tölu sinni, gekk hann út til Betaníu, og sagði lærisveinunum, að eptir tvo daga kæmu páskar, og þá yrði sonur mannsins svikinn og krossfestur. Tvo næstu dagana kom Jesús ekki til Jórsala.

Höfðu þá ráðherrarnir átt fund með sjer í húsi Kajafasar, og ályktað, að þeir skyldu láta handtaka Jesú og drepa hann á laun. Þó þorðu þeir ekki vegna lýðsins, að láta gjöra það um sjálfa hátíðina. Það bar því vel í veiðar, er Júdas frá Karíot kom nú og bauð þeim lið sitt. „Hvað gefið þjer mjer, ef jeg sel yður hann í hendur?“ mælti hann við ráðherrana. Þeir gáfu honum 30 sikla, og fyrir þá ásetti hann sjer, að svíkja meistara sinn. Raunar hefur hann líklega haldið, að sakleysi Jesú og máttur hans mundi frelsa hann úr greipum þeirra aptur (Mt. 24., 25., 26. kk.).

Páskahátíðin var stofnuð til minníngar um burtför Ísraelinga frá Egyptalandi. Sjerhver Gyðingur, sem ekki lá sjúkur nje var á ferð í öðrum löndum, var skyldur til, að halda þessa frelsishátíð í borg Jehóva. Fórnarlambinu skyldi vera slátrað fyrir sólarlag, og innan miðnættis áttu menn að neyta þess í sameiningu. Áttu menn að standa í hring umhverfis borðið, og hafa beiskar jurtir og ósýrt brauð með, og borða það allt í flýti, eins og feðurnir gjörðu í Egyptalandi, þá er þeir voru öldungis ferðbúnir þaðan. Jesús sendi einnig þá Pjetur og Jóhannes á fimmtudaginn frá Betaníu, til þess að búa til máltíðar þessarar í Jórsölum. Síðan kom hann með alla postulana um kveldið í seinasta sinni til Jórsala. Þegar hann var setztur við borðið,

stóð hann upp aptur, tók þurku eina og gekk frá einum lærisveina sinna til annars og þvoði fætur þeirra; „því“, segir Jóhannes, „þegar hann vissi nú, að tíminn var kominn, er hann skyldi fara burtu úr þessum heimi til föðursins, þá sýndi hann lærisveinunum hinn sama kærleika á hinum seinasta tíma, sem hann hafði einatt sýnt þeim frá upphafi“. Pjetur undraðist þetta og mælti: „Aldrei skalt þú þvo fætur mína, herra!“ „Ef jeg þvæ þjer ekki“, svaraði Jesús, „þá ert þú genginn úr öllu fjelagi við mig“. „Þvo þú þá, herra, ekki að eins fætur, heldur og hendur mínar og höfuð“, mælti Pjetur. Jesús svaraði einungis, að hinn hreini þyrfti þess ekki við. Að því búnu vakti Jesús athygli þeirra á fyrirmynd þeirri, sem hann hefði nú gefið þeim, upp á sjálfsafneitun og elskufulla auðmýkt, sem postularnir skyldu þaðan í frá breyta eptir; því þeir væru ekki fyrir meistara sínum.

Júdas var á meðal þeirra, sem borðuðu páskalambið með Jesú, og sem hann þvoði fæturna á. Jesús komst við í huga sínum, er hann leit á svikarann, og mælti: „Jeg segi yður satt, að einn yðar mun svíkja mig“. Lærisveinana hryllti við þessum orðum, og vissu ekki, hvern Jesús stefndi á með þeim. Jesús hefur þá án efa gefið Jóhannesi einum til kynna, hver svikarinn væri, með því að rjetta Júdasi

stykki eitt, og segja um leið: „Það, sem þú ætlar að gjöra, skaltu nú gjöra undir eins“. Júdasi hefur án efa verið heitt [redacted] hjartaræturnar, og hann fór þegar burtu á fund þann, sem eptir honum beið í næturkyrrðinni. Þegar hann var farinn, mælti Jesús: „Börn mín! einungis skamma stund verð jeg enn hjá yður, og þangað, sem jeg fer, getið þjer ekki fylgt mjer. Jeg býð yður því að nýju, að elska hver annan, eins og jeg hef elskað yður; því á því skulu allir þekkja, að þjer eruð lærisveinar mínir“. Hryggur í huga spurði Pjetur þá: „Hvert fer þú, herra?“ Jesús svaraði: „Þangað, sem jeg fer, getur þú ekki fylgt mjer núna“. „Hvers vegna mundi jeg ekki geta fylgt þjer núna?“ spurði Pjetur. „Jeg vil leggja líf mitt í sölurnar fyrir þig, herra“. „Líf þitt vilt þú leggja í sölurnar fyrir mig?“ svaraði Jesús. „Jeg segi þjer satt, að áður en haninn galar [redacted] fyrra málið, verður þú búinn að afneita mjer þrem sinnum“. Hinir lærisveinarnir tóku hver fyrir sig upp orð Pjeturs, og Jesús sagði þeim þá, að þessa nótt mundu þeir allir yfirgefa sig.

Þegar búið var að neyta páskalambsins, var húsbóndinn vanur að skenkja vín á bikar, sem var drukkinn með lofkvæði [redacted] Jehóva, [redacted] leysti feðurnar úr ánauð. Eptir máltíðina tók Jesús þess vegna ósýrt brauð, gjörði guði þakkir, braut það og gaf lærisveinunum, og

mælti: „*Takið það og borðið; það er líkami minn, sem verður gefinn út fyrir yður. Gjörið þetta framvegis til minningar um mig*“. Sömuleiðis tók hann bikarinn, gjörði guði þakkir, gaf þeim hann, og mælti: „*Drekkið hjer allir úr; því þetta er blóð mitt, blóð hins nýja testamentis* (ɔ: samnings, þ. e.: hinnar nýju trúar), *sem út hellist fyrir yður til fyrirgefningar syndanna. Gjörið það til endurminningar um mig*“.

Daprir í bragði sátu nú þessir hinir fáu og vanmegnu menn umhverfis borðið, sem áttu að leggja grundvöllinn til guðsríkis á jörðunni. Þá mælti Jesús við þá: „Látið yður ekki hugfallast; trúið á guð og trúið á mig. Í húsi míns föður eru mörg herbergi; jeg fer burtu, til þess að búa yður til stað. Hvað sem þjer biðjið [redacted] í mínu nafni, það mun jeg gjöra, til þess að nafn föðursins verði mín vegna dýrðlegt. Jeg ætla og að biðja föðurinn, að gefa yður annan *talsmann,* sem ætíð megi vera hjá yður; [redacted] það er *anda sannleikans, þann er heimurinn getur ekki tekið við;* því hann sjer hann ekki nje þekkir. Hver sem mig elskar, hann geymir orða minna, og faðir minn elskar hann; við munum koma til hans og búa hjá honum; því þau orð, sem þjer heyrið, eru ekki mín orð, heldur föður míns, sem sendi mig, og *talsmaðurinn, hinn heilagi andi, sem faðirinn mun*

*senda yður í mínu nafni*, hann [redacted] fræða yður um alla hluti, og minna yður á allt, sem jeg hef sagt yður. Hann mun ekki tala af sjálfum sjer, heldur mun hann segja yður það, sem verða á. Friður sje með yður! Jeg gef yður minn frið, en ekki þann frið, sem heimurinn gefur. Ef þjer elskið mig, þá skuluð þjer gleðjast af því, að jeg fer til föðursins; *því faðirinn er mjer æðri.* Og eins og jeg yfirgaf föðurinn og fór til heimsins, eins yfirgef jeg aptur heiminn og fer til föðursins. Margt á jeg við yður ótalað, en þjer getið enn ekki skilið það. Bráðum kemur og höfðingi þessa heims, jafnvel þó hann eigi ekkert vald á mjer. En til þess að heimurinn viti, að jeg elska föðurinn, þá gjöri jeg það, sem hann hefur boðið. Standið upp; vjer skulum ganga burtu hjeðan“ (Jóh. 13.—16. k. Mt. 26. k.).

Eptir því sem ráða má hefur nú Jesús um miðnæturleyti farið frá Jórsölum til Getsemane. Á leiðinni huggaði hann enn hina óttaslegnu lærisveina sína, en sagði þeim þó, „að sá tími mundi koma, er menn lokuðu þá úti úr samkundunum, og sá þættist gjöra guði þægt verk, sem tæki þá af lífi, vegna þess að heimurinn þekkti ekki föðurinn, nje þann, sem hann hefði sent“. Þessa hina síðustu ræðu sína endaði Jesús með hinni fögru og tignarlegu bæn, sem rituð er hjá Jóh. í 17. kap.:

„Faðir! Nú er tíminn kominn! Gjör þú son þinn dýrðlegan, til þess að hann geti gjört þig dýrðlegan; eins og *þú hefur gefið honum vald yfir öllu holdi,* til þess að hann gefi þeim eilíft líf, sem þú gafst honum; en það er hið eilífa líf, að þeir þekki þig, hinn eina sanna guð, og þann, sem þú sendir, Jesú Krist. Jeg hef gjört þig dýrðlegan á jörðunni; gjör mig þess vegna einnig dýrðlegan, faðir, með þeirri dýrð, sem jeg hafði hjá þjer, áður en heimurinn varð til. Nafn þitt birti jeg þeim, sem þú hefur gefið mjer; því þau orð, sem þú gafst mjer, hef jeg gefið þeim, og þeir tóku við þeim, og trúðu því, að jeg væri kominn frá þjer, og að þú hefðir sent mig. Jeg bið fyrir þeim; því þeir eru þínir, og jeg verð ekki í heiminum framar. Þar á móti kem jeg til þín. *Heilagi faðir! geym þá í þínu nafni, til þess að þeir sjeu eins í einingu, eins og þú og jeg.* Á meðan jeg var hjá þeim í heiminum, geymdi jeg þeirra í þínu nafni, og enginn þeirra týndist, nema hið eina barn glötunarinnar. Jeg hef gefið þeim þitt orð, og heimurinn hatar þá, af því að þeir heyra ekki þessum heimi. Jeg bið þig ekki, að taka þá burtu úr þessum heimi, heldur að vernda þá fyrir hinu vonda. *Helga þú þá í sannleika þínum; þín orð eru sannleikur;* því eins og þú sendir mig í heiminn, eins hef jeg sent þá í heiminn, og jeg helga mig sjálfan fyrir

þeim, til þess að þeir verði helgaðir í sannleikanum. En jeg bið þó ekki fyrir þessum einum, heldur og fyrir þeim, sem orð þeirra munu leiða til trúarinnar á mig, til þess að þeir verði allir að einni einingu, eins og þú, faðir, ert í mjer, og jeg í þjer, og þeir verði að einingu í okkur".

Þegar Jesús hafði beðizt þannig fyrir, gekk hann með lærisveinum sínum yfir *Kedronslæk* inn í Getsemane. Það lítur svo út, eins og hann hafi skilið alla lærisveinana eptir við garðshliðið, nema þá Jakob, Jóhannes og Pjetur, sem hann tók með sjer lengra inn í garðinn, en þangað fór hann til þess, að gjöra bæn sína. Þó tók frelsarinn bráðum að hryggjast mjög, segir ritningin. Hann mælti þá við þá 3, sem hjá honum voru: „Verið þjer hjer, og vakið ásamt mjer. Sála mín þjáist af angist dauðans". Síðan gekk hann dálítið lengra áfram, kraup niður og bað: *„Faðir, ef það er auðið, þá líði þessi bikar fram hjá mjer; þó ekki minn, heldur verði þinn vilji"*. Þar eptir sneri Jesús sjer aptur til lærisveinanna, og var mjög angraður; en þeir voru þá sofnaðir, því þeir voru orðnir örmagna af sorg. „Þjer getið þá ekki vakað eina stund með mjer", mælti Jesús við þá. „Vakið og biðjið, til þess að þjer fallið ekki í freistni. Andinn er reiðubúinn, en holdið er veikt". Enn gekk

Jesús frá þeim, og einn saman ítrekar hann nú bæn sína til hins himneska föður. Angistarsvitinn fjell þá niður af honum eins og blóðdropar á jörðina. Þá komu englar af himnum og hugguðu hann. Hugarhress sneri nú Jesús í þriðja sinni til lærisveinanna, fann þá enn sofandi, og mælti: „Þjer hvílið yður. Sjáið, nú er sú stund nærri, sem sonur mannsins á að seljast í hendur syndaranna. Standið upp; vjer skulum fara; því svikarinn er skammt á burtu“. Og áður en hann sleppti orðinu, kom Júdas með flokk af vopnuðum mönnum, sem ráðherraþingið hafði sent til þess, að taka Jesú höndum. Jesús gekk á móti honum, ávarpaði hann blíðlega og mælti: „Að hverjum leitið þjer?“ „Að Jesú frá Nazaret“, svaraði flokkurinn. „Jeg er hann“, svaraði Jesús, og flokkurinn hopaði skelkaður á hæl aptur. En þá gekk Júdas fram, kyssti Jesú og mælti: „Heill sjert þú, rabbí (meistari)!“ Þá tóku hermennirnir hann höndum, því þetta var merkið, sem þeir höfðu áður komið sjer ásamt um við Júdas. Jesús spurði nú svikarann: *„Svíkur þú vin þinn með kossi?“* Pjetur brá þá sverði og hjó í flokkinn. Kom höggið á eyrað á þjóni æðsta prestsins, svo af tók. Jesús læknaði manninn, bauð Pjetri að slíðra sverðið og mælti, „að sá skuli fyrir sverði farast, sem til sverðs taki“. „Eða heldur þú“, mælti hann enn fremur við Pjetur, „að jeg

mundi ekki geta beðið föður minn um, að senda mjer meir en 12 fylkingar engla til aðstoðar? *En hvernig ættu þá ritningarnar að rætast?* Þetta á þannig að verða". Því næst mælti Jesús við hermannaflokkinn: „Hví eruð þjer komnir á móti mjer, eins og ræningja, með sverð og spjót? Á degi hverjum var jeg í musterinu og kenndi, en þá tókuð þjer mig ekki. En þetta er allt orðið til þess, að fyrirsagnir spámannanna rættust. Ef þjer nú leitið að mjer, þá látið þessa (ɔ: lærisveina) vera í friði". Hermennirnir tóku síðan Jesú, og fóru burtu með hann, en lærisveinarnir flúðu allir, nema Pjetur og Jóhannes, sem fóru á eptir flokknum í hámóti.

Flokkurinn fór með Jesú til *Annasar*, sem verið hafði æðsti prestur, og var tengdafaðir Kajafasar. Hefur það líklega verið í því skyni, að gleðja hinn aldraða höfðingja með því, að sýna honum hinn handtekna Jesú. Hjer hefur Jesús án efa verið spurður um kenningu sína og lærisveina. En hann svaraði: „Jeg hef talað frjálslega fyrir heiminum (í samkundunum, þar sem lýðurinn streymdi saman úr öllum áttum); jeg kenndi ekki í leynum. Hvers vegna spyrjið þjer mig þá um þetta? spyrjið þjer lýðinn; hann veit, hvað jeg hef kennt". Þá sló einn af þjónunum hann og mælti: „Áttu að svara þannig æðsta prestinum?" Með hógværð

spurði Jesús hann aptur: „Hafi jeg mælt nokkuð ósæmilegt, þá sanna þú það; en hafi jeg talað sannleika, hvers vegna slær þú mig þá?“

Á meðan þessu fór fram, gekk Pjetur inn í forgarðinn með Jóhannesi, sem var kunnugur í húsi Annasar. Um leið og hann gekk inn, spurði dyravörðurinn hann, hvort hann væri lærisveinn Jesú, en Pjetur kvað nei við því. Inni í garðinum voru þjónarnir umhverfis kolelda, sem þeir höfðu kveykt sjer til hita. Pjetur gekk þangað; en með því órósemi hans leyndist ekki á honum, þá voru það engin undur, þó ýmsir spyrðu hann, hvort hann væri ekki lærisveinn Nazareans. „Jeg þekki hann ekki“, svaraði hugleysinginn. „Sáum vjer þig þó ekki hjá honum í jurtagarðinum? Málfærið ber það með sjer, að þú ert frá Galíleu“. Af þessum og öðrum þvílíkum spurningum varð Pjetur svo hræddur, að hann sór sig um það að lyktum, að hann þekkti ekki Jesú. En í sama bili var Jesús færður út úr höllinni, og þá gól haninn í fyrsta sinni. Postulinn sá nú yfirsjón sína, gekk burtu, og grjet beisklega yfir sjálfum sjer, en ekki yfir Jesú framar.

Með degi var Jesús fluttur fyrir ráðherrana, sem allir voru komnir saman í húsi Kajafasar. Þeir leituðu vitna gegn Jesú, en þau urðu árangurslaus, og illviljinn sjálfur gat ekki komið með neina líklega sök gegn honum. Loksins

komu tveir fram, sem bar saman; þeir sögðu, að Jesús hefði dirfzt að segja, að hann ætlaði að brjóta musterið, og reisa það upp aptur á þrem dögum. „Svarar þú þessu engu?“ spurði æðsti presturinn. En Jesús þagði. Æðsti presturinn virðist nú að hafa reiðzt því, er hann fjekk enga ákæru vakið, og skorar því á Jesú, að segja, hvort hann sje sonur guðs, Messías. „Þú hefur sagt það“, svaraði Jesús. „En jeg segi yður þó, að hjer eptir munuð þjer sjá son mannsins sitja á hægri hönd máttarins, og koma í skýjum himins“. Æðsti presturinn þóttist verða svo forviða af þessu, að hann reif sundur kyrtil sinn og mælti: „Hvað eigum vjer nú framar að gjöra við vitni? Hann guðlastar“.

Ráðherrarnir dæmdu nú Jesú í einu hljóði *dauða-sekan*, og seldu hann í hendur hermönnunum. Þeir fluttu hann svo snemma, sem þeir gátu um morguninn, til landstjórans *Pílatusar*, til þess að hann staðfesti dóminn. En þó vildu þeir ekki vanhelga hina miklu hátíð á því, að ganga inn í hús heiðingjans, og varð Pílatus því að ganga út til þeirra í forgarðinn, þar sem hann var og vanur að heyja dóma. „Hver er ákæra yðar í gegn manni þessum?“ spurði hann þá. Þeir svöruðu: „Ef hann væri ekki ódæðismaður, þá hefðum vjer ekki fært þjer hann“. Pílatus sagði þeim, að dæma hann þá eptir sínum lögum, en þeir svöruðu: „Vjer megum ekki

hegna neinum með lífláti. Hann æsir upp allan lýðinn, segist vera konungur vor, Messías, og bannar að gjalda keisaranum skatt". Pílatus skoraði á Jesú, að svara ákærum þessum, en hann þagði samt. Pílatus undraðist það, tók Jesú inn í húsið og mælti: „Ert þú Kristur, konungur Gyðinga?" Jesús svaraði: „Segir þú þetta af sjálfsdáðum, eða af því að aðrir hafa sagt það [redacted] mig?" Þá spurði Pílatus aptur: „Er jeg Gyðingur? Landsmenn þínir og æðstu prestar hafa selt þig mjer í hendur. Hvað hefur þú þá gjört fyrir þjer?" Jesús svaraði: „Mitt ríki er ekki af þessum heimi. Ef það væri, þá hefðu þjónar mínir barizt fyrir því með vopnum, að jeg hefði ekki orðið seldur í hendur Gyðingum". „Ert þú þó konungur?" mælti landstjórinn. Jesús játti því og mælti: „Þú segir, að jeg sje konungur. Jeg er til þess fæddur og [redacted] heiminn kominn, að jeg vitni [redacted] sannleikann, og hver sem elskar sannleikann, hann fylgir mjer". „Já, [redacted] hvað er sannleikur?" spurði Pílatus, og gekk út, og sagðist enga sök finna hjá manni þessum. „Hvað þá!" æptu Farisearnir upp yfir sig, „og þó hefur hann komið öllum Júdeubúum í uppnám, síðan hann kom fyrst fram í Galíleu". „Er hann þá frá Galíleu?" spurði Pílatus, og sendi hann þegar til Heródesar Antípas, sem þangað til hafði verið mesti óvinur hans, fyrir það að hann hafði einhvern

tíma látið drepa nokkra af þegnum hans. En upp frá þessu urðu þeir allra-beztu vinir, og Heródes tók við Jesú með fögnuði, því hann vonaði eptir, að þessi hinn víðfrægi spámaður mundi sýna sjer undur nokkur. En Jesús virti hann ekki svara, og spurði þó Heródes hann á ýmsar lundir. Hann gjörði þá gis að honum, og sendi hann loks frá sjer aptur í mjallhvítum klæðum, eins og hinir rómversku *candidati* (kandídatar) voru vanir að ganga á, en hann felldi ekki áfellisdóm yfir honum; því það hvorki gat hann nje vildi.

Á meðan þetta gjörðist, hafði Júdas lokið sinni hryggilegu hjervist. Þegar hann sá, að Jesús, þvert á móti ætlan sinni, var seldur á vald Rómverja, eins og óbótamaður, þá vaknaði samvizka hans, og hann skundaði til prestanna, skilaði þeim aptur peningunum og mælti: „Jeg hef syndgað; því jeg hef svikið saklausan mann?“ En þeir svöruðu honum mjög þurlega: „Hvað kemur oss það við? Sjá þú sjálfur um það“. Júdas varpaði þá fjenu í musterissjóðinn, gekk burtu hið skjótasta, og hengdi sig. En snaran slitnaði, svo hann fjell niður í urð, og marðist allur í sundur á steinunum.

Pílatus vildi ekki taka við Jesú aptur, þegar hann kom frá Heródesi, og þegar hann var loksins kominn í dómarasætið, sendi kona hans boð til hans og mælti: „Sýsla þú ekkert með

hinn rjettláta; því jeg hef þolað mikið í draumum í dag fyrir hans sakir". Pílatus þorði samt ekki að sleppa honum svona orðalaust. En það var landsvani, að lýðurinn fengi á hverjum páskum einn óbótamann, sem hann kysi helzt undan hegningu, og þess vegna leiddi nú Pílatus þá *Jesús* og *Barrabas* fram, en *Barrabas var alkenndur ræningi.* Ráðherrarnir æstu þá lýðinn, svo hann æpti: „Barrabas!" en heimtaði, að Jesús yrði krossfestur. „Hvað hefur hann þá hafzt illt að?" spurði Pílatus. „Við Heródes höfum hvorugur getað fundið neina sök hjá honum". En vegna þess að lýðurinn varð einatt óðari og óhemjulegri, ætlaði Pílatus nú að laga sig að nokkru leyti eptir honum, og skipaði, að húðstrýkja hinn saklausa. Það var gjört, og með ærinni grimmd þrýstu hermennirnir þyrnikórónu að höfði hins alblóðuga Jesú, köstuðu yfir hann purpurakápu, fengu honum sprota í hönd, og heilsuðu honum síðan í háði eins og konungi. Jesús bar þetta allt saman með þögn, og Pílatus leiðir nú hinn misþyrmda lausnara fram fyrir lýðinn. „Lítið á manninn!" mælti hann. En ráðherrarnir og hinir blindu fylgismenn þeirra æptu þegar í móti: „Krossfestu hann! krossfestu hann!" Loksins mælti þá Pílatus við þá í þykkju: „Takið hann þá, og krossfestið; því *jeg* álít hann saklausan". „Vjer höfum lög", æptu þeir í móti, „og eptir þeim

er hann dauðasekur; því hann hefur sagzt vera sonur guðs". Ráðalaus tekur Pílatus nú aptur að prófa Jesú, og spyr hann, hvaðan hann sje. Jesús svaraði þessari óþarfaspurningu engu orði. Landsstjórinn mælti þá við hann: „Virðir þú mig ekki svara? Veiztu ekki, að jeg hef vald til þess, að krossfesta þig, og vald til þess, að sleppa þjer?" Jesús svaraði: „Þú hefðir ekkert vald yfir mjer, ef þjer væri ekki gefið það hjer að ofan. Þó er sá syndugri en þú, sem fjekk mig þjer í hendur". Pílatus gat ekki annað en virt mikils einurð þá, sem þetta svar lýsti hjá Jesú, og hann gekk nú út með þeim ásetningi, að frelsa hann úr höndum óvina sinna. En óðar en lýðurinn sá hann, gullu þessi orð í eyrum hans: „Ef þú gefur hann (Jesú) lausan, þá ert þú ekki vinur keisarans (Tíberíusar)". Við þessa ógnun fjellst Pílatusi hugur; hann settist í dómarasætið, og gat þó varla dulið reiði sína og gremju, og spyr: „Á jeg þá að krossfesta konung yðvarn?" „Vjer höfum engan konung, nema Sesar *(Caesar* ɔ: keisarann)", æptu þá prestarnir. Pílatus ljet bera sjer vatn, þvoði hendurnar í allra viðurvist og mælti: „Saklaus er jeg af blóði hins rjettláta". Þá æpti lýðurinn upp yfir sig: „Blóð hans komi yfir oss og börn vor". Pílatus ljet því næst Barrabas lausan, en seldi Jesú hermönnum í hendur til krossfestingar. Á leiðinni

til aftökustaðarins, *Golgata*, mætti Jesús manni nokkrum, *Símoni* frá Sýrenu, og neyddu hermennirnir hann til þess, að bera krossinn, þar eð Jesús gat það ekki sjálfur sökum vanmáttar. Mikill flokkur kvenna fylgdi Jesú, og svo ýmsir af áhangendum hans, og grjetu hástöfum. Jesús mælti þá: „Grátið ekki yfir mjer, þjer dætur Jórsala! grátið heldur yfir sjálfum yður og börnum yðar. Því þeir dagar munu koma, er þau segja við fjöllin: Fallið ofan á oss, og við hæðirnar: Hyljið oss; því fyrst þannig er farið með hina grænu eik, hvernig ætla þá verði farið með hina visnu?“

Loksins var nú komið á aftökustaðinn; var þá Jesús flettur klæðum sínum. Honum var þá og boðinn drykkur nokkur, sem virðist að hafa verið deyfandi eða svæfandi, er vant var að gefa óbótamönnum, til þess að þeir fyndu minna til kvalanna. En Jesús þá ekki drykkinn. Undir eins og búið var að negla Jesú á krossinn, og tvo glæpamenn, er krossfestir voru með honum, sinn við hvora hlið hans, þá skiptu hermennirnir klæðum hans á milli sín, og hlutuðust um, hver hreppa skyldi kyrtil hans, sem allur var prjónaður, og þeir tímdu þess vegna ekki að skera í sundur, eins og [illegible] hafði verið spáð (Sálm. 22., 19.). Yfir höfði Jesú ljet Pílatus rita þessi orð á *latínu*, *sýrókaldeamáli* og *grísku*: „*Jesús Nazarenus Rex Judaeorum*

(Jesús frá Nazaret, konungur Gyðinga)". Prestarnir hneyksluðust á þessu, og báðu Pílatus að breyta því og setja: „Jesús frá Nazaret, sem *ljezt* vera konungur Gyðinga". En Pílatus svaraði þeim með gremju: „Það [redacted] jeg hef ritað, það hef jeg ritað (ɔ: því breyti jeg ekki)".

En nú skulum vjer aptur hverfa að hinum deyjandi frelsara. Þeir, sem á horfðu, gjörðu margir gis að honum, og kváðu hann ekki geta hjálpað sjálfum sjer, þó hann hefði getað hjálpað svo mörgum öðrum, og samt vildi hann láta menn halda, að hann væri sonur guðs. Þá bað Jesús fyrir þeim, og sagði: „*Faðir, fyrirgef þeim; því þeir vita ekki, hvað þeir gjöra*". Þetta var hans fyrsta orð á krossinum. Annar þeirra, sem krossfestir voru með honum, sagði og við hann í háði: „Ef þú ert Messías, þá frelsa þú þig og okkur". Þá ávítaði hinn ræninginn hann og sagði: „Óttast þú guð ekki enn? Við þolum það, sem okkur ber; því við líðum það, sem við höfum unnið til, en þessi er saklaus. Herra!" mælti hann við Jesú, „minnstu mín, þegar þú kemur í ríki þitt". „*Í dag skalt þú koma með mjer í Paradís*", svaraði Jesús honum.

Meðal þeirra, sem hjá krossinum stóðu, var móðir Jesú og lærisveinn hans, sá er hann elskaði. Þegar Jesús kom auga á þau, mælti hann við hana: „*Móðir, sjá það er sonur þinn*", og

við Jóhannes: „*Sjá, það er móðir þín*“. Um sjöttu stund gjörði myrkur um allt land, sem hjelzt við til níundu stundar. Þá mælti Jesús: „*Guð minn! guð minn! hví hefur þú yfirgefið mig?*“ (Sálm. 22., 2.). Jesús fann, að hann átti nú skammt eptir, og mælti: „*Mig þyrstir*“. Honum var þá gefið súrt vín til svölunar. Því næst segir hann: „*það er fullkomnað*“. Og nú brýnir hann röddina, og segir: „*Faðir, í þínar hendur fel jeg öndu mína*“, hneigði höfuðið og dó.

Á eptir myrkrinu kom óttalegur jarðskjálfti; fortjaldið í musterinu rifnaði ofan úr gegn, og grafirnar lukust upp, svo að hinir dauðu komu fram úr þeim, og margir menn sáu þá. Þegar hinn rómverski herforingi sá þessi undur, skelfdist hann og mælti: „Sannarlega hefur hann verið sonur guðs“. Slíkt hið sama mæltu og aðrir, sem með honum voru. Kveldið kom, og þá varð að taka hina dauðu niður af krossunum, áður en sabbatið hófst. Hermennirnir brutu þá fótleggi og handleggi beggja ræningjanna; en er þeir sáu, að Jesús var dáinn, vildu þeir ekki misþyrma líkama hans, en til meiri vissu lagði einn þeirra hann í gegn um með spjóti. Úr sárinu rann blóð og vatn, og var það víst dauðamerki. Auðmaður nokkur, *Jósef* frá Arímatíu, gekk þá fyrir Pílatus, og fjekk hjá honum leyfi til þess, að grafa lík Jesú, meistara síns. *Nikó-*

*demus* lagði saman við hann, kom með hjer um bil 100 pund af *myrru, alói* og *ylmjurtum*, og vöfðu þeir því i smágjörfu líni utan um hinn heilaga líkama, og lögðu hann í nýja gröf, sem Jósef hafði látið höggva sjer út í klett einn. Síðan veltu þeir steini einum miklum fyrir grafaropið (Mt. 26., 27. Jóh. 18., 19. Lúk. 22., 23.).

Æðstu prestarnir og Faríseanir báðu þar á móti Pílatus um, að setja vörð hjá gröfinni, og innsigla hana, til þess að lærisveinar Jesú gætu ekki numið líkið á burtu, og sagt síðan, að hann væri risinn upp frá dauðum. Pílatus gjörði þetta. En í dögun hinn fyrsta dag vikunnar varð jarðskjálfti mikill; því engill drottins steig niður frá himnum og velti steininum frá grafaropinu. Urðu þá varðmennirnir hræddir og flúðu á burtu. Sama morguninn gengu guðhræddar konur nokkrar út að steinþrónni, og ætluðu að smyrja hinar dýrmætu leifar hins elskaða kennara. Á leiðinni kvörtuðu þær yfir því, að þær hefðu engan til þess, að velta steininum frá gröfinni, og urðu því skelfdar mjög, er þær fundu hana opna og tóma. *María* frá Magdölum (Magdalene) skundaði burtu til þess, að láta lærisveinana vita, hvar komið var. Hinar konurnar urðu þar á móti eptir hjá gröfinni, og þar kynnti engill guðs þeim, að hinn krossfesti Jesús væri risinn upp; bauð hann þeim, að segja það lærisveinunum, sem ættu að fara til Galíleu, og

finna Jesú þar. Nú komu þeir *Pjetur* og *Jóhannes* með Maríu til grafarinnar. María var á undan þeim, og beið við hina tómu gröf. Pjetur og Jóhannes komu þegar á eptir, og gengu inn í gröfina, en þar fundu þeir ekkert nema líkblæjurnar, og gengu undrunarfullir burtu þaðan aptur. María frá Magdölum varð eptir hjá gröfinni og grjet. Allt í einu sjer hún unglinga tvo í gröfinni, sem spyrja hana: „Hví grætur þú?“ „Af því þeir hafa tekið herra minn á burtu, og jeg veit ekki, hvar þeir hafa látið hann“, svaraði hún. En um leið sneri hún sjer við, og sá Jesú, sem stóð á bak við hana. En hún þekkti hann þó ekki, og hjelt það væri garðvörðurinn. Hann spurði: „Kona, hví grætur þú? Eða að hverju leitar þú?“ Þá svarar hún: „Herra, ef þú hefur borið hann á burtu, þá seg mjer, hvar þú lagðir hann; því jeg ætla þá að taka líkið“. „María!“ mælti þá Jesús, og nú þekkti hún hann. „Meistari!“ kallar hún upp, og ætlar að faðma knje hans, en Jesús bannaði henni, að snerta sig, áður hann færi upp til föður síns á himnum (Mt. 28. Jóh. 20.).

Sama dag gengu tveir af lærisveinum Jesú til *Emaus*, er var þorp eitt skammt frá Jórsölum. Þeir töluðu saman um það, er við hafði borið. Á leiðinni kemur Jesús til þeirra, en þeir þekktu hann ekki. Hann spyr þá: „Um hvað eruð þið að tala, og það svo sorgfullir?“

„Þú ert án efa ekki kunnugur í Jórsölum“ svara þeir, „er þú veizt ekki, hvað þar hefur orðið til tíðinda dagana þá arna. Þeir hafa krossfest Jesú frá Nazaret, spámann, voldugan í orðum og verkum fyrir guði og mönnum. Við höfðum vonað eptir, að hann mundi leysa Ísraelinga úr ánauð“. „Heimskingjarnir þið, sem eruð svo tregir til, að trúa orðum spámannanna. Átti ekki Messías að þola allt þetta, og ganga síðan inn í dýrð sína?“ Þannig mælti Jesús, og sýndi þeim af ritningunum, að þetta átti að vera svona. Þeir komu nú til Emaus, og neyddu Jesú til þess, að koma inn og matast með sjer. Tók hann þá brauðið, blessaði það og braut, og skipti því á millum þeirra. Þá lukust upp augu þeirra, svo þeir þekktu hann En hann hvarf þegar á burtu frá þeim. Þeir stóðu þá upp tafarlaust, skunduðu til Jórsala, og sögðu: „Brann ekki hjarta okkar í okkur, þegar hann talaði við okkur og rifjaði upp fyrir okkur ritningarnar?“ Í Jórsölum fundu þeir 10 postula saman, og sögðu þeim frá atburði þessum. En á meðan þeir töluðu, var Jesús kominn þar í hóp þeirra, og mælti: *„Friður sje með yður!“* Jesús talaði þá við þá, borðaði með þeim, og þýddi fyrir þeim ritningarnar. *Tómás* var þá ekki við, er þetta varð, og sagði því, að hann tryði þessu ekki, nema hann fengi að leggja hönd sína í síðusár hans, og fingurna í nagla-

förin á höndum og fótum Jesú. Átta dögum síðar voru þeir allir saman, og þá kom Jesús að óvörum í hópinn, og kvaddi Tómás til þess, að gjöra sem hann hefði mælt. „Herra minn, og guð minn!“ voru þau einu orð, sem Tómás gat komið upp; því svo varð hann frá sjer numinn af undran og lotningu (Lk. 24. Jóh. 20.).

Eptir þetta komu allir postularnir til Jesú í Galíleu, og var hann þar opt hjá þeim. Sáu hann þar fleiri en 500 manna í einu. Þaðan fóru þeir til Jórsala aptur, og á tilteknum degi gengu þeir út á fjall eitt skammt fyrir utan borgina. Þar kom Jesús til þeirra í seinasta sinni, 40 dögum eptir upprisu sína, og mælti: „Allt vald er mjer gefið á himni og jörðu; farið því og kennið öllum mönnum, og skírið þá í nafni föðursins, sonarins og heilags anda, og kennið þeim, að halda það, sem jeg hef boðið yður. Því, sjáið, jeg er með yður til enda heimsins. Hver, sem trúir og skírist, skal verða hólpinn; en hver, sem ekki trúir, verður fyrirdæmdur“. Síðan bauð hann postulunum að fara ekki burtu úr Jórsölum, fyrri en þeir hefðu fengið hinn lofaða anda kraptarins, en eptir það skyldu þeir kenna iðran og fyrirgefningu syndanna í Júdeu og Samverjalandi og meðal heiðingja, og byrja á Jórsölum. En er hann hafði lokið ræðu sinni, yfirgaf hann jörðina, og sneri aptur til samvistar með föður sínum á himnum,

og skýbólstri tók hann frá augum áhorfandanna (Jóh. 21. Mt. 28. Mk. 16.).

---

## II. Saga postulanna.

Jesús var búinn að yfirgefa jörðina og lærisveinana að sjáanlegri návist; það var útsjeð um hið jarðneska veldi og veg; lærisveinarnir stóðu einmana uppi, sviptir þeirri stoð, sem þeir höfðu áður hallað sjer að, og þó voru það þeir, sem áttu að út breiða og grundvalla ríki guðs á jörðunni. En hvaðan áttu þeir að fá afl og hugrekki, sem fyrir fám dögum flúðu sem skjótast, þegar þeir sáu óvini leggja hendur á kennara sinn? Með stöðugri von um, að það mundi rætast, sem Jesús hafði lofað þeim, sneru nú postularnir aptur til Jórsala, og dvöldu þar hjá hinum 70 og ýmsum öðrum trúum áhangendum Jesú. Þeir höfðu áður farið tveir og tveir saman, til þess að kenna guðsríki, en nú lá fyrir þeim lengri og torveldari för. Það var því von til, að þeir vildu fylla það skarð, sem orðið var í tölu þeirra við fráhvarf Júdasar, og Pjetur stakk upp á, að velja einn í stað hans

með hlutkesti. Voru þá teknir til tveir menn, sem líklega hafa verið af hinum 70, því þeir áttu að hafa verið sjónarvottar um líf og athafnir Jesú. Postularnir báðu guð og mæltu: „*Drottinn, þú þekkir hjörtun;* sýn þú nú þess vegna, hvern þessara tveggja þú hefur kosið þjer fyrir postula“. Og hluturinn lenti á *Mattíasi* (Pg. 1.).

Á hvítasunnudag voru allir postularnir saman, og vitum vjer ekki með vissu, hvort það hefur verið í musterinu, eða einhverstaðar annarstaðar. Þá heyrðu þeir hljóð frá himni, svipað mikilli vindsuðu, og fyllti það allt húsið, sem þeir voru í. En yfir höfði sjerhvers þeirra sáust eins og eldtungur. Þeir fylltust þá heilögum anda, og töluðu ýmsar tungur, eptir því sem andinn bljes þeim í brjóst. Lýðurinn streymdi að þeim í hópum, og undraðist mjög, er hann heyrði þá tala á svo ýmislegum tungum um dýrð guðs og verk. Sumir gjörðu gis að þeim, en þá gekk Pjetur fram, og hjelt snjalla ræðu fulla af eldi og afli. Þar í skýrir hann frá því, að þetta sje það, sem spámaðurinn hafi sagt fyrir, „að á hinum síðustu dögum muni guð hella anda sínum út yfir þjóna sína, og þeir muni verða eins og hinir fornu spámenn“. Enn fremur sýndi hann og sannaði af heilagri ritningu, að guð hefði gjört hinn krossfesta Jesú frá Nazaret að herra alls heimsins og að Messías. Orð postulans fengu mjög á lýðinn, og hjer um bil 3000 manna

ljetu þá skíra sig. Þannig var hinn fyrsti kristni söfnuður stofnaður, og meðlimir hans, sem trú og elska sameinuðu fastlega innbyrðis, gáfu allar eigur sínar til sameiginlegra þarfa, *svo að þeir höfðu allt í sameign, eins og eitt heimili.* Þeir komu opt saman í húsum sínum, mötuðust allir saman með innilegri gleði, og minntust frelsarans með því, að deila út brauði og víni í minningu hans. En bæn og lofsöngur var ætíð samfara þessum kærleiksmáltíðum (ἀγάπαι), þar sem allir höfðu jöfn rjettindi, auðmaðurinn og þurfamaðurinn. Hinn kristni söfnuður óx með degi hverjum, bæði að mannfjölda og hylli lýðsins, og var það jafnt vegna elskulegleika sjálfs hans, og vegna ástundunar postulanna. Þannig komu þeir Pjetur og Jóhannes í musterið, og þá bar þar að snauðan mann, sem var fæddur haltur, og bað þá um greiða. Þá mælti Pjetur: „Jeg á hvorki til silfur nje gull, en það gef jeg þjer, sem jeg á; rístu á fætur og gakk". Með undrun sá lýðurinn hinn halta mann standa upp, og þakka guði, sem hafði læknað hann. „Hvers vegna undrizt þjer þetta?" mælti Pjetur, „eða haldið þjer, að vjer höfum gjört það af vorum eigin mætti eða guðhræðslu? Trúin á höfðingja lífsins, sem þjer myrtuð, læknaði manninn". Því næst sýndi og sannaði Pjetur skýrlega, að Móses og allir spámennirnir eptir hann hefðu boð-

að komu Jesú. Þeir, sem þá snerust til rjettrar trúar, voru nærri því 5000 að tölu.

Það er hægt að ímynda sjer, hversu ráðherrarnir urðu æfir við það, er hin nýja kenning endurlifnaði svo skjótt, þvert á móti von þeirra. Þess vegna ljetu þeir og varpa þeim Pjetri og Jóhannesi í dýflissu, og stefna þeim fyrir dóm daginn eptir, til þess að gjöra grein fyrir þeim rjetti, sem þeir hefðu til þess, að koma fram eins og sendimenn guðs. Hispurslaust svaraði Pjetur, að þeir kenndu og læknuðu í nafni þess Jesú, sem þeir hefðu látið krossfesta, og sem nú væri risinn upp aptur frá dauðum, því hann hefði sent þá til þess. Ráðherrarnir komust við af einurð þeirra og dirfsku, og ljetu þá lausa, en reyndu jafnframt til þess með hótunum, að hræða þá frá því, að flytja framvegis kenninguna um hinn krossfesta. En Pjetur svaraði: „Vjer getum ekki annað en kennt það, sem vjer höfum sjeð og heyrt“. Þetta sýndu þeir og með því, að þeir voru dag hvern í musterinu, og kenndu og læknuðu. Af þessu urðu höfðingjarnir mjög æfir, einkum æðsti presturinn, sem var Saddúsei, og áhangendur hans, svo þeir ljetu varpa postulunum í dýflissu. En um nóttina kom engill guðs, og lauk upp dyrunum á dýflissunni, svo að daginn eptir komu þeir aptur fram í musterinu og kenndu orð lýðsins, eins og áður. Þegar ráðherrarnir heyrðu

það morguninn eptir, að dýflissan var tóm, og postularnir kenndu í musterinu, þá sló að þeim ótta og undrun. Postularnir voru teknir og færðir á þingið. „Bönnuðum vjer yður ekki strengilega, að fara með þessa kenningu?“ spurðu höfðingjarnir, og voru hinir æfustu, „og þó fyllið þjer alla borgina upp með kenningu yðra, og leggið oss dauða þessa manns til löstunar“. Þá svaraði Pjetur: *„Fremur ber að hlýða guði, en mönnum“*. Því næst hjelt hann svo djarfmælta ræðu um *hinn upprisna,* að áheyrendurnir urðu svo reiðir, einkum Saddúsearnir, að þeir ætluðu að láta drepa postulana. En þá reis upp hinn nafnfrægi ritningfróði maður *Gamalíel,* sem var *Farísei,* og varaði þingið við, að fara ógætilega eða hlaupa á sig í þessu. En á meðan hann talaði, voru postularnir ekki látnir vera við. Það var eitt í ræðu hans, að hann sagði: „Ef kenningin er sprottin upp hjá mönnum, þá fellur hún efalaust um koll af sjálfri sjer; því það sýna hin mörgu dæmi á þeim, sem ranglega hafa þótzt vera *Messías.* En ef kenningin þar á móti er frá guði, þá getum vjer ekki kæft hana niður, hversu mjög sem vjer stríðum gegn henni“. Þessu hyggilega ráði var að nokkru leyti fylgt; því postularnir voru að eins látnir sleppa með húðstroku. En þeir gengu burtu með fögnuði, af því að þeir hefðu mátt þola hina óvirðulegu hegningu *fyrir*

*sakir Krists.* Þeir hjeldu og áfram að kenna, bæði í musterinu og í heimahúsum. Þess vegna óx og hinn kristni söfnuður einatt, en eptir því hlaut það og að verða örðugara, að halda við góðri reglu, einkum í því fjelagi, sem allt hafði í sameign. Þess vegna ljetu og postularnir velja 7 fátækrastjóra, af því að hinir útlendu menn, sem kristni tóku, kvörtuðu yfir, að hinir innfæddu Gyðingar ljetu sig ekki njóta rjettinda sinna. Menn þessir voru fullir af heilögum anda og speki, og postularnir vígðu þá með handaálleggingu (Pg. 2.—6. k.).

Af fátækrastjórunum skaraði *Stefán* einkum fram úr í ákafa sínum í trúarboðinu. En því meira sem kenningin um Krist breiddist út, því beiskara varð hatur fjandmanna hennar á kristniboðendunum, og einkum þegar nokkrir af prestunum fóru að snúast til hennar. Þeir reyndu til, að hrinda orðum og kenningu Stefáns, en gátu það ekki, og drógu hann því loks fyrir dóm, eins og þann, er talaði ósæmilega um Móses og Jehóva. Hann hjelt þá varnarræðu, og fór yfir alla fornsögu Gyðinga, og sýndi þeim, hvernig þeir hefðu aldrei viljað kannast við stjórn guðs. Loksins fór hann með mikilli andagipt að tala um von sína, um sig og hina kristnu trú, og mælti: „Sjá, jeg sje himininn opinn, og son mannsins standa föðurnum til hægri handar“. Þá risu þeir upp með æði,

ráku hann út fyrir borgina, og grýttu hann í hel. Hann var hinn fyrsti píslarvottur hinnar kristnu trúar, og í því hann dó, bað hann guð, að reikna ekki böðlum sínum þetta til syndar, og mælti síðan: „Herra Jesús, tak þú við öndu minni“ (Pg. 6. 7.).

Pílatus varð almennt hataður vegna grimmdar þeirrar, er hann sýndi við Samverja, og loks var hann ákærður fyrir *Vítellíusi*, landstjóra Sýrlands. Um þetta leyti hefur hann annaðhvort verið farinn til Rómaborgar, til þess að standa fyrir máli sínu, eða að minnsta kosti verið önnum kafinn í því. En það lyktaði með því, að honum var vikið frá embætti. Liðu þá nokkur ár svo, að Gyðingar fengu engan landstjóra fyrir sig, heldur stóðu beinlínis undir stjórn Vítellíusar, sem fór mjög vægilega og vel með þá. Það voru því engin undur, þó Gyðingar færu nú með ákafa gegn hinum kristnu mönnum, þegar enginn tálmaði æði þeirra. Maður er nefndur *Sál;* hann var fæddur og uppalinn í borginni *Tarsus* í *Silisíu*, sem kepptist við Aþenu og Alexandersborg í menntun og vísindum. Seinna nam hann alla fræði Farísea að hinum nafnfræga Gamalíel, og lagði mesta stund á, að ofsækja kristna menn. Þegar Stefán var grýttur, sat hann og horfði á, og geymdi klæði böðlanna. En seinna gekk hann inn í hús manna, og dró alla, bæði unga og gamla,

í dýflissur, til þess að kæfa niður og kefja kenninguna um hinn krossfesta Jesú. En þetta varð einmitt til þess að breiða hana enn meira út; því nú flúðu kristnir menn burtu úr Jórsölum, og dreifðust um alla Júdeu og Samverjaland, og boðuðu hvervetna trúna á Jesú. Þó urðu postularnir kyrrir eptir í Jórsölum, nema *Filippus*, sem fór til Samverjalands og kenndi þar. Samverjar tóku kenningunni vel, og þess vegna voru þeir Pjetur og Jóhannes einnig sendir þangað, til þess að veita hinum nýkristnuðu heilagan anda með handaáleggingu. Fjölkyngismaður nokkur, Símon að nafni, vildi kaupa þessa gáfu að Pjetri fyrir fje. En Pjetur ljet hann vita, að þó hann væri skírður, ætti hann samt í rauninni engan þátt í orðinu, þar eð hjarta hans væri ekki hreint fyrir guði. Þannig breiddist kenningin meira og meira út. Og eins og fuglinn, sem kemur frá fjarlægum löndum, ber með sjer fræ til ágætustu jurta og hávaxinna skóga, eins ljet og drottinn hirðmann einn frá hinu fjarlæga, frjóvsama Meróe á eyðimörkum Afríku verða fyrir postulanum Filippusi, sem kenndi honum og skírði hann (Pg. 8.).

Sál hjelt nú ekki kyrru fyrir. Hann ætlaði einnig að drepa niður kenningunni um Krist fyrir utan Jórsali, þegar á meðan hún væri í fæðingu sinni. Hann fjekk sjer þess vegna erindisbrjef hjá ráðherrunum til þess, að taka

hvern mann höndum, sem játaði hinni nýju trú, og hjelt síðan á leið til borgarinnar Damaskus. (Júlíus Sesar hafði gefið ráðherrunum *jus prehensionis et verberum*, hvar sem samkundur væru). En á leiðinni kom allt í einu yfir hann ljós mikið af himnum, og hann heyrði röddu eina, sem ávarpaði hann föðurlega og mælti: „Sál, hví ofsækir þú mig?“ „Herra, hver ert þú?“ spurði hann aptur óttasleginn, og fjell til jarðar. Röddin sagði: „Jeg er Jesús, sá sem þú ofsækir. Þjer mun verða ervitt, að spyrna á móti broddunum“. Sál var síðan fluttur til Damaskus, og hafði hann orðið blindur af birtu hins himneska ljóss. En eptir boði guðs vitjaði Ananas hans í Damaskus, og lauk upp augum sálar hans og líkama. Undir eins og Sál var búinn að nema hin kristnu fræði, kom hann fram í samkundunum, og var hinn ákafasti varnarmaður kenningar Jesú, og skæðasti óvinur Gyðinga. Þegar þeir heyrðu og sáu þá breytingu, sem orðin var með Sál, þá urðu þeir bæði hryggir og reiðir, og hann varð að flýja, til þess að verða ekki drepinn. Þegar Sál var skírður, tók hann sjer annað nafn, og kallaði sig *Pál*. Hann fór til Jórsala, en hjelzt þar mjög skamma stund við sökum ofsókna; flúði hann því þaðan, og dvaldi nokkra stund í Tarsus (Pg, 9.).

Páll var nú hættur að vera oddviti trúar-

vandlætinganna hjá Gyðingum; Vítellíus hafði rekið Kajafas frá embætti sínu, og Kalígúla, keisari í Rómaborg, vofði yfir Gyðingum með tortýningu, nema þeir vildu reisa upp líkneskju hans í musteri Jehóva. Kristnu söfnuðirnir, sem á ofsóknarárunum höfðu komið upp til og frá í Júdeu, Galileu, Samverjalandi og Sýrlandi, fengu nú næði til þess að staðfestast, og eflast bæði að mannfjölda og í þekkingu og guðsótta. Það var og um þetta leyti, sem Pjetur staðfesti ekki einungis kenninguna um Krist, með því að lækna sjúka menn, og gefa *Tabíta* aptur lífið (Pg. 9., 31.), heldur lagði og grundvöll til hins mikla kristna fjelags, er ná skyldi út yfir allar kynkvíslir manna á jörðunni, og varð þannig í raun og veru bjarg það, sem hið nýja musteri var reist á. Þegar hann sumsje um miðdagsleytið sat og gjörði bæn sína, þá sá hann feld einn síga niður frá himnum, fullan af bæði hreinum dýrum og óhreinum, og rödd ein bauð honum að borða af þeim. En Pjetur hikaði við, að borða hin óhreinu dýrin, því hann var sannur Gyðingur; þá hljómaði röddin aptur í eyru hans og mælti: „Þú skalt ekki gjöra þá hluti óhreina, sem guð hefur gjört hreina“. Fyrirburður þessi ítrekaðist þrem sinnum, og á meðan Pjetur sat og hugsaði áhyggjufullur um þýðingu hans, kom til hans sendimaður frá hinum rómverska hundraðshöfðingja Kornelíusi, sem eptir boði

guðs skoraði á Pjetur, að flytja sjer kenninguna um Krist. Pjetur fór þegar, og flutti hinum ráðvanda heiðingja fagnaðartíðindin um Jesú, og er hann sá, að hann og heimamenn hans voru undir það búnir, skírði hann þá alla. Þetta vakti fyrst nokkra óánægju meðal hinna kristnu í Jórsölum, en er Pjetur hafði skýrt þeim frá öllum aðdragandanum til þess, viðurkenndu þeir með gleði, „að guð hefði einnig veitt heiðingjum apturhvarf til lífsins“ (Pg. 10.).

Ofsóknirnar voru búnar að rýmka svið hinnar kristnu kenningar, og hinir fyrstu flytjendur hennar fóru nú þegar um nágrannalöndin: Sýrland, Feníkaland, og Kípur (Cypern). Voru þar hvervetna stofnaðir söfnuðir, en þó ekki nema á meðal Gyðinga. *Antiókía* varð aðsetur eins konar aðal-safnaðar, og þar kom fyrst upp nafnið *kristinn*. Hjer sást og þegar merki upp á hina ágætu ávexti kenningarinnar; því varla hafði einn bræðranna sagt fyrir yfirvofandi dýrtíð, fyr en söfnuðurinn tók að safna gjöfum saman, til þess að styrkja frumsöfnuðinn í Jórsölum, og sendi þá Barnabas og Pál með þær til hans.

Eptir dauða Kalígúla gaf Kládíus keisari *Heródesi Agrippa* öll völd yfir Gyðingum. Hófust þá ofsóknir kristinna manna að nýju, og urðu þær mjög til þess, að breiða út trúna. Heródes var ákafur Gyðingur, og ljet höggva

höfuð af *Jakobi* postula, bróður Jóhannesar, og til þess að páskahaldið yrði enn hátíðlegra, varpaði hann Pjetri í dýflissu. En engill guðs kom um nóttina og lauk upp dýflissunni, og leysti postulann úr fjötrunum; fór hann þá til annara landa til þess að reka þar erindi guðs, eins og Páll og Barnabas, sem um þetta leyti byrjuðu hina fyrstu postullegu ferð sína. Ekki höfðu Gyðingar þó lengi ráðin; því í Sesareu tók Agrippa sótt mikla, í því hann kom fram á leikhúsinu í allri dýrð sinni, og lýðurinn kvaddi hann eins og guð nokkurn. Fám dögum síðar andaðist hann, og fengu þá Gyðingar að nýju rómverska landshöfðingja, sem kúguðu þá og þjáðu (Pg. 11., 19.; 12.).

Þeir Páll og Barnabas fóru nú um Asíu hina minni, og boðuðu hvervetna trúna á Krist, og staðfestu kenninguna með undrum og furðanlegum lækningum. Hvervetna eltu þá sendimenn Gyðinga, sem reyndu til, að tálma kristniboðinu. Þannig hafði Páll til að mynda læknað haltan mann einn í *Lystra*, með því að skipa honum að standa upp, og lýðurinn, sem hjelt, að guðirnir væru komnir niður frá Olymp, var kominn á flugstig, að færa þeim fórnir, eins og Seifi og Hermesi. En þá komu sendimenn Gyðinga, og æstu svo hinn hverfula lýð, að hann grýtti Pál, svo hann var borinn út úr borginni eins og dauður. En hann reis upp alheill, og

hjelt áfram ferð sinni. Á þessari ferð varð honum mikið ágengt; því hvervetna stofnaði hann söfnuði, og hvervetna veittist heiðingjunum aðgangur til hinnar blessunarríku trúar (Pg. 13., 14.). Þegar Páll og Barnabas komu aptur, glöddust kristnir menn hjartanlega yfir tíðindum þeim, sem þeir fluttu með sjer. En hinir eldri kristnuðu Gyðingar vildu þá jafnframt leggja siðareglur Mósislaga á þessa nýkristnuðu heiðingja. Af þessu kom fyrst mikil þráttan og deila upp í Antíókíu, og voru þeir Páll og Barnabas þess vegna á endanum sendir til Jórsala, til þess að heyra álit hinna postulanna um þetta. Þeir höfðu þá fund með sjer, og tóku til ráðaneytis hina elztu menn safnaðarins, og eptir langar umræður með og móti, reis Pjetur loksins upp, og talaði máli heiðingjanna með miklum skörugleika; en þeir vissu, að guð hafði áður kosið hann til þess, að vera postula þeirra. Hinn blíðlyndi *Jakob hinn yngri* rjeð einnig til þess, að fylgja orðum ritningarinnar, sem segði, að heiðingjum skyldi og veitast aðgangur að guðsríki. Að lyktum var það afráðið, að senda þá Pál, Barnabas, Júdas og Sílas með brjef frá fundinum til Antíókíu, og voru heiðingjar þar í skildir undan siðareglum Mósis, nema þeir máttu ekki neyta fórnarkjöts, kafnaðra dýra nje blóðs, og ekki taka þátt í ósæmilegum blótveizlum heiðinna manna (Pg. 15.).

Þannig var hinni síðustu tálmun fyrir töku heiðingjanna í samfjelag kristinna manna hrundið, og stuttu eptir hóf Páll (54 árum e. Kr.). aðra ferð sína með Sílasi; því vegna þess að Barnabas vildi aptur taka Markús með þeim, sem á fyrri ferðinni hafði farið frá þeim í Pamfylíu, kom upp ágreiningur á milli þeirra, svo að þeir fóru sína leiðina hvor, og varð það til þess, að efla kristniboðið enn meira. Páll og Sílas fóru um Asíu hina minni til *Filippí* í Masedoníu; þar læknaði Páll ambátt eina, sem hafði spásagnaranda. En húsbændur hennar urðu svo reiðir af þessu, að þeir drógu postulana fyrir yfirvöld borgarinnar, og voru þeir þá húðstrýktir án dóms og laga og varpað í dýflissu. En um nóttina gjörði jarðskjálfta; dýflissan skalf og titraði, og dyrnar lukust upp, en fjötrarnir á bandingjunum stukku í sundur. Dýflissuvörðurinn hjelt, að bandingjarnir væru flúnir, og ætlaði að drepa sjálfan sig, en í því kallaði Páll til hans, og sagði honum, að þeir væru kyrrir. Síðan taldi hann svo um fyrir honum, að hann og allir heimamenn hans tóku kristni og skírðust. Um morguninn kom skipun frá yfirvöldunum, að láta þá Pál lausa, en vegna þess þau höfðu gegn lögum látið húðstrýkja rómverska menn, urðu þau sjálf, að leiða þá út úr dýflissunni. Í *Beróeu* fengu þeir Páll marga áhangendur meðal Gyðinga, sem þar bjuggu; því þeir

rannsökuðu sjálfir ritningarnar, og fundu, að það var satt, sem Páll og Sílas sögðu. Engu að síður urðu þeir þó að fara burtu úr þessari borg, vegna þess að sendimenn Gyðinga komu þangað og æstu lýðinn upp í móti þeim. Hjeðan fór nú Páll til aðsetursstaðar hinna grísku vísinda og menntunar, *Aþenu,* og komst hann mjög við, er hann sá alla þá hjátrú og guðleysi, sem þar átti heima. Og er heimspekingar nokkrir af Epíkúrs- og Stóa- flokkunum báðu hann, að lofa sjer að heyra kenningu þá, sem hann flytti, hjelt hann hina nafnfrægu tölu í Aþenu, og sýnir snið hennar bezt, hversu Páll var leikinn í, að laga sig eptir hæfilegleikum og ásigkomulagi tilheyranda sinna. „Aþenubúar!“ sagði hann, „jeg sje það á öllu, hversu mikinn huga þjer leggið á guðsdýrkunina; því þegar jeg gekk um kring og skoðaði helgidóma yðra, fann jeg eitt altari með þessu letri á: *handa hinum ókunna guði.* Þessi guð, sem þjer þekkið ekki, en tignið þó, er nú einmitt sá guð, sem jeg kenni yður um. Hann er sá guð, sem skóp heiminn og allt, sem í honum er; hann er herra himins og jarðar, sem ekki býr í musterum, gjörðum af mannahöndum, og er ekki tignaður af mönnum, eins og sá, er þurfi að þiggja nokkuð af þeim; því hann gefur sjálfur öllu líf og anda og sjerhvað annað gott. Frá einum manni hefur hann látið alla menn á jörðunni eiga ætt sína

að rekja, og setti þeim um leið vissa tíma og takmörk, til þess að þeir gætu leitað guðs, fundið hann og handsamað; hann er og ekki langt frá neinum af oss; því í honum lifum vjer, hreifumst og erum, eins og nokkrir af skáldum yðar hafa sagt (t. a. m. Aratus); vjer erum jafnvel ætt hans. En ef vjer erum guðsættar, þá megum vjer ekki ætla, að gull nje silfur nje steinn, sem hugvit manna hefur gefið einhverja mynd, sje líkt guði. Á þessum vanþekkingartímum lætur guð nú boða öllum mönnum, að þeir skuli snúa sjer og iðrast, þar eð hann hefur sett til vissan dag, sem sá maður, er hann hefur til þess skipað, á að dæma rjettvíslega á allt jarðríki, og það sýndi hann öllum ljóslega með því, að hann vakti hann upp frá dauðum". Að líkindum eru það brot ein, sem vjer höfum til úr ræðu þessari, sem margir hafa án efa truflað, með því að taka fram í hana með háði, einkum þegar postulinn nefndi upprisu frá dauðum. En samt sem áður snerust þó nokkrir, og þar á meðal einn af meðlimum Aresardómsins (areopagitiske Raad) (Pg. 17.). Frá Aþenu hjelt Páll til *Korintuborgar,* dvaldi þar hálft annað ár, og stofnaði þar mannmargan söfnuð. Á daginn kenndi hann, en vann á næturnar að iðn sinni, en það var *tjaldasmíð,* sem hann hafði lagt stund á. Þannig hafði hann allt af nóg fyrir sig að leggja. Eptir þetta fór

Páll til Gyðingalands og Jórsala, til þess að vera þar um páskana, en á leiðinni kom hann við í *Efesus* (56. e. Kr.).

Þriðju ferðina hóf Páll einnig frá Antíókíu; fór hann þá [redacted] Asíu hina minni og Sýrland, og styrkti söfnuðina [redacted] trúnni og í dyggðinni. Lengst var hann þá [redacted] kyrrt í Efesus, því hann dvaldi þar í 2 ár, kenndi og varð mikið ágengt; því hann sýndi hvervetna krapt guðs með undrum og táknum. Loks vakti gullsmiður nokkur, sem hjet *Demetrius*, upphlaup [redacted] borginni, af því að hann, eins og aðrir iðnaðarbræður hans, missti ærinn hluta atvinnu sinnar, þegar hætt var að smíða goðalíkneskjurnar í hið fræga Díönuhof [redacted] Efesus. Upphlaupið varð að vísu skjótt sefað, [redacted] Páll fór þó burtu eptir það yfir Masedónaland til Grikklands. Þaðan fór hann aptur sjóveg með ströndum Asíu hinnar minni til Jórsala. Í *Tróas* lífgaði hann ungan mann einn, sem dottið hafði niður frá þriðja gólfi (Etage) húss eins, og í *Miletus* kvaddi hann í síðasta skipti söfnuðinn, og skildi við hann grátandi, eins og faðir, sem í hinnsta sinni kveður elskurík börn (Pg. 18.—19.). Á leiðinni var honum hvervetna spáð því, að í Jórsölum biðu hans fjötrar og varðhald, en hugrakkur svaraði postulinn, að hann væri ekki að eins fús á, að þola það allt vegna Krists, heldur og jafnvel dauðann. Páll kom nú til Jórsala undir páskana,

og eptir ráðum postulanna gekk hann í musterið, til þess að breyta eptir nokkrum hreinsunarreglum, sem skipaðar voru í Mósislögum, og þannig að sýna Gyðingum, að hann uppfyllti þær skyldur, sem flestir aðrir kristnaðir Gyðingar gjörðu, jafnvel þó hann heimtaði það ekki af sjerhverjum kristnum manni. Þá sáu hann nokkrir Gyðingar frá Asíu; æptu þeir þá upp þegar, og æstu lýðinn svo mjög, að hinn rómverski landshöfðingi Lysías varð að sefa hann með ofbeldi. Lysías ljet varpa Páli í dýflissu, og ætlaði að láta húðstrýkja hann; en hann hætti við það, þegar hann komst að því, að hann væri rómverskur maður. Daginn eptir var postulinn færður á ráðherraþingið, en þegar hann sagði, að hann allt til þess dags hefði haft góða samvizku fyrir guði, þá bauð æðsti presturinn *Ananías*, að slá hann á munninn. Öll vörn var hjer því til ónýtis. Páll kvaðst því sem Gyðingur heyra undir flokk Faríseanna, og brot sitt væri fólgið í því, að *hann kenndi upprisu frá dauðum.* Af þessu varð svo mikill ágreiningur á milli Farísea og Saddúsea á þinginu, að Lysías óttaðist fyrir, að þeir mundu myrða Pál, og ljet því flytja hann burtu í kastalann. Daginn eptir kom systursonur Páls upp samsæri 40 Gyðinga, sem ætluðu að drepa postulann, þegar hann yrði næst fluttur á ráðherraþingið. Lysías sendi hann því til landshöfð-

ingjans í Sesareu (59 e. Kr.), sem var einn af leysingjum Kládíusar keisara, og hjet *Felix*. Þar ákærði hinn málsnjalli *Tertúllus* hann fyrir hönd ráðherraþingsins. Hinn ágjarni Felix hjelt, að kristnir menn mundu leysa kennara sinn út með ærnu fje, og ljet hann því opt koma fyrir sig. En er Páll talaði einu sinni um *óeigingirni, rjettlæti og hinn síðasta dóm*, með þeirri snilli, sem honum var lagin, þá skelfdist Felix, og sendi hann aptur svo búinn til *Festusar*, sem tveim árum seinna tók við umráðum eptir hann í Júdeu. Festus rannsakaði þegar mál Páls, en gat ekki fundið, að hann væri sekur. Þó virðist hann hafa ætlað að selja hann aptur í hendur ráðherraþinginu, til þess að hræsna fyrir Gyðingum, en Páll skaut þá málinu fyrir keisarann, þar eð hann væri rómverskur maður. Festus ætlaði þá að senda hann í fjötrum til Rómaborgar, einkum eptir það *Agrippa hinn yngri* hafði látið í ljósi, að hann væri á sömu ætlan um, hvað rjettast væri að gjöra í máli þessu. Agrippa var þá með systur sinni *Berenise* kominn til Sesareu, til þess að óska landshöfðingjanum allrar hamingju, og hlýddi hann þá einu sinni á mál postulans. Páll var færður í fjötrum fyrir hið dýrðlega þing, en hinn æðri andi, sem Jesús hafði áður heitið postulum sínum, yfirgaf hann ekki. „Sæll þykist jeg“, mælti hann, „er jeg má í dag flytja vörn mína fyrir

þjer, Agrippa konungur! gegn ákærum Gyðinga; því þú ber skyn á siðu þeirra, og á þrætuefni þeirra. Jeg bið þig því, að hlýða með þolinmæði á tölu mína“. Því næst lýsti hann með ljósum og lifandi orðum æfi sinni, á meðan hann var Gyðingur, atburðunum, sem drógu hann til þess, að taka kristna trú, og aðalatriðum hennar, svo að hinn kaldi Rómverji hreifst af undran, og mælti: „Þú ert ærr, Páll! Hinn mikli lærdómur gjörir þig óðan“. „Nei, voldugi Festus“, svaraði postulinn; „það er sannleikur, sem jeg mæli, og orð mín eru öll á góðum rökum byggð. Konungurinn þekkir alla þessa hluti, og því tala jeg skorinort, af því jeg veit, að honum er það allt ljóst; því það fór ekki fram í neinum launkofum. Trúir þú því ekki, Agrippa konungur, sem spámennirnir hafa mælt? Jeg veit þú trúir því.“ Agrippa ljet sem minnst bera á tilfinningu sinni og mælti: „Það vantar lítið á, að þú ætlir að telja mig á, að taka kristni“. „Já“, svaraði Páll, „jeg vildi óska þess til guðs, að hvort sem þar vantar meira eða minna á, þá værir ekki einungis þú, heldur allir þeir, sem nú hlýða á orð mín, eins og jeg, að þessum fjötrum undan teknum“. Agrippa viðurkenndi, að postulinn væri saklaus, og skömmu síðar var hann sendur sjóveg til Rómaborgar. Á þessari ferð hvatti Páll til vareygðar, en það kom fyrir ekki. Og er skipið í marga daga hraktist í fjarskalegum stormi, svo

því lá við tortýningu, þá var hann sá eini, sem í trausti á guð stýrði hinum með hugrekki og ráðum. Loksins brotnaði skipið við ey þá, sem hjet *Malta*, en allir mennirnir komust lífs af, eins og Páll hafði áður sagt þeim. Eptir þrjá mánuði fóru þeir þaðan aptur með skipi frá Alexandersborg, og hafði postulinn þá á ýmsan hátt sýnt hinn guðlega mátt, sem með honum var, bæði með því að lækna sjúka, og fl. Sjóferðin endaði í *Púteólí*, og hinir kristnu menn, sem í Rómaborg voru, fóru út á móti Páli til *Trestabernae* (Þríbúða). Páll var nú fenginn í hendur lífvarðarforingjanum (*praefectus praetorio*, sem, ef til vill, þá hefur verið hinn rjettsýni Burrhus) í Rómaborg, og leyfði hann honum að vera, hvar sem hann vildi, undir gæzlu eins hermanns, sem alstaðar skyldi vera með honum. Þannig hafðist Páll við í Rómaborg í tvö ár, og boðaði þar kristni tálmunarlaust, og hefur vissulega orðið töluvert ágengt (Pg. 21.—28. k.). Eptir sögu hinna gömlu kirkjufeðra dæmdi Neró keisari Pál síðan sýknan saka; fór hann þá hina fjórðu kristniboðsför sína til *Krítar* og *Korintuborgar*. Þaðan sneri hann aptur til Rómaborgar með Pjetri. En með því ofsóknirnar gegn kristnum mönnum voru þá (66 eða 68 e. Kr.) byrjaðar, urðu og báðir postularnir að staðfesta kenninguna með blóði sínu. Sagan segir, að Pjetur hafi verið krossfestur,

en Páll hálshöggvinn. Aptur á móti er það sagt um *Jóhannes*, að Domitíanus keisari hafi gjört hann útlægan á eyjuna *Paþmos*, og að hann hafi dáið á 3. stjórnarári *Trajanusar* í Efesus, hjer um bil tíræður að aldri; því *Nerva* hafi leyst hann úr útlegðinni aptur, og veitt honum frelsi[1].

[1]) Um starfa og æfi hinna annara postula höfum vjer lítið annað en óáreiðanlegar sögur, sem ekki ber saman hverjum við aðrar. Andreas á að hafa kennt á Skýþalandi, Filippus í Frýgíu, Bartólómeus á Indlandi, Tómas á Parþalandi, Matteus og Mattías í Eþjópíu, og Júdas Taddeus á Sýrlandi. Símon Selótes á að hafa verið formaður safnaðarins í Jórsölum. Allir eiga þeir að hafa dáið píslarvættisdauða. Það eitt má álíta víst um Jakob hinn yngra, að í fjærveru landshöfðingjans ljet æðsti presturinn Ananus grýta hann í hel, eins og lagarofsmann, 63 árum e. Kr.

# V. kafli.

## *Yfirlit yfir bækur hins nýja testamentis.*

---

Hið heilaga ritsafn kristinna manna er kallað nýja testamenti, til aðgreiningar frá trúarbragðaritum Gyðinga, sem öll eru eldri og rituð áður en Kristur fæddist, og sem eru í gamla testamentinu. Með tilliti til sögu Abrahams kölluðu Gyðingar trúna eða trúarbrögðin: sáttmálann við guð, og þetta nafn var síðan haft um ritsafn það, sem trúin (ɔ: sáttmálinn) geymdist í. Yfir hið gríska orð διαθήκη var á latínu haft testamentum, jafnvel þó það ætti miður heppilega við eptir þýðingu þess, og úr því mynduðust aptur nöfnin: „hið gamla og nýja testamenti“, í staðinn fyrir: „hið gamla og nýja trúarbragðaritsafn“.

Fyrstu bækur hins nýja testamentis eru guðspjöllin 4: Matteusar, Markúsar, Lúkasar, og Jóhannesar. Εὐαγγέλιον (evangelíum) þýðir fagnaðartíðindi, og þess vegna eru þau rit, sem innihalda frásöguna um líf Jesú, eða æfisögu hans, með öllum rjetti kölluð fagnaðartíðindi, þar eð þau kunngjöra heiminum það, sem englarnir kunngjörðu forðum hirðunum í Betlehem, „að þeim væri fæddur frelsari í Davíðsborg“. Það var eðlilegt, þó að kenning postulanna og hinna fyrstu kristnu manna styddist einkum við söguna um það, hvernig Jesús í öllu lífi sínu, dauða og upprisu hefði sýnt, að hann væri Messías. Eins var það og eðlilegt, að ýmsir rituðu upp hjá sjer ágrip af þess konar sögum, og fleiru því, sem þar að laut. En því fleiri sem slík

smá-ágrip urðu, því hættara var og við, að sannleikurinn aflagaðist. Þess vegna hlaut það fljótt að verða nauðsynlegt, að þeir menn, sem Jesús hafði lofað að andi sannleikans skyldi búa í, rituðu sjálfir slík ágrip af sögu Jesú, sem vera skyldu undirstaða og röksemd fyrir hinni kristnu trú. Slík ágrip þurftu því ekki að vera nein fullkomin æfisaga, og því síður fáguð að orðavali nje mælskuleg; enda áttu ekki nje gátu lærisveinar Jesú komið fram eins og lærðir eða vísindalegir rithöfundar.

Menn hafa ætlað, að MATTEUS muni upphaflega hafa ritað á ebresku, svo að vjer höfum að eins útleggingu af riti hans. Enn fremur hafa menn og ætlað, að postulinn hafi sjálfur ekki ritað upp nema ræður Krists, en einhver annar (ef til vill þýðandinn) hafi síðan bætt söguköflunum inn í. En hvorug þessi ætlan verður sönnuð, og gegn hinni síðari má færa til: 1. Ef nokkur hefði seinna ráðizt í töluverðar breytingar á guðspjallinu, þá hefði það ekki verið orðalaust tekið upp í tölu grundvallarritanna (ɔ: kanónisku). 2. Ber ritið það með sjer, að það sje eptir postula; því Jesú er þar svo glögglega lýst, bæði í andlegu og líkamlegu tilliti.

MARKÚS er án efa hinn sami Jóhannes, að auknafni Markús, sem yfirgaf Pál á hinni fyrstu postulalegu ferð hans, og síðar var með Barnabasi, frænda sínum. Seinna sættist hann aptur við Pál, og fór með honum fyrstu ferð hans til Rómaborgar. Þaðan sendi Páll hann í erindagjörðum til Asíu hinnar minni, og þar á eptir virðist hann að hafa verið með fyrri kennara sínum, Pjetri (Pg. 12., 12. 25; 13., 5. 13; 15., 37; Kól. 4., 10. 2. Tím. 4., 11. Fílem. 24. 1. Pjet. 13.). Vjer höfum því ástæðu til þess, að trúa sögu hinna gömlu kirkjufeðra, þegar þeir segja, að guðspjall Markúsar sje þannig til orðið, að tilheyrendur Pjeturs postula í Rómaborg hafi beðið hann um, að rita það upp, sem postulinn kenndi um Jesú, þar eð hann væri túlkur hans. Markús er fáorðari og skipar efninu betur niður en Matteus; hann fer og að öllu

sögulegar með efnið heldur en Matteus, sem fremur heldur sjer að hinu trúarfræðislega.

Hinn þriðji guðspjallamaður, LÚKAS, var í raun og veru læknir (Kól. 4., 14.). Eptir sögn Evsebusar var hann frá Antíókíu á Sýrlandi. Hann var stöðugur fylgdarmaður Páls, og var einnig með honum á fyrstu ferð hans til Rómaborgar. það er án efa rjettast, að álíta guðspjall hans ritað eptir guðspjöllum þeirra Matteusar og Markúsar, að því leyti að hann hafi fylgt Matteusi í ræðum Jesú, en Markúsi að tímaröðinni til. Hefur hann ritað það fyrir höfðingja nokkurn, Teófílus að nafni, eða að minnsta kosti ánafnað honum það, og hafa menn með nokkrum ástæðum ætlað, að sá maður hafi verið á Ítalíu. „þar eð margir hafa nú reynt til að búa til sögu um þá viðburði, sem næg vitni eru til að orðið hafi á meðal vor, eins og þeir menn, sem frá upphafi voru sjónarvottar og þjónar orðsins, hafa sagt oss frá þeim, þá hef jeg einnig rannsakað það allt nákvæmlega frá upphafi, og síðan ásett mjer, að rita þjer það í samfellu, ágæti Teófílus, til þess að þú getir fengið vissu um þá hluti, sem þú hefur verið fræddur um munnlega„ (Lk. 1., 1-3.). þetta eru orð Lúkasar sjálfs um tilgang og orsök bókarinnar, og vitum vjer alls ekki annað um það. Að öðru leyti er það margt hjá Lúkasi, sem ekki er hjá hinum guðspjallamönnunum, og hann ritar á hreinni grísku en þeir.

Næst eptir þessi þrjú guðspjöll, sem kölluð eru hin **sýnoptisku**, kemur guðspjall JÓHANNESAR. Jóhannes var sá lærisveinn, sem Jesús elskaði mest; á honum hafði hann mest traust, og honum fól hann í andlátinu móður sína. Jóhannes hefur án efa geymt í brjósti sínu hreinasta eptirmynd af anda og kenningu frelsarans; því hann var maður viðkvæmur og tilfinninganæmur. það er þess vegna engin furða, þó hann ritaði lýsingu á lífi Jesú, og væri sú lýsing ekki til, þá væri oss margt hið dýrmætasta og fegursta um Jesú öldungis hulið. Líkindi eru til þess, að Jóhannes hafi

ritað síðast allra guðspjallamannanna, og verið kunnugur ritum hinna fyrri; því hann segir helzt frá því, sem hinir hafa sleppt, en sleppir aptur mörgu mikilvægu atriði, sem einhver þeirra hefur greinilega skýrt frá. Það er að öðru leyti fljótsjeð, að aðaltilgangur ritsins var, einkum með ræðum Jesú, að sýna, hversu Jesús var og sagðist vera sonur guðs (20., 31.), hinn sanni Messías. Orsökin til þess, að bókin var rituð, hefur að líkindum verið sú, að sumir hafa haft rangar og auðvirðilegar hugmyndir um Jesú, og til þessa virðist inngangurinn jafnvel benda (Jóh. 1., 1.-14. 1. Jóh. 2., 22; 4., 1.). Má það vel vera, að slíkar hugmyndir hafi einkum átt sjer stað hjá ýmsum afvegaleiddum lærisveinum Jóhannesar skírara. Sennileg er og hin forna saga, að Jóhannes hafi ritað guðspjall sitt á eyjunni Paþmos, til leiðbeiningar söfnuðinum í Efesus, sem var fullur af falskennendum, og að Gajus, sem hið þriðja brjef hans er ritað til, hafi birt guðspjallið hjer um bil 98 árum eptir fæðingu Krists, en 30 árum eptir að Matteus gaf sitt út.

GJÖRNINGABÓK POSTULANNA má álíta eins og nokkurs konar framhald af guðspjalli Lúkasar. Hún er eins og annar partur þess, sem segir frá stofnun kirkjunnar í Palestínu (Gyðingalandi) og Antíókíu, kristniboðsstörfum þeim, sem hafin voru í Antíókíu, og ferðum Páls til norðurálfunnar. Í hinum fyrri hluta rits þessa er mest talað um þá Pjetur og Jóhannes, en í hinum síðari nærri því eingöngu um Pál. Nákvæmust er sagan, þar sem Lúkas segir frá því, er hann sá, á meðan hann var með Páli. Þetta rit er, eins og guðspjallið, ánafnað Teófílusi, og má það vel vera, að guðspjallamaðurinn endi einmitt þess vegna söguna við komu Páls til Rómaborgar, án þess að drepa á neitt annað um dvöl hans í höfuðborg heimsins, en það, að hann kenndi þar einarðlega í tvö ár.

Næst eptir þessi fimm sagnarit koma þrettán sendibrjef frá Páli til ýmsra safnaða og manna. Eru þau öll rituð með

stöðugu tilliti til tímans, og mannanna, sem þau voru til, og öll full af hinum heilaga anda, sem Jesús hafði lofað lærisveinum sínum að rifja skyldi upp fyrir þeim og útskýra kenningu sína.

Í Rómaborg var hin kristna trú komin frá Gyðingasamkundunni, og vitum vjer alls ekki, hverjir þar hafi fyrstir boðað hana. Á dögum Kládíusar voru Gyðingar og gyðingkristnir menn reknir úr Rómaborg (53). Með þessum hætti urðu ekki aðrir í söfnuðinum þar, heldur en kristnaðir heiðingjar. Í byrjun stjórnar sinnar leyfði Neró Gyðingum, að koma heim aptur. Þessi tími var einkar-vel fallinn til þess, að sætta flokkana og afmá bábyljur Gyðinga, til þess að þær yrðu ekki ágreiningsefni í söfnuðinum. Það var og einmitt um þetta leyti, sem Páll ritaði brjefið til Rómverja frá Korintuborg (59 e. Kr.). Aðalhugsan brjefsins, sem allt hitt lýtur að, er sú: „Gyðingar og heiðingjar eru jafnir í augum guðs; yfirburðir, rjettindi og brot hvorratveggja eru jöfn, og hafi nokkurn tíma verið munur á millum þeirra, þá hefur nú Kristur afmáð hann; því hann sameinar alla“.

Á hinni annari kristniboðsferð sinni hafði Páll dvalið (54—55) hálft annað ár í Korintuborg, og hafði hann þá stofnað þar söfnuð, sem flestir voru kristnaðir heiðingjar í, þeir er mjög hneigðust að siðum og skoðun Gyðinga. En borg þessi var hið orðræmdasta lastabæli í öllum heiminum, og þegar Páll fór þaðan burtu, sneru margir aptur til hins fyrra lifnaðar. Hann reit þá brjef, sem nú er týnt, og bannaði hinum trúuðu, að hafa nokkra samgöngu við þessa menn (1. Kor. 5., 9.). Á meðan Páll dvaldi í Efesus, fjekk hann aptur ástæðu til þess, að aðvara og ávíta söfnuðinn. Þá voru sumsje nokkrir, er vakið höfðu óróa í söfnuðinum með því, að kenna það, að lög Mósis ættu einnig að gilda hjá kristnuðum heiðingjum. Af þessu flaut, að söfnuðurinn greindist í þrjá flokka, því sumir vitnuðu til Pjeturs, sumir til Páls, og sumir til kennara eins, sem hjet Apollon, en ágreiningurinn varð þeim

mun afleiðingaverri, sem þeir komu allir saman á sama staðnum. Páll frjetti nú, hvernig á stóð, bæði munnlega og einnig í brjefi frá söfnuðinum, og þá ritaði hann hið fyrra brjefið til Korintubúa (58 e. Kr). Aðaltilgangur brjefs þessa er, að refsa og koma í veg fyrir hin hneykslanlegu atvik, sem umburðarleysi og ágreiningur meðlimanna í söfnuðinum höfðu í för með sjer.

Páll sendi fyrst Tímóteus, og síðan Títus, til Korintuborgar, til þess að komast eptir því, hver áhrif brjef þetta hefði á söfnuðinn, og Títus bar honum góðar fregnir þar að lútandi til Masedónalands. Þó höfðu ekki allir flokkarnir haft jafngott af brjefinu; því þeir, sem mest líktust Gyðingum, höfðu þar fundið átyllu til þess, að ráðast á lunderni Páls, og saka hann fyrir hverflyndi, hugleysi og eigingirni. Páll reit þá (59 e. Kr.) hið síðara brjefið til Korintubúa, til þess að hrinda þessum ósönnu ákærum, og til þess, að hann gæti komið fram með þess meira áliti, þegar hann kæmi aptur til Korintuborgar, sem hann ætlaði sjer þá bráðum að gjöra.

Í Galatíu eða Gallógresíu (Gallograecia) bjó flokkur einn af Gallaþjóð, sem þangað hafði komið 250 árum fyrir fæðingu Krists frá Þrakalandi (Tracia). Á fyrstu ferð sinni hafði Páll komið þar, og kennt og orðið mikið ágengt. En er hann kom þar á annari ferðinni, og að greindi enn djarflegar en áður trúarbrögð Mósis frá trúarbrögðum Krists, þá urðu margir óánægðir (Gal. 4., 13.—16.), og undir eins og hann var farinn þaðan, notuðu hinir gyðinglegu fjendur hans sjer það til þess, að leggja það ok á söfnuðinn, sem hin kristna trú átti einmitt að ljetta af honum. Þess vegna reit Páll brjefið til Galata frá Efesus (57 e. Kr.), og er það aðalefni þess, að afmá þennan ágreining, hrinda þessum áhangendum Gyðingatrúar, og sýna, að Kristur boðaði hina fullkomnari, frjálsu trú, sem Móses hefði að eins ætlað sjer að búa undir.

Brjefið til Efesus er ritað í Rómaborg, þegar postulinn sat þar hið fyrsta sinni í dýflissu. Hið almenna efni

þess er eðli kristinnar trúar og kröfur hennar. En vegna þess, að brjef þetta er ritað eins og til ókunnugra manna, og virðist fyrst ekki vera ætlað neinum vissum söfnuði, þá er það alllíklegt, að það hafi verið almennt (καθολικόν) til ýmsra safnaða í Asíu hinni minni, en hafi síðar verið kennt við Efesus, vegna þess að það var nafnfrægasta borgin.

Filippí, rómversk nýlenda í Masedónalandi, við ána Strýmon, var hin fyrsta borg í norðurálfunni, sem Páll boðaði kristna trú í (54 e. Kr.). Á meðan hann sat í varðhaldinu í Rómaborg, sendi söfnuðurinn í Filippí honum gjöf nokkra til merkis um elsku sína á honum og þakklátsemi. Undir enda varðhaldsins í Rómaborg (63 e. Kr.) ritaði Páll þess vegna söfnuðinum þakklætisbrjef, skýrði honum um leið frá ástandi sínu, og styrkti hann í dyggð og guðhræðslu, bæði með því að kannast við kristilega breytni þeirra, og með því að vara hann við falskennendum.

Næsta brjefið er til Kólossubúa í Frýgíalandi. Það er einnig ritað frá Rómaborg, og er sá tilgangur þess, að styrkja söfnuðinn, sem einhver Epafras, en ekki postulinn sjálfur, hafði stofnað, í trúnni, og skýra betur fyrir honum hið nýja líf, sem kristin trú heimtar. (Kólossuborg eyðilagðist skömmu síðar í jarðskjálfta).

Á annari ferð sinni kom Páll við í Þessaloníku, einni af höfuðborgunum á Masedónalandi. En Gyðingar gjörðu þar óróa, svo postulinn hjelzt þar skamma stund við. Samt sem áður tóku þó margir trú á þeim tíma, helzt heiðingjar, sem verið höfðu í einhverju sambandi við Gyðingasamkunduna. Frá Beróeu sendi Páll Tímóteus, til þess að styrkja og efla hinn nýstofnaða söfnuð, sem hann hafði ekki fengið nægan tíma til að fræða. Tímóteus kom aptur til postulans í Korintuborg, og skýrði honum frá ofsóknum þeim, er söfnuðurinn yrði að þola af Gyðingum, og frá hræðslufullri von hans um komu Messíasar (Pg. 17., 3.), sem sumir óttuðust fyrir að sjer mundi ekki auðnast að lifa, en aðrir ímynduðu sjer hana

aptur eins og hegningartíma, jafnvel fyrir sínar eigin yfirsjónir. Páll reit því (54 e. Kr.) hið fyrra brjefið til þessaloníkubúa, og lofar þar í staðfestu þeirra í trúnni, varar þá við ýmsum löstum, sem enn eigi sjer stað á meðal þeirra, helzt saurlifnaði og iðjuleysi, brýnir fyrir þeim kenninguna um upprisuna, og bætir því við, að enginn viti, hve nær drottinn komi; þess vegna hljóti menn einatt að vera viðbúnir. það lítur svo út, eins og villukennendur hafi notað sjer þetta til þess, að rita söfnuðinum brjef undir nafni postulans, sem sagði, að koma Krists til jarðarinnar væri að eins ókomin (2. þess. 2., 3.). Undir eins og Páll varð var við ótta þann og kvíða, sem þetta olli söfnuðinum, og sem virðist að hafa eflt iðjuleysið, ritaði hann, efalaust frá Korintuborg, hið síðara brjefið til þessaloníkubúa, og segir þar í, að áður en Messías komi aptur, hljóti að koma fram eins konar fjandmaður Krists (Antikristur), og varar við iðjuleysi.

Tímóteus var einhver hinn kærasti lærisveinn Páls; hafði hann fundið hann í Derbe í Lýkaoníu (54), og valið hann sjer til fylgdar. Var Tímóteus einatt síðan með postulanum, og tók þátt í öllum hættum hans og mæðu, en Páll elskaði hann eins og son sinn. Ljósasti vottur þessa eru tvö sendibrjef Páls til Tímóteusar. Hið fyrra er ritað frá Masedónalandi (59 e. Kr.) til Efesus, þar sem Tímóteus varð eptir, til þess að vaka yfir hinni sönnu kenningu, og hafa umsjón yfir vali forstöðumanna safnaðarins. Hitt brjefið reit Páll frá Rómaborg, eptir því, sem út lítur, í byrjun varðhalds síns, (62 eða 63 e. Kr.). þar í varar hann við falskennendum hvetur Tímóteus til stöðugleika í trúnni, og lýsir ástandi sínu eins og hættulegu mjög. Margir hafa efazt um, að brjef þessi sjeu eptir Pál.

Eins og Páll hafði sent Tímóteus til Efesus, til þess að hafa þar umsjón yfir söfnuðinum, eins skildi hann og annan uppáhaldslærisvein sinn, Títus, eptir á Krít, sem postulinn

hefur án efa komið til árið 56, á leiðinni frá Korintuborg til Sýrlands (Pg. 18., 18.). Kríteyingar voru alræmdir fyrir óguðlegleika sinn, og Páll hefur án efa verið þar mjög skamma hríð um kyrrt. Þeim mun erviðara var og erindi Títusar, og þess fremur áríðandi fyrir hann, að postulinn gæfi honum þær reglur ritaðar, undir eins og hann kæmi til Efesus, sem hann ætti að fylgja, einkum þá er velja skyldi forstöðumenn safnaðarins.

Brjefið til Fílemónar er ritað í Rómaborg undir eins og brjefið til Kólossubúa, undir það Páll varð laus úr varðhaldinu þar. Þræll einn, Ónesímus að nafni, hafði sumsje strokið frá Fílemóni, vini og lærisveini Páls, og flúið til hans í varðhaldið. Páll leiddi hinn seka aptur til skyldu sinnar, og jafnvel þó hann hefði þörf á honum sjálfur í bágindum sínum, sendi hann hann þó aptur til húsbónda síns, undir eins og hann var viss um bót hans og betran, og fjekk honum brjefið til meðmælingar[1].

Engar gildar ástæður eru gegn því, að Páll sje höfundur þeirra 13 sendibrjefa, sem nú eru talin (sjá að framan um 1. og 2. Tím.). Hann hefur og ritað fleiri brjef, sem nú eru týnd, til að mynda brjefið, sem vjer höfum minnzt á til Korintubúa. Þar á móti efuðust menn þegar á fyrstu öldum kristninnar um það, hvort brjefið til Ebrea, sem er í voru safni næst á eptir brjefinu til Fílemónar, væri eptir Pál postula. Menn hafa sagt, að efnið væri eptir hann, en að einhver annar (Lúkas, Barnabas eða Klemens Rómanus) hafi ritað það. Brjefið er ætlað kristnuðum Gyðingum í Palestínu (Gyðingalandi), og á að sýna þeim yfirburði hinnar kristnu trúar fram yfir trúarbrögð Mósis. Þegar sumsje Gyðingar hældu sjer af Móses, og af hinni tignarlegu og huggunarríku guðsþjónustu sinni, með fórnum hennar og friðþægingarhátíð,

---

[1]) Brjefin til Tímóteusar, Títusar og Fílemónar eru einu nafni kölluð hin kennimannlegu brjef.

en gjörðu lítið úr hinni kristnu trú, sem fyrirlitinn maður hefði boðað, og væri hið ytra mjög einföld og skrautlaus, þá varð ekki komizt hjá því, að svara þeim. Höfundurinn kennir því, að Jesús sje æðri en englarnir og Móses; að hann sje framvegis hinn sanni æðsti prestur, sem ekki þyrfti að bera fram friðþægingarfórn nema einu sinni, og að trúin á hann sje vegur til rjettlætingar.

Á meðal postulanna voru tveir Jakobar. Annar þeirra var bróðir Jóhannesar Sebedeusarsonar, og var hann tekinn af lífi á dögum Agrippu. Hinn var Alfeusarson, og, ef til vill, sá, sem hjá Mt. 13., 55., er talinn meðal bræðra (ɔ: systkinabarn) Jesú. Hann lifði miklu lengur, og var að sögn kirkjufeðranna forstöðumaður safnaðanna í Jórsölum og á Gyðingalandi. Vegna hinnar strengilegu rjettvísi sinnar var hann kallaður Jakob hinn rjettláti. Eptir það Porcius Festus var dauður, ljet æðsti presturinn Ananus myrða hann árið 63, áður en Albínus tók við embætti Festusar. Það virðist líklegt, að þessi postuli hafi skömmu fyrir dauða sinn ritað hið svo nefnda Jakobsbrjef, sem ætlað er öllum kristnuðum Gyðingum fyrir utan Gyðingaland, bæði í Asíu og Grikklandi. Brjef þetta er stýlað gegn misskilningi þeim, sem víða hafði hreift sjer út af kenningu Páls um rjettlætingu af trú án verka (Brjefin til Rómv., Gal., Ebr.), og brýnir það fyrir mönnum, að trúin sje dauð án verkanna, og að trúin ein sje því ekki nóg til rjettlætingar, heldur verði hún að lýsa sjer í verkunum. Það er auðráðið, að ljettúðugir menn, sem með trú hugsuðu sjer einungis lauslega játningu, þyrftu slíkrar aðvörunar við, eins og hitt er einnig auðsætt, að þegar Jakob, eins og Páll, skilur hið nýja líf, sem Jesús vakti, með orðinu trú, þá er hann honum öldungis samhljóða.

Næst í safninu eru þá tvö brjef Pjeturs, og er hið fyrra ritað frá Babýlon til safnaðanna í Asíu hinni minni. Þegar Pjetur reit þetta brjef, hefur hann notað brjefin til Efesus, til Kólossubúa, og Jakobsbrjef, líklega þess vegna, að

hann hefur sjálfur verið þeim mönnum ókunnugur, sem hann reit til. Tilgangur brjefsins er, að búa kristna menn undir þungar þrautir, og það er án efa rjett ætlað, að postulinn hafi haft ofsóknir Nerós keisara fyrir augum. Hið annað brjef Pjeturs er ritað til safnaðar nokkurs í Asíu hinni minni, og á að vara við falskennendum nokkrum, sem komizt höfðu inn í söfnuðinn.

Þrjú næstu brjefin eru eptir þann, sem lengst lifði af öllum postulum Jesú, Jóhannes, og bera þau það með sjer, hver höfundurinn er. Líklegt virðist það, að hið fyrsta brjef Jóhannesar sje til safnaðarins í Efesus, sem hann hafði haft forustu fyrir í mörg ár. Það virðist og vera ritað á Paþmos, eins og guðspjallið, og sent með því, til þess að hrinda falskennendum, sem gjörðu lítið úr Jesú og kældu elskuna í hjörtum safnaðarins. Líklegt er og, að hið annað brjef sje ritað um sama leyti til guðhræddrar konu í Efesus, og þess vegna er þar einnig varað við sömu göllum. Það lítur svo út, eins og einhver Díótrèfes hafi dirfzt, að varna sendimanni postulans, er vel má vera að hafi verið með hin fyr nefndu rit, að komast til safnaðarins. En þá hafði Gajus veitt manninum ásjá, og komið honum á framfæri, og til hans er hið þriðja brjefið. Þar lætur postulinn þá von sína í ljósi, að hann muni bráðum sjálfur koma til Efesus.

Hið seinasta brjef í safninu er eptir Júdas (Taddeus) postula. Það er styttra en annað brjef Pjeturs, en sama efnis, og virðist því ritað til sama staðar og í sama tilgangi og það. Höfundur „hins annars brjefs Pjeturs“ hefur án efa haft Júdasarbrjef fyrir sjer, og hafa menn efazt um, hverjir vera mundu höfundar beggja þeirra[1].

Hin síðasta bók í nýja testamentinu er skáldlegt spádómsrit: Opinberun Jóhannesar (Apokalypsis), og er

---

[1]) Brjef Jakobs, Pjeturs, Jóhannesar og Júdasar eru einu nafni kölluð hin almennu brjef (katholsk, καθολικά).

hún rituð á eynni Paþmos. Postulinn sá þar sjón nokkra, og ritar þess vegna sitt brjefið til hvers hinna 7 safnaða í Asíu hinni minni, með uppörfunum og áminningum. Sjónin heldur á fram á himnum uppi, og þar sjer postulinn dýrð guðs og bókina með hinum 7 innsiglum. „Lambið“ leysir þau, og þá steypist ógn og ógæfa yfir alla jörðina. Ógæfan fer einatt vaxandi, þangað til að í því hið sjöunda innsigli er brotið, þá koma fram 7 englar, sem blása í lúðra. Þá kemur fram kona ein dýrðleg, og drekinn ætlar að gleypa barn það, sem hún á að fæða. En engillinn Mikjáll rekur drekann á flótta, sem nú hefur stríð við vini konunnar. En á meðan leggja tvær ófreskjur mennina undir sig. Loksins kemur hin seinasta refsing frá himnum yfir hina guðlausu jörð, og sigurvegarinn, konungur konunganna, sjest á hvítum hesti. Menn og höfðingjar eru fallnir, og höfðingi vonzkunnar er fjötraður í djúpinu. Dómsdagur er haldinn. Ný jörð og nýr himinn myndast, og þar er huggun og friður og eilíft ljós. Þetta er efnisröðin í skáldskap Jóhannesar, sem án efa á að vera líking um sigrandi stríð kristninnar við heiðindóm og Gyðingatrú.

---

# Viðbætir.

## *Um heiðindóminn og ástand hans, þegar lausnari heimsins fæddist.*

### 1. Um hina heiðnu trú.

Trúarbrögð heiðingjanna voru marghátttuð. Menntun þjóðanna, ásigkomulag landanna og einkenni löggjafans gáfu þeim einkennilegt snið í ýmsum löndum. Persar tignuðu eldinn, Egyptar dýr, en Grikkir trúðu á guði í manna myndum, sem þeir bjuggu sjer til. Í Týrus og Kartagó voru guðunum færðar mannfórnir eða mannblót, en á Egyptalandi voru guðirnir tignaðir með glaðværum samkvæmum, veizlum og hátíðahöldum. En þrátt fyrir þetta allt getum vjer þó skoðað hina heiðnu trú eins og e i n a, því það er hún í raun og veru.

Aðalskoðun heiðingjans á hinu guðdómlega er fólgin í því, að hann lætur guðina vera í h e i m i n u m og steypir þeim saman við hann. Þar sem vjer sjáum líkami og öfl, aðdrátt og hrindingu, hreifingu og kyrrð, líf og eyðileggingu, þar sáu heiðingjarnir lifandi verur, kærleika og hatur, störf og aðgjörðaleysi, fæðingu og dauða. Þeir ímynduðu sjer, að stjörnurnar og náttúruöflin væru lifandi, og gjörðu þau að guðum. Eins gjörðu þeir og sigursæla herforingja, vitra konunga, og þá, sem höfðu uppgötvað einhverja nytsama íþrótt eða atvinnuveg, að guðum. Guðir heiðingjanna voru þannig ekki yfir eða fyrir utan náttúruna, heldur í henni, og þó þeir væru voldugri og æðri en mennirnir, voru þeir þó háðir lögum náttúrunnar, því þeir voru komnir af henni.

Þessa aðalvillu tekur Páll postuli fram, þegar hann segir (Róm. 1., 25.), að heiðingjarnir taki skepnuna fram yfir skaparann, og hún er rót allra annara rangra ímyndana þeirra um hið guðdómlega.

1. Heiðinginn skiptir hinu guðdómlega í fjölda (P o l y t h e i s m u s, fjölgyði, marggyði), því athuga mannsins virðist

náttúran vera sett saman af ýmsum pörtum. Hinn hvelfdi himinn er annað en hið ókyrra haf, og þó er hið þurra land ólíkt því hvorutveggju. Eldurinn er annars konar afl en vindurinn, og meðal mannanna eru einstök fyrirtök, sem aldrei gleymast, þar sem fjöldinn lifir og deyr án þess að hans gæti nærri því í nokkru. Hugmynd um eina allsherjar sál eða anda (Pantheismus, algyði) getur að vísu sprottið af ímynduninni um, að stjörnurnar og náttúruöflin sjeu lifandi, en heiðinginn nam staðar við hina aðgreinandi skoðun, og engin þjóð tignaði hið gjörvalla í einu lagi. Alstaðar tignuðu menn fleiri en einn guð, optast nær marga í senn, og er tímar liðu fram, fjölgaði tala þeirra, eptir því sem menn bættu fleiri og fleiri guðum annara þjóða við tölu sinna eigin, og annaðhvort þjóðirnar hófu mikla og ágæta menn í guðatölu af þakklátsemi við þá eða smjaðri, eða stjórnendurnir gjörðu það af kænsku (Mythi, goðasögur, Eddur).

2. Heiðinginn tignar hið guðdómlega eins og eitthvað sjáanlegt. Þegar hann tekur náttúrulíkamann (t. a. m. sólina) fyrir guð, þá er mynd guðs beinlínis þar í. Ef hugmyndin um guð þar á móti er öðru vísi upp komin, þá er hann gjörður sjáanlegur annaðhvort með einkenni, sem hefur í sjer eitthvert tákn upp á veru hans og störf, eða með mynd (líkneskju), sem sýnir hann eins og haldið er hann líti út. En einkennið eða myndin rann í skoðuninni saman við veruna, sem það hlýddi upp á; náttúrulíkamirnir, einkennin og myndirnar voru teknar fyrir guðina sjálfa. Það var svo fast við guðsþjónustu fornþjóðanna, að tigna eitthvað sjáanlegt, að þær gátu ekki hugsað sjer nein trúarbrögð án þess, og sá, sem ekki tignaði myndir eða líkneskjur, var kallaður trúarlaus eða guðlaus.

3. Guðir heiðingja eru þjóðlegir. Náttúrulíkamirnir hafa ýmsa þýðingu í ýmsum löndum, og skoðun manna á öflum náttúrunnar er harðla ólík. Það voru ekki heldur sömu mennirnir, sem allar þjóðir höfðu ástæðu til að bera virðingu fyrir eða votta þakklæti. Rómverjar gjörðu að vísu ýmsar breytingar í trúarbrögðum eða trú þeirra þjóða, sem þeir lögðu undir sig, eins og Grikkir höfðu að sínu leyti haft töluverð

áhrif á þá í þeim efnum, en allt fyrir það voru þó hin fornu trúarbrögð við lýði, þegar Kristur fæddist, og mörgum árum þar eptir voru heiðingjarnir jafnvel á þeirri ætlan, að sá væri ekki með öllum mjalla, sem gæti ímyndað sjer, að Grikkir (Hellenar) og Ekki-Grikkir (Barbarar), Asíubúar og Evrópumenn mundu taka sömu trú.

4. Heiðinginn álítur, að guðir og menn sjeu í líkamlegu sambandi sín á milli, líkt og hver maður er í við annan. Áhrif guðanna á heiminn eru bundin við opinberun og eitthvert það starf, sem augað sjer og eyrað heyrir. Þeir eru sjálfir í musterum (hofum) sínum, og þar heyrist rödd þeirra opt í næturkyrrðinni. Það er að eins í návist þeirra, sem kvennpresturinn (hofgyðjan, Præstinden) getur sagt fyrir óorðna hluti. Á innýfli fórnardýranna marka þeir tákn þess, er verða á. Þeir hafa opt birzt mönnum í líkamlegri mynd, og þegar þeir berjast fyrir vinum sínum, sjá menn herflokka þeirra í loptinu og heyra til þeirra vopnabrakið.

Mennirnir hafa á líkan hátt áhrif á guðina; með orðum sínum, og afli einhvers heilags starfa, geta þeir knúð þá til, að uppfylla bænir sínar, til að birta sjer hið ókomna og jafnvel til að láta sjá sjálfa sig. Bænin ryður sjer inn í eyru þeirra eins og heyranlegt hljóð. Vígsla hinna helgu staða bindur afl þeirra við helgidóminn, og fórnin hressir þá með ilm sínum eða gleður þá eins og vinargjöf. Rómverjar hjeldu guðum sínum jafnvel heimboð, til þess að sefa reiði þeirra, og það var siður, að kyssa, smyrja og setja blómsveiga á líkneskjur guðanna.

Takmark hinnar heiðnu guðsdýrkunar var það, að beygja guðina og knýja þá til, að uppfylla óskir mannanna. Prestarnir voru þeir einu, sem báru skyn á list þessa, og sem með öflugum hætti kunnu að framkvæma störf guðsþjónustunnar. Þess vegna var og töfralist eins almenn hjá fornþjóðum, eins og spádómslistin. Menn höfðu alstaðar trú á töfraorðum og leyndardómum þeim, er menn gætu vakið hulin öfl með, neytt andana til hins og þessa, og tekið fram í gang hlutanna.

5. Heiðinginn biður guði sína einungis um jarðneska

hamingju og tímanlega velferð. það er af því, að guðirnir eru í heiminum, en ekki fyrir utan hann nje yfir honum. þeir lifa að vísu sælli og dýrðlegri uppi á hæðum sínum (fjallatindum, Olymp) en mennirnir niðri í dölum jarðarinnar, en þeir eru þó ekki sælir af því, að þeir njóti stöðugrar sálarrósemi. það er ekki heilagleiki, heldur veldi, sem gefur þeim þýðingu í augum dýrkanda sinna. þessa vegna gátu menn ekki heldur beðið þá um sigur yfir löstunum, nje um eptirbreytnisvert líf og eilífa sælu; því þeir áttu ekki þessi gæði til sjálfir, og kunnu ekki heldur að meta þau. Heiðinginn bað ekki um annað en sigur í stríðinu gegn óvinum sínum og ættjarðar sinnar, langlífi og frjófsöm ár, og þetta var það eina sem guðirnir veittu honum.

Hinar lágu hugmyndir heiðingjanna um annað líf eru þessu mjög sameinaðar. þeir þekktu ekki neitt auðmjúkt og trúað innvortis líf, sem lypti sjer upp yfir gang heimsins eða náttúrunnar. þeir þekktu ekki heldur þá vegsemd, er frelsisstörfin hafa í för með sjer, nje gleði neins sælufulls samfjelags. — Í stuttu máli: þá vantaði alla hugmynd um guðsríki. það var þess vegna ekki að undra, þó þeir álitu ekki annað líf eins og neina framför eða fullkomnun, heldur eins og stöðvun og apturför. Líf hins dána var annaðhvort sálarflakk (líkamsskipti, ɔ: endurnýjun hins jarðneska lífs í öðrum líkama og mynd), eða upptekning hinnar jarðnesku tilveru í undirheimi, sem var í viðlíka sambandi við jarðríki, eins og skugginn er í við líkamann — afllaus og dreymandi. þegar Odysseifur ætlaði að hugga kappann Akkilles, eða skugga hans, sem hann hitti í undirheimi, þá svaraði hann (ɔ: skugginn): „Mæl þú engum huggunarorðum til mín um daudann. Jeg vildi heldur vera vinnumaður hjá fátæklingi, en konungur yfir öllum hinum dauðu.“ þó voru þeir Bíton og Kleóbis kallaðir sælir, af því þeir urðu bráðkvaddir vegna barnlegrar elsku sinnar.

## 2. Samband heiðinnar trúar og siðgæða.

Heiðingjar álitu ekki, að guðirnir væru öldungis afskiptalausir um yfirtroðslur eða brot mannanna. Eins og mennirnir

hjeldu þeir upp á rjettlæti og tryggð, en mislíkaði yfirtroðsla helgra laga. Þessa vegna voru guðirnir álitnir hefnendur morða og meineiða og allra brota gegn gestarjettinum. Stjórnendurnir fólu einnig lög sín undir vernd guðanna, og helguðu góða siði og reglur með því, að eigna þeim guðlegan uppruna. En ástæðan til þess, að hin fornu trúarbrögð rjeðu til dyggðar bæði í heimilis- og fjelags-lífinu, var einungis sú, að annars hefði heimilið skort frið og gleði, og föðurlandið rósemi og staðfestu. Dyggðin hefur þess vegna ekkert gildi út af fyrir sig, heldur er hún meðal til þess, að öðlast jarðneska hamingju og stundlega velferð.

Þessi heiðna skoðun á eðli dyggðarinnar stendur í nánu sambandi við það, sem vjer höfum sagt hjer að framan, og þegar er tekið fram, þar sem skýrt var frá þeirri skoðun, sem ætlar, að hið guðdómlega sje alveg fólgið í náttúrunni. Hún útilykur hin verulegu siðgæði, og margar þær athafnir, sem jafnvel heiðingjar kalla vondar, gætu þannig hugsazt og orðið mæld bót, þar eð þær efldu jarðneska hagsæld og velgengni. — Vjer skulum nú renna augunum yfir nokkur af þessum skaðlegu áhrifum, sem trú heiðingjanna á það, að náttúran væri guð, og röng skoðun þeirra á því efni, hafði á hið opinbera og oss kunnuga líf þeirra.

1. Heiðinginn hefur jafnvel saurlífis-guði, sem hann tignar með því, að stæla eptir hinum blygðunarlausu dæmum, sem hann sjer í sögu þeirra. Margar svívirðilegar hátíðir voru opinberlega haldnar til virðingar þessum guðum; heima mátti heiðinginn eiga sjer hjákonur, og í flestum löndum leyfðist foreldrunum að drepa börn sín.

2. Hver þjóð hefur sína guði og álítur þá æðsta; þess vegna fyrirlítur hver þjóðin aðra, og hinn hertekni er, eins og útlendingurinn, álitinn óvirðulegri en landsmennirnir. Hjer við bætist nú, að virðing fyrir gildi mannsins hverfur, þegar líf og sæla er takmörkuð við hina jarðnesku tilveru; þar á móti þróast sjálfselskan og leitast með öllum hætti við, að afla sjer tímanlegrar hamingju. Þess ber og loks að gæta, að trúin á mannjöfnuðinn hverfur, þegar sumir eru taldir guða-

ættar. Með því getum vjer gjört oss grein fyrir ánauð fornþjóðanna, og mati þeirra á þrælum og ambáttum. Tveir þriðjungar þeirra, sem um fæðingu Krists voru í Rómverjaríki, voru ánauðugir, það er menn, sem voru skoðaðir eins og hlutir, og höfðu því alls engin rjettindi, voru seldir, svívirtir, og optast nær á endanum drepnir niður, án þess stjórnin legði þar nokkra hegningu við. — Tveir hinir vitrustu heiðingjar voru þeir Plató og Aristóteles; þó álitu þeir það leyfilegt, að drepa þræl sinn, og að lítill eða enginn munur væri á þrælnum og vinnudýrinu.

3. Til þess að hneigja að sjer guðina, fórnar heiðinginn opt því dýrmætasta, sem hann þekkir: þess vegna einnig mönnum. Slíkar fórnir voru almennar hjá Feneyingum og Afríkubúum, og á seinustu tímum voru þær eigi heldur óþekktar hjá Grikkjum og Rómverjum, að því leyti sem þeir slátruðu herteknum mönnum til virðingar guðum sínum eða föllnum köppum. Hinir óttalegu skilmingaleikir (Gladiatorkampe), uppáhaldsskemmtun Rómverja, sem ótrúlegur fjöldi manna (stundum 20,000 á mánuði) beið bana í, voru einnig í fyrstunni helgaðir guðunum.

## 3. Eyðilegging hinna heiðnu trúarbragða.

Á elztu tímum voru prestarnir þeir einu, sem höfðu nokkra þekkingu og lærdóm. Hinir sjúku voru vanir að leita sjer lækninga í musterunum; þangað komu og þeir, sem nokkuð greindi á, til þess að fá jöfnuð á þrætum sínum. Með þessum hætti gátu prestarnir bæði fengið nokkra þekkingu í læknislistinni, og eins safnað saman og geymt ýmsar nytsamar lagaákvarðanir. Þar eð margar af guðasögunum voru líkingarfullar myndir af atriðisgreinum náttúruvísindanna, og prestarnir að minnsta kosti skildu bezt þýðingu þeirra, þá vissu og prestarnir allt það, sem kunnugt var í eðlisfræði eða náttúrufræði og stjörnuvísindum. En smámsaman mynduðust vísindi jafnhliða vísindum prestanna, og þeir misstu þegar nokkuð af áliti sínu við það, er þeir urðu ekki lengur þeir einu, sem nokkuð vissu.

En hitt var þó meira, að þessi vísindi, sem vjer köllum

með einu nafni heimsspeki, komust í bága við hinar ríkjandi trúarhugmyndir. Á þessu bar fyrst á Grikklandi. Ksenófanes neitaði því, að guðirnir litu út eins og menn. Anaxagóras kallaði sólina glóandi hnött, eða efni. Sókrates var grunaður fyrir, að hann vildi koma með nýja guði, af því að kenning hans var svo miklu hreinni, en hinna spekinganna, og Plató, með allri sinni varkárni, gat ekki stillt sig um, að tala gegn hinu svívirðilega í guðasögunum. Stóíkarnir Zenó, Kleantes og Krýsippus þýddu sumar þeirra á líkingarfullan hátt, og Panætius vefengdi spádómslistina.

Þessir menn, sem efuðust um einstök atriði, urðu undir eins hættulegir fyrir hinn gamla átrúnað. En um sama leyti komu aðrir menn fram, sem alveg köstuðu hinni ríkjandi kenningu, og við það óx hættan enn meir. Af þeim voru sófistarnir fyrstir, sem nærri því allir neituðu, að guð væri til. Næst eptir þá komu kyrenaíkarnir og breiddu út sömu kenningu. Einn af þeim, Euhemerus að nafni, stóð á því, að Seifur (Jupíter) væri grafinn á Krít, og að Venus hefði verið portkona (soror publica) á Kípur (Cypern). Epíkúringar, sem smámsaman fengu yfirhöndina, börðust í orði og verki við trúna. Þeir viðurkenndu engan sannleika fyrir utan hlutaheiminn, og álitu líkamlega nautn vera hið æðsta. Þeir sögðu alla trú og guðsþjónustu lygar og svik, sem skylt væri að trufla, og óskandi að eyðileggja.

Efi og vantrú fluttust frá Grikklandi til Rómaborgar. Í stríðunum við Grikki urðu Rómverjar kunnugir grískum vísindum og grískum ritum. Ungir Rómverjar námu vísindi á Grikklandi, og grískir heimsspekingar fengu aðgang að heimilum Rómverja, og voru þar eins og vinir eða til skemmtunar. Í Rómaborg komu einnig menn fram, sem annaðhvort rjeðust á einstök atriði hinnar fornu trúar, eða þá neituðu allri trú. Æðsti presturinn Mucius Scævola (80 f. Kr.), áleit að trúin væri stjórnarbragð, sem höfðingjarnir hefðu búið til. Terentius Varro hjelt rjettara, að tilbiðja guðina án líkneskja, og benti í því tilliti á dæmi Gyðinga. Cicero neitaði guðasögunum og spádómslistinni. Skáldið

Lucretius mælti fram með kenningu Epíkúrs, af því hún frelsaði sál mannsins frá öllum ótta fyrir guðunum. þessari kenningu varð og mikið ágengt meðal Rómverja, því með henni gátu þeir fegrað lestina, sem á dögum keisaranna urðu svo megnir, að lýsing þeirra tíma á lifnaði Rómverja skarar fram úr allri svívirðingu. Næst Epíkúringum er mest talað um stoíka, og varð þó sá flokkur aldrei mjög fjölmennur. þeir kröfðust dyggðugs lífernis, án þess að kenna þó trú á guð. þeir fyrirlitu hina spilltu öld, sem þeir lifðu á, og álitu rjett, að fyrirfara sjálfum sjer, til þess að sleppa hjá óhamingjum þessa lífs.

Vantrúin átti þeim mun hægra með, að breiðast út frá höfuðborg heimsins, Rómaborg, sem þær þjóðir, er Rómverjar höfðu lagt undir veldi sitt, höfðu orðið að kannast við máttleysi guða sinna. En við það, er vantrúin þróaðist, kom upp gagnstæði hennar, en það var hjátrúin. Prestarnir fluttu sig burtu af stöðvum sínum til annara staða og landa, og ætluðu þar að reyna til, að vinna sjer það álit, er vantrúin hafði svipt þá heima. Og þar sem hinn upplýstari flokkurinn gjörði gis að hinni nýju guðsþjónustu, sem á ýmsum stöðum var haldin til virðingar Ísis Egipta, Kýbelu Frýga, Gyðju Sýra, eða Sólarguði Persa, tóku þeir með feginleika og nýrri von við útlendum prestum, sem ekki höfðu getað losað sig við löngun eptir trú, og fundu sjer þörf á henni, jafnvel þó þeir hefðu kastað landstrú sjálfra sín. þannig sundruðust og blönduðust nú hin fornu trúarbrögð og átrúnaðir; helgidómarnir urðu eins og skuggar horfinnar trúar, og fyrirboðar nálægrar eyðileggingar og dauða hins gamla heims.

Heiðindómurinn átti og sína spámenn. Sókrates kvartaði yfir hinni megnu spillingu aldar sinnar, en vonaði jafnframt, að einhver heilagur maður mundi þó koma og hreinsa líf ríkjanna. Plató talar opt um nauðsyn guðlegrar opinberunar. þegar Jesús fæddist, var sú von almenn, jafnvel meðal heiðinna manna, að frá Júdeu mundi koma jarðneskur alheimskonungur. þar sem Svetóníus talar um Vespasí-

anus keisara, segir hann frá því, að „um öll austurlönd sje það gömul og ríkjandi ætlan, að eptir ákvörðun forlaganna muni þá einhverjir koma frá Gyðingalandi og leggja allan heiminn undir sig“. Og Tacítus segir, að „margir hafi haft þá trú, að það stæði skráð í gömlum ritum eptir prestana, að austurlönd skyldu komast til veldis, og nokkrir menn frá Júdeu mundu leggja undir sig allan heiminn“.

## 4. Stuðningsatriði hinnar heiðnu trúar.

Hnignun og eyðilegging hinnar fornu trúar var undirbúningur annarar nýrrar. En þar af leiðir þó ekki, að hin nýja trú fengi greiðan framgang, sízt ef hún væri öldungis gagnstæð hinni heiðnu.

Lakasta mótspyrnan hlaut að vera sú, er kæmi af vondum vilja. Heiðinginn er vanur að fylgja fýsnum sínum; guðir hans bjóða honum það eitt, sem hann leggur þeim í munn; þetta gjörir heiðingjann rólegan í því, að syndga, en sú ró raskast, þegar samvizkan vaknar við hugsunina um heilagan vilja heilags löggjafa. Sá sem nú metur hina fornu ró meira en hið nýja líf, hann hatar þá, sem boða hið nýja líf og brynjar sig út í stríð móti þeim.

Enn fremur voru trúarbrögð heiðingjanna á marga vegu fljettuð inn í hið borgaralega líf. Prestum, íþróttamönnum og kaupmönnum hlaut sjer í lagi að vera um það hugað, að hin forna guðsdýrkun hjeldist við, því það var þeirra mesti hagur.

Loksins ber hjer að telja leyndardómana (mysteria), en það voru heimugleg vísindafjelög, sem menn voru teknir í eptir visst próf og að unnum eiðum. Fræði sú, sem þar var höfð um hönd, var fólgin í algyði, von um tilveru eptir dauðann, einstökum sögum um hið fyrsta ástand mannanna, og náttúrufræðislegum skýringum á ýmsum guðasögum. En algyðið, eða sú kenning, að allt sje guð, getur auðveldlega samrýmzt trúnni á marga guði, sem þá eru skoðaðir eins og partar alheimssálarinnar, og þannig gátu leyndardómarnir hæglega orðið að þeim stöðum, þar sem menn reyndu að búa til

varnir fyrir þjóðtrúnni. Þetta kom og fram, og varð mjög þýðingarmikið vegna þess, að sú kenning, sem gömul, dularfull og mikilsvirt fjelög flytja, fær jafnan greiðar og lotningarfullar viðtökur hjá alþýðunni.

ENDI.



